# GENESIS

og

23 Capitúlar

af

# EXODUS.



Prentuð í Viðey, að forlagi Sekretera O. M. Stephensen, 1840 o. fl.
en hætt við, þegar byrjað vara útgáfu, hinnar yfirskoðuðu og leiðréttu Biblíu
— almennt nefndri "Viðeyjar-Bibl." - prent. árið 1841.



# GENESIS.

## Fyrſta Bók Móſis.

### 1. Kapituli.

Um ſköpun allra hluta á ſex dögum.

Í * upphafi ſkapadi Gud himin og jørd. * Ebr. 11, 3. Jóh. 1, 1. 2. 3.

2. Og jørdin var eydi og tóm, og myrkur var yfir undirdjúpinu, og Guds Andi færdiſt yfir vøtnin.

3. Og Gud ſagdi: verdi ljós, og þar vard ljós.

4. Og Gud ſá ad ljóſid var gott, þá ſkildi Gud ljóſid frá myrkrunum.

5. Og kalladi ljóſid, dag, en myrkrid, nótt, þá vard af kvøldi og morgni ſá fyrſti dagur.

6. Og Gud ſagdi: þar verdi ein * feſting á milli vatnanna, ſem í ſundur ſkal ſkilja vøtnin hver frá ødrum. * 2 Pét. 3, 5.

7. Þá gjørdi Gud eina feſting, og ſkildi vøtnin ſem voru undir feſtíngunni. Og þad ſkédi ſvo.

8. Og Gud kalladi feſtínguna himin, þá vard út af kvøldi og morgni ſá annar dagur.

9. Og Gud ſagdi: ſafniſt vøtnin undir himninum í einn ſtad, ſvo ad ſjáſt megi þurrt land. Og þad ſkédi ſvo.

10. Og Gud kalladi þurrlendid jørd, og ſamanſafnan vatnanna kalladi hann ſjó. Og Gud ſá ad þad var gott.

11. Og Gud ſagdi: láti jørdin af ſér uppvaxa græn grøs og jurtir, hafandi ſædi í ſér og ávaxtarſem tré, ſvo ad hvert beri ávøxt eptir ſinni tegund, og hafi ſitt egid ſædi í ſér ſjálfu á jørdunni. Og þad ſkédi ſvo.

12. Og jørdin framleiddi af ſér græn grøs og jurtir, hafandi ſædi, hvert eptir ſinni tegund, og ávaxtarſøm tré, hafandi ſín egin ſædi med ſjálfum ſér, hvert eptir ſinni tegund. Og Gud ſá ad þad var gott.

13. Þá vard út af kvøldi og morgni ſá þridji dagur.

14. Og Gud ſagdi: verdi ljós á feſtíngu himinsins, ſvo þau ſkilji daginn frá nóttinni, og géfi teikn tíma, daga og ár.

15. Og lýſi á feſtíngarhimni, ſvo þau upplýſi jørdina, og þad ſkédi ſvo.

16. Og Gud gjørdi tvø ſtór ljós, þad ſtærra ljóſid ad ſtjórna deginum, og þad minna ljóſid ad ſtjórna nóttinni, þar ad auk ſtjørnur.

17. Og Gud ſetti þær á feſtíngar-himininn, ſvo ad þær ſkyldu ſkína á jørdina.

18. Og stjórna deginum og nóttinni, og ad sundurgreina ljósid og myrkrid. Og Gud sá ad þad var gott.

19. Og þar vard af kvøldi og morgni sá fjórdi dagur.

20. Og Gud sagdi: vøtnin framleidi af sér hræranleg og lifandi kvikindi, og fugla sem fljúga skulu á jørdunni undir himinsins festíngu.

21. Og Gud skapadi stóra hvalfiska og allsháttud hræranleg og lifandi kvikindi, sem vøtnin gáfu af sér, sérhvert eptir sinni tegund, og allskyns fjadrada fugla, sérhverja eptir sinni tegund.

22. Og Gud sá ad þad var gott. Og Gud blessadi þá, og sagdi: aukist og margfaldist, og uppfyllid vøtnin sjáfarins, og fuglarnir margfaldist á jørdinni.

23. Þá vard af kvøldi og morgni sá fimmti dagur.

24. Og Gud sagdi: jørdin framleidi lifandi kvikindi, sérhvert eptir sinni tegund, fénad, skridkvikindi, og skógdýr jardar, hvert eptir sinni tegund. Og þad skédi svo.

25. Og Gud skapadi skógdýr jardarinnar, hvert eptir sinni tegund, og svo fénadinn eptir sinni tegund, og allskyns skridkvikindi jardar eptir sinni tegund. Og Gud sá ad þad var gott.

26. Og Gud sagdi: vér viljum gjøra manninn, eptir mynd og líkíng vorri, hver ed drottna skal yfir fiskum sjáfarins, og yfir fuglum loptsins, og yfir fénadinum, og yfir allri jørdunni, og yfir øllum skridkvikindum sem hrærast á jørdunni.

27. Og Gud skapadi manninn, * eptir sinni mynd, eptir Guds mynd skapadi hann hann, og hann skapadi þau ** karlmann og kvinnu. * 1 Cor. 11, 7. ** Matth. 19, 4. Marc. 10, 6. 1 Tím. 2, 13.

28. Og Gud blessadi þau og sagdi til þeirra: aukist þid og margfaldist, og uppfyllid jørdina, og gjørid hana ydur undirgéfna, og drottnid yfir fiskum sjáfarins, og yfir fuglum loptsins og yfir øllum dýrum sem hrærast á jørdunni.

29. Og Gud sagdi: sjáid! allsháttadar jurtir, sem géfa sædi af sér á allri jørdunni, og allra handa ávaxtarsøm tré sem géfa sædi af sér, géf eg ydur til fædslu.

30. Og øllum dýrum jardarinnar, og øllum fuglum loptsins, og øllum skridkvikindum sem lifa á jørdu, ad þau eti allskyns grænar jurtir. Og þad skédi svo.

31. Og Gud sá alla hluti þá sem hann hafdi gjørt, og sjá! þeir voru hardla gódir. Og þar vard af kvøldi og morgni sá sjøtti dagur.

## 2. Kapituli.

1.) Hvíldardagurinn. 2.) Þeir helstu og verulegir partar mannsins. 3.) Paradísar aldingardur. 4.) Guds bodord. 5.) Hjónabandid.

1.) Þanninn algjørdist nú himin og jørd, og allur þeirra her.

2. Og svo fullkomnadi Gud á þeim sjøunda degi sín verk, sem hann gjørdi. Og * hvíldist hann sjøunda dag, af øllu sínu verki, sem hann gjørt hafdi. * Ebr. 4, 4.

3. Og hann blessadi þann sjøunda dag, og helgadi hann, af því ad hann hvíldist á þeim sama degi af øllum sínum verkum, sem Gud skapadi og gjørdi.

2.) 4. Þanninn vard nú himininn og jørdin, þá þau voru skøpud, á þeim tíma, þá Gud Drottinn gjørdi jørdina og himininn.

5. Og allra handa tré á mørkinni sem ekki voru ádur fyrri á jørdunni, og allra handa jurtir á akrinum sem ekki uxu ádur fyrri. Því ad Drottinn Gud hafdi þá enn ekki látid rigna á jørdina, og þar var enginn madur sem jørdina fágadi med sínu erfidi.

6. En þar gékk upp ein þoka af jørdunni, og vøkvadi alla jørdina.

7. Og Gud Drottinn gjørdi manninn af jardar-leiri, og blés einum lifandi anda í hans nasir, og svo * vard madurinn ad lifandi sálu. * 1 Cor. 15, 45.

3.) 8. Og Gud Drottinn plantadi einn aldingard í Eden, á móti austri, og setti manninn þángad, hvorn hann hafdi skapad.

9. Og Gud Drottinn lét upp vaxa af jørdunni allra handa tré, sem føgur voru ad sjá, og lystileg ad eta, og lífsins tré í midjum aldingardinum, og þad skilníngs tré góds og ills.

10. Og þar rann ein mikil uppspretta út af

Eden til ad vekva Aldingardinn, og sú upp=
ſpretta ſkiptiſt þadan í fjøgur ſtór vatnsføll.
11. Þad fyrſta heitir Piſon, þad fellur um
allt landid Hevila, og þar finnſt gull.
12. Og gullid þeſs lands er forkoſtulegt,
og þar finnſt Bedellium og gimſteininn Onyx.
13. Þad annad vatnsfallid heitir Gihon,
þad fellur um allt Morland.
14. Hid þridja vatnsfallid heitir Hidekel,
þad fellur fram hjá Aſsyría. Þad fjórda
vatnsfallid er Phrath.
4) 15. Og Drottinn Gud tók manninn, og
ſetti hann í þann Aldingard Eden, ad hann
ſkyldi yrkja hann og vardveita.
16. Og Gud Drottinn baud manninum og
ſagdi: þú ſkalt eta af allra handa trjám í
Aldingardinum.
17. En af því ſkilníngs tré góds og ills
ſkaltu ekki eta, þvíad á hverjum degi ſem þú
etur af því, þá ſkaltu dauda deya.
5.) 18. Og Drottinn Gud ſagdi: þad er ei
gott ad madurinn ſé einnſamann, eg vil gjøra
honum eina medhjálp, þá ſem vera má hjá
honum.
19. Þvíad þá Gud Drottinn hafdi ſkapad
af jørdunni allra handa dýr á mørkinni, og
allskyns fugla undir himninum, þá leiddi hann
þau til Adams, ſvo hann ſæi hvad hann vildi
nefna þau, þvíad hvad helſt nafn ſem mad=
urinn gjæfi øllum lifandi kvikindum, þá ſkyldu
þau ſvo heita.
20. Svo gaf madurinn allra handa fénadi,
og fuglum loptsins, og ſvo allra handa dýr=
um á jørdunni, ſérhverju ſitt nafn. En þar
fannſt engin medhjálp fyrir manninn, ſem
vera mætti hjá honum.
21. Þá lét Gud Drottinn faſtann ſvefn
falla yfir manninn, og þá hann ſvaf, tók hann
eitt af hans rifjum, og byrgdi aptur med holdi.
22. Og Gud Drottinn * uppbyggdi eina
kvinnu af rifbeini því ſem hann tók af mann=
inum, og leiddi hana til hans. * 1 Cor. 11, 8. 9.
23. Þá ſagdi madurinn: þetta er bein af
mínum beinum, og hold af mínu holdi, þar fyrir
ſkal hún karlinna kallaſt, af því hún er af karl=
manni tekin.
24. Og * þeſs vegna ſkal madurinn yfir=
gefa fødur ſinn og módur ſína, og halda ſér
vid ſína egin konu, og þau tvø ſkulu vera
eitt hold. * Matth. 19, 5. Marc. 10, 7. Eph.
5, 31. 1 Cor. 6, 16.
25. Og þau voru bædi nakin Adam og hans
kvinna, og a) ſkømmuduſt ſín ekki.

a) Þurftu ſín ekki ad ſkammaſt.

## 3. Kapituli.

1) Adam og Eva ſyndga; 2) mæta ſtraffi, og fá
huggun med fyrirheiti um Meſsías.

1.) Og Høggormurinn var ſlægari held=
ur enn øll ønnur kvikindi á jørdunni, ſem Gud
Drottinn hafdi ſkapad, og hann ſagdi til
kvinnunnar: Já, ſkyldi Gud hafa ſagt, þid
ſkulud ekki eta af allskyns trjám í Aldin=
gardinum.
2. Þá ſagdi konan til Høggormsins: vid
etum af ávexti trjánna í Aldingardinum.
3. En um ávøxt þeſs trés ſem ſtendur í
midjum Aldingardinum, þá ſagdi Gud: etid
ekki þar af, og komid ekki vid þad, ſvo ad
þid kannſké deyid ekki.
4. Þá * ſagdi Høggormurinn til kvinnunn=
ar, í aungvann máta munud þid dauda deya.
* 2 Cor. 11, 5.
5. Heldur veit Gud þad, ad á hverjum
degi ſem þid etid þar af, þá munu ykkar augu
opnaſt, og þid munud vera líka ſem Gud, og
vita ſkyn góds og ills.
6. Og kvinnan ſá ad tréd var gott ad eta
af, og fagurt ad ſjá, og eitt girnilegt tré til
fródleiks. Og * hún tók af ávextinum og át,
og gaf ſínum manni þar af, og hann át.
* 1 Tim. 2, 14.
7. Þá upplukuſt beggja þeirra augu, og
formerktu þau ad þau voru nakin, og þau feſtu
ſaman fýkjuvidar blød, og gjørdu ſér af lauf=
kyrtla.
2.) 8. Og þá er þau heyrdu Guds Drott=
ins rødd, ſem gekk um kríng í Aldingardin=
um, þá dagurinn var ordinn ſvalur, þá faldi
Adam ſig og hans kvinna fyrir augliti Guds
Drottins, á milli trjánna í Aldingardinum.

9. Og Gud Drottinn kalladi á Adam og sagdi til hans: hvar ertu?
10. Hann svaradi: eg heyrdi þína rødd í Aldingardinum, og eg hræddumst, því eg var nakinn, og af því falda eg mig.
11. Og hann sagdi: hver sagdi þér ad þú værir nakinn? hefur þú ekki etid af því tré sem eg bannadi þér ad eta af?
12. Þá svaradi Adam: kvinnan sú sem þú gafst mér til samlags, hún gaf mér af trénu, og eg át.
13. Þá sagdi Gud Drottinn til kvinnunnar: því gjørdir þú þad? kvinnan svaradi: Høggormurinn sveik mig, svo ad eg át.
14. Þá sagdi Gud Drottinn til Høggormsins: af því ad þú gjørdir þetta, þá vert þú bølvadur á medal allra kvikinda, og á medal allra dýra á jørdu, þú skalt gánga á þínum kvidi, og eta mold jardar alla þína lífdaga.
15. Og eg vil setja óvinskap á milli þín og kvinnunnar, og á milli þíns sædis og * hennar sædis, þad ** sama skal í sundur merja þitt høfud, og þú skalt bíta hann í hælinn. * Gal. 3, 16. ** 1 Jóh. 3, 8.
16. Og hann sagdi til kvinnunnar: eg vil tilskikka þér miklar eymdir, þegar þú verdur ólétt, þá skaltu fæda þín børn med sótt, og þinn vilji skal vera þínum manni undirgéfinn, og * hann skal vera þinn herra. * 1 Cor. 14, 34. 1 Tím. 2, 12.
17. Og til Adams sagdi hann: søkum þess þú hlýddir røddu konu þinnar, og átst af því tré, af hverju eg baud þér, ad þú skyldir ekki eta af, þá skal jørdin vera bølvud fyrir þína skuld, med mædu skaltu þig af henni næra alla þína lífdaga.
18. Þyrna og þistla skal hún bera þér, og þú skalt eta grøs jardarinnar.
19. Í þíns andlits sveita skaltu neyta þíns brauds, þángad til þú verdur ad jørdu aptur, af hverri þú ert tekinn, þvíad þú ert jørd, og * þú skalt ad jørdu aptur verda. * 1 Cor. 15, 21. 22.
20. Og Adam nefndi sína kvinnu Heva, þvíad hún er allra lifendra módir.
21. Og Gud Drottinn gjørdi Adam og hans kvinnu skinnkyrtla, og iklæddi þau þeim.
22. Og Gud Drottinn sagdi: sjáid! Adam er ordinn svo sem einn af oss, og veit bædi gott og íllt. En uppá þad hann ekki skal útrétta sína hønd, og taka af því lífsins tré, og eta og lifa eilíflega.
23. Þá lét Gud Drottinn hann burt úr þeim Aldingardi Eden, svo ad hann skyldi erja jørdina, af hverri hann var tekinn.
24. Hann rak Adam burt, og setti Cherubim fyrir Aldingardinn Eden, med eitt nakid sveipandi sverd, til ad geyma veginn (sem liggur) til lífsins trés.

## 4. Kapituli.

1.) Cains bródur-mord, og 2) nidjar. 3.) Seths fæding.

1.) Og Adam kénndi sinnar kvinnu Evu, og hún vard ólétt, og fæddi Kain, og sagdi: eg hefi ødlast þann mann Drottinn.
2. Og hún vard ólétt í annad sinn, og fæddi hans bródur Abel. Og Abel vard saudahirdir, en Kain vard einn akurmadur.
3. Og þad skédi svo eptir stundir lidnar, ad Kain færdi Drottni fórnir af ávøxtum jardar.
4. Abel bar og fram af frumburdi sinnar hjardar, og af þeirra feiti.
5. Og Drottinn * leit nádarsamlega til Abels og til hans fórnar, en til Kains og hans fórnar leit hann ekki nádarsamlega. Þá vard Kain afar-reidur, svo ad hans yfirbragd afmindadist. * Ebr. 11, 4.
6. Og Drottinn sagdi til Kains: því ertu svo reidur? og hvar fyrir afmindast svo þitt yfirbragd.
7. Er ekki svo? Ef þú ert frómur þá ertu þakknæmur, en sért þú ekki frómur, þá hvílist syndin fyrir dyrum, en lát þú hana ekki hafa sinn vilja, heldur drottna yfir henni.
8. Þá taladi Kain vid bródur sinn Abel. Og þad skédi svo, þá þeir voru til samans á akrinum, ad Kain * reis upp í móti sínum bródur Abel, og sló hann í hel. * Matth. 23, 5. 1 Jóh. 3, 12. Júd. v. 11.
9. Þá mælti Drottinn til Kain: hvar er þinn bródir Abel?

10. Hann svaradi: eg veit ekki, eda á eg
ad vakta minn bródur? Og hann sagdi: hvad
hefur þú gjørt? Røddin þíns bródurs blóds
hrópar til mín af jørdunni.
11. Og bølvadur sértu nú á jørdunni, sem
upplauk sínum munni, og tók þíns bródurs
blód af þinni hendi.
12. Nær þú erjar jørdina, þá skal hún ekki
hér eptir géfa þér af sínum gróda, ráfandi og
og landflótta skaltu vera á jørdunni.
13. Þá sagdi Kain til Drottins: mín synd
er stærri enn þad hún megi mér fyrirgéfast.
14. Sjá! þú útskúfar mér í dag af land-
inu, og eg hlít ad fela mig fyrir þínu aug-
liti, og vera svo ráfandi og landflótta madur
á jørdu, þá vill þad mín verda, ad hver mig
finnur, hann mun slá mig í hel.
15. En Drottinn sagdi til hans: þad skal
ekki ské, heldur hver sem Kain í hel slær, þess
skal hefnt verda sjøfaldlega. Og Drottinn setti
eitt einkénníngarmark á Kain, ad engin skyldi
slá hann í hel, hver sem hann finndi.
16. Svo gékk Kain út frá augliti Drott-
ins, og bjó í landinu Nod fyrir austan Eden.
2.) 17. Og Kain kénndi sinnar kvinnu, og
hún vard ólétt, og fæddi Hanoch. Og hann
uppbyggdi eina borg, og kalladi hana eptir síns
sonar nafni Hanoch.
18. Og Hanoch gat Jrad, Jrad gat Ma-
huiael, Mahuiael gat Matusael, Matusael gat
Lamech.
19. En Lamech tók sér tvær eginkonur, ein
þeirra hét Ada, en ønnur Zilla.
20. Og Ada fæddi Jabal, af honum eru
þeir komnir sem bjuggu í landtjøldum og
voru fjárhirdarar.
21. Og hans bródir hét Jubal, hann hóf
fyrstur manna hørpuslátt og organs leik.
22. Og Zilla vard ólétt og fæddi Tubalkain,
hann var hagleiks madur í allra handa kopar-
smídi og járnsmídi, Tubulkains systir hét Naema.
23. Og Lamech sagdi til sinna kvenna Ada
og Zilla: þid Lamechs kvinnur! heyrid mín ord,
og géfid gaum ad því eg segi: eg hefi í hel
slegid einn mann mér til áverka, og eitt úng-
menni mér til bólgu.
24. Kains skal sjø sinnum hefnt verda, en
Lamechs sjøtíu og sjø sinnum.
3.) 25. Og Adam kénndi sinnar kvinnu ad
nýu, og hún fæddi einn son, hann kalladi hún
Seth, því Gud hefur (sagdi hún) sjed mig,
og géfid mér nú annad sædi, í stadin Abels,
sem Kain sló í hel.
26. Og Seth átti einn son, þann kalladi
hann Enos. Og á þeim tíma hófu menn ad
prédika út af nafni Drottins.

## 5. Kapítuli.

Ættartala forfedranna frá Adam til Nóa.

Þessi er kynkvíslabókin mannsins. Þá Gud
skapadi manninn, þá gjørdi hann hann eptir
Guds mind.
2. Og hann skapadi þau karlmann og kvenn-
mann, og blessadi þau, og kalladi þeirra nafn
manneskjur, á þeim tíma þá þau voru skøpud.
3. Og * Adam var hundrad og þrjátígi
ára gamall, og hann gat einn son eptir mind
og líkíng sinni, og kalladi hann Seth. * Lúc.
3, 36. 37. 38.
4. Og hann lifdi upp frá því átta hundrud
ár, og átti sonu og dætur.
5. Svo ad allur hans aldur var níu
hundrud og þrjátígir ára, og hann andadist.
6. Seth var hundrad og fimm ára gamall,
þá hann gat Enos.
7. Og hann lifdi upp frá því átta hundr-
ud og sjø ár, og átti sonu og dætur.
8. Svo hans allur aldur vard níu hundrud
og tólf ár, og hann andadist.
9. Enos var níutígir ára gamall, og hann
gat Kenan.
10. Og hann lifdi upp frá því átta hundrud
og fimmtán ár, og átti sonu og dætur.
11. Svo ad hans allur aldur vard níu hundr-
ud og fimm ár, og hann andadist.
12. Kenan var sjøtígir ára, og gat Ma-
halaleel.
13. Og hann lifdi upp frá því átta hundr-
ud og fjørutígir ára, og átti sonu og dætur.
14. Svo ad hans allur aldur vard níu hundr-
ud og tíu ár, og hann andadist.

15. Mahalaleel var fimm og sextígir ára gamall, og gat Jared.
16 Og hann lifdi upp frá því átta hundrud og þrjátígir ára, og átti sonu og dætur.
17. Svo hans allur aldur vard átta hundrud fimm og níutíu ár, og hann andadist.
18. Jared var hundrad sextígir og tveggja ára gamall, og gat Enoch.
19. Og hann lifdi upp frá því átta hundrud ár, og átti sonu og dætur.
20. Svo ad hans allur aldur vard níu hundrud sextígir og tvø ár, og hann andadist.
21. Enoch hafdi fimm um sextugt, og gat Mathusalah.
22. Og eptir þad hann hafdi gétid Mathusalah, lifdi hann gudlegu líferni þrjú hundrud ár, og átti sonu og dætur.
23. Og hans allur aldur vard þrjú hundrud fimm og sextígir ár.
24. Og fyrir sökum þess ad hann lifdi svo gudlegann lífnad, þá nam Gud hann í burt, og * hann vard ekki meir sjedur. * Ebr. 11, 5.
25. Mathusalah var hundrad sjø og áttatígir ára gamall, og gat Lamech.
26. Og hann lifdi þadan í frá sjø hundrud áttatigir og tvø ár, og átti sonu og dætur.
27. Svo ad hans allur aldur vard níu hundrud níu og sextígir ár, og hann andadist.
(Mathusalah 969 ára, andadist á því ári þá flódid kom.)
28. Lamech hafdi hundrad tvø og áttatígir ára, og gat einn son og nefndi hann Nóa og sagdi:
29. Þessi skal hugga oss í vorri armædu og erfidi á jørdunni, hverri Drottinn bølvadi.
30. Sídan þar eptir lifdi hann fimm hundrud níutígir og fimm ár, og átti sonu og dætur.
31. Svo ad hans allur aldur vard sjø hundrud sjøtígir og sjø ár, og hann andadist.
32. Nói vard fimm hundrud ára gamall og gat Sem, Cham og Japhet.

## 6. Kapítuli.

1) Gud reidist vondsku mannanna; 2.) bodar þeim synda flódid, og skipar ad byggja ørkina.

1.) En þá er mennina tók ad fjølga á jørdu, og þeir gátu dætur.
2. Þá sáu Guds børn mannanna dætur, ad þær voru frídar, og þeir gengu ad ega hverjar sem þeir vildu.
3. Þá sagdi Drottinn: manneskjan vill ekki láta sig straffa framar meir af mínum anda, þvíad hún er hold. Eg vil * enn nú gefa þeim frest um hundrad ár og tuttugu. * 1 Pét. 3, 20. 2 Pét. 3, 9.
4. Á þeim tíma voru týrannar á jørdu. Þvíad þá Guds børn løgdust med dætrum mannanna, og gátu børn med þeim, þá jukust þar af voldugir og nafnkunnugir menn á jørdunni.
5. En þá ed Drottinn sá þad, ad mannanna íllska var mikil á jørdunni, og ad øll þeirra hjartans hugsan og ásetníngur var ætíd til ílls eins hneigdur.
6. Þá ydradist Gud, þad hann hafdi manninn skapad á jørdu, og þad ángradi hann í sínu hjarta, og hann sagdi:
7. Eg vil afmá af jørdu þá manneskju sem eg hefi skapad, bædi menn og fénad, skridkvikindi og fugla loptsins, þvíad eg ydrast ad eg skapadi þad.
8. * En Nói fann nád hjá Drottni.
* Ebr. 11, 7.
2.) 9. Þessi er ættkvísl Nóa. Nói var einn réttlátur og óstraffanlegur madur, og lifdi gudrækilega í sinni tíd.
10. Hann gat þrjá sonu, Sem, Cham, Japheth.
11. En jørdin var fordjørfud fyrir Guds augliti, og full ránglætis.
12. Þá leit Gud á jørdina, og sjá þú! hún var fordjørfud, því ad allt hold hafdi fordjarfad sína vegu á jørdunni.
13. Þá mælti Gud vid Nóa: endíng alls holds er komin fyrir mér, því ad jørdin er full ránglætis af þeim, sjá þú! eg vil fordjarfa þá ásamt med jørdunni.
14. Gjør þér eina ørk af grenividar trjám, og gjør sína hús í henni, og bræd hana med bik utan og innan.
15. Og gjør hana svo, hún skal vera þrjúhundrud álna á leingd, fimmtígir álna á breidd, og þrjátigir álna á hæd.

16. Þú skalt og gjöra einn glugga ofan á
örkinni, einnrar álnar háann. Dyrnar skaltu
setja utan á hennar síðu. Og hún skal hafa
þrjú lopt, eitt neðst, annað í miðju, og þrið-
ja efst.
17. Því að, sjá þú! eg vil láta koma eitt
flóð vatna yfir jörðina, til að deyða allt hold
það sem lífs anda hefur meður sér undir himn-
inum, allt það sem á jörðunni er skal fyrirfarast.
18. En við þig vil eg gjöra eitt sáttmál. Og
þú skalt gánga í örkina, ásamt með þínum son-
um, þín kvinna og þínar sonar kvinnur.
19. Og þú skalt innláta í örkina allra handa
dýr, af öllu holdi, já, eitt par af hverju, karl-
kyns og kvennkyns, að þau haldi lífinu með þér.
20. Af fuglunum eptir þeirra kyni, af
fénaðinum eptir hans kyni, og af allsháttuðum
skriðkvikindum jarðar, eptir þeirra kyni. Af
þessu öllu skal eitt par fara inn til þín í örkina,
svo það megi halda lífinu.
21. Og þú skalt taka allsháttaðar fæðslur
með þér sem etandi eru, og safna þeim inn til
þín, svo það megi vera þér og þeim til atvinnu.
22. Og Nói gjörði alla hluti svo sem Guð
bauð honum.

## 7. Kapítuli.

Synda flóðið kémur.

Og Drottinn sagði til Nóa: gakk inn í örk-
ina, þú og allt þitt hús, því að eg. hefi séð
þig, * réttlátann fyrir mér á þessum tíma.
* 2 Pét. 2, 5.
2. Tak inn til þín af allsháttuðum hrein-
um kvikindum, sjö og sjö, karlkyns og kvenn-
kyns, en af óhreinum kvikindum ei meira enn
eitt par, karlkyns og kvennkyns.
3. Líka svo af fuglum loptsins sjö og sjö,
karlkyns og kvennkyns, svo að sæði blífi lifandi
á allri jörðu.
4. Því að eptir sjö daga vil eg láta rigna
á jörðina, í fjörutígir daga og fjörutígir næt-
ur, og afmá af jörðunni allt það sem nokkra
veru hefur; og eg hefi gjört.
5. Og Nói gjörði alla hluti svo sem Drott-
inn bauð honum.
6. En hann var sex hundruð ára gamall,
þegar vatnsflóðið kom yfir jörðina.
7. Og hann inn-gékk í örkina og hans
synir, hans kvinna, og hans sonar kvinnur,
fyrir vatnsflóðið.
8. Svo og gengu inn í örkina til Nóa af
hreinum og óhreinum kvikindum.
9. Af fuglum og allsháttuðum skriðkvikind-
um, sem voru á jörðu, pörum saman, eitt karl-
kyns og kvennkyns, eptir því sem Guð Drott-
inn hafði boðið honum.
10. Og þá þeir sjö dagar voru liðnir, þá
kom vatnsflóðið yfir jörðina.
11. Þá Nói var sex hundruð ára gamall,
á þeim seytjánda degi í öðrum mánuði, það
er dagurinn, þegar uppsprutttu allir uppsprettu-
brunnar hins mikla undirdjúps, og himnarauf-
arnar opnuðust.
12. Og þar rigndi á jörðina í fjörutígir
daga og fjörutígir nátta.
13. Rétt á þeim sama degi gékk Nói inn í
örkina með sínum sonum, Sem, Cham, Japh-
et, og með sinni kvinnu og sínum þremur son-
arkvinnum.
14. Þar með allra handa dýr, hvert eptir
sínu kyni, og allra handa fénaður eptir sínu
kyni, og allra handa skriðkvikindi sem skríða á
jörðunni eptir sínu kyni, og allra handa fuglar
eptir þeirra kyni, allt það sem flogið gat og
vængi hafði.
15. Þetta gékk allt inn í örkina til Nóa,
pörum saman af öllu holdi, í hverju að lífs
andi var.
16. Og það var karlkyns og kvennkyns, af
allskyns holdi, og gengu þar inn, svo sem
Guð hafði boðið honum. Og Drottinn lét
aptur eptir honum.
17. Og * vatnsflóðið kom yfir jörðina í
fjörutígir daga, og vatnið óx og upplypti örk-
inni, hátt yfir jörðina. * Vatnsflóðið kom 27.
Júní eptir heimsins sköpun 1656 ár, fyrir Kristi
hingaðburð 2305 ár.
18. Svo mögnuðust nú vötnin og gengu
yfir allt á jörðunni, svo að örkin flaut á
vatninu.
19. Og vötnin gengu yfir alla jörðina, og

urdu svo mikil á jørdunni, ad øll stór fjøll undir øllum himninum voru í kafi.

20. Fimtán álnum gékk vatnid hærra yfir fjøllin þau sem í kafi voru.

21. Þá * fyrirfórst allt hold þad, sem hrærdist á jørdunni af fuglum og fénadi, skógdýrum og af øllum skridkvikindum jardarinnar, og allir menn. * Matth. 24, 39.

22. Allt þad sem hafdi lifandi anda á jørdu, þad drapst.

23. Þanninn vard afmád allt þad sem á jørdunni var, bædi menn og fénadur, skridkvikindi og fuglar loptsins, þad vard alltsaman afmád af jørdunni. * Nói alleina vard eptir, og þad hvad í ørkinni var med honum. * 1 Pét. 3, 20. 2 Pét. 2, 5.

24. Og vatnid stód yfir jørdunni í hundrad og fimmtígir daga.

## 8. Kapituli.

Synda = flódinu linnir.

Þá minntist Gud á Nóa, og á øll dýr, og á øll þau kvikindi sem voru med honum í ørkinni. Og hann lét vind koma á jørdina, og vøtnin minkudu.

2. Og uppsprettur undirdjúpanna luktust aptur, sømuleidis himnaraufarnar, og regninu af himnum var hamlad.

3. Og vatnid minkadi á jørdunni meir og meir, og þverradi eptir hundrad og fimmtígir daga.

4. Á þeim sentjánda degi þess sjøunda mánadar nam ørkin stadar á fjallinu Ararat.

5. Og vatnid þverradi og minkadi mjøg, allt til hins tíunda mánadar. Á fyrsta degi hins tíunda mánadar skaut upp þeim hærstu fjalla tindum.

6. Fjørutígir døgum þar eptir, lauk Nói upp glugganum á ørkinni sem hann hafdi gjørt.

7. Og lét einn hrafn útfljúga, hann fló í sífellu aptur og fram, þar til ad vatnid þornadi af jørdunni.

8. Eptir þad lét hann eina dúfu útfljúga frá sér, til ad vita hvert vatnid minkadi ekki á jørdunni.

9. En sem dúfan fann ekki þad, ad hún mætti hvíla sinn fót uppá, kom hún til hans aptur í ørkina, því ad vatnid var þá enn yfir allri jørdunni. Svo útrétti hann sína hønd, og tók hana til sín inn í ørkina.

10. Þá beid hann enn í adra sjø daga, og lét aptur eina dúfu fljúga af ørkinni.

11. Og hún kom aptur til hans ad kvøldi. Og sjá þú! Hún hafdi í munni sér eitt afbrotid Olíu laufblad. a) Þá skildi Nói ad vatnid var þverrad á jørdunni.

a) Vidsmjørs vidarlauf, merkir Evangelíum hvert Heilagur Andi lætur prédikast.

12. En hann beid þá enn adra sjø daga, og lét þá enn dúfuna útfljúga, hún kom ekki til hans aptur.

13. Þá Nói var sex hundrud ára gamall og eins árs betur, á þann fyrsta dag hins fyrsta mánadar burt þornadi vatnid á jørdunni. Þá tók Nói yfirrjáfrid af ørkinni, og sá ad jørdin var ordin þurr.

14. Svo var jørdin øldúngis þurr, á þeim sjøunda og tuttugasta degi í þeim ødrum mánudi.

15. Þá taladi Gud vid Nóa, og sagdi:

16. Far þú út af ørkinni, þú og þín kvinna, þínir synir, og þínar sonar konur med þér.

17. Allsháttud kvikindi sem eru hjá þér, af øllu holdi, af fuglum og fénadi, og af allra handa skridkvikindum, sem hrærast á jørdunni, skulu fara út med þér, og hrærid ydur á jørdunni, verid frjóssøm og margfaldist á jørdunni.

18. Svo gékk Nói út med sínum sonum, og med sinni kvinnu, og med sínum sonarkonum.

19. Svo og allra handa dýr, og allra handa skridkvikindi, allrahanda fuglar, og allt þad sem á jørdunni hrærist, þad gékk út af ørkinni, hvert til síns líka.

20. Og Nói byggdi Drottni eitt altari, og tók af allshátttudum hreinum kvikindum, og af allra handa hreinum fuglum, og offradi brennioffur á altarid.

21. Og Drottinn lyktadi þann þókknanlega ilm, og sagdi í sínu hjarta: Eg vil nú ekki hér eptir bølva jørdunni fyrir mannsins skuld,

því að þánkar mannlegs hjarta eru illir í frá úngdómi. Og hér eptir vil eg ekki meir slá allt það sem lifir, svo sem eg hefi nú gjört.

22. Og svo leingi sem jørdin stendur, þá skal ekki linna sáð og kornskurð, frost og hita, sumar og vetur, dag og nótt.

## 9. Kapítuli.

Gud stadfestir sinn sáttmála vid Nóa med regnboganum.

Og Gud blessadi Nóa og hans sonu, og sagdi til þeirra: verid frjóssamir og margfaldist, og uppfyllid jørdina.

2. Ydar ótti og ógn skal vera yfir øllum dýrum á jørdunni, og yfir øllum fuglum loptsins, og yfir øllu því sem hrærist á jørdunni, og allir fiskar í sjónum skulu vera géfnir í ydar hendur.

3. Allt það sem hrærist og lifir það skal vera ydar matur, svo sem grænar jurtir, hefi eg géfid ydur allt þetta.

4. Alleinasta etid ekki það kjøt sem enn nú lifir í sínu blódi.

5. Því eg vil hefna ydar lífs blóds, og eg vil hefna þess á øllum dýrum. Og eg vil hefna mannsins lífs á hverjum manni, svo sem á þeim, sem að er hans bródir.

6. * Hver sem úthellir mannsins blódi, hans blód skal og svo úthellast fyrir manninn. Því Gud hefur skapad manninn eptir sinni mind. * Matth. 26, 52. Opinb. B. 13, 10.

7. Verid frjóssamir og margfaldist og hrærid ydur á jørdunni, svo að þér megid verda margir á henni.

8. Og Gud sagdi ti Nóa og til hans sona med honum:

9. Sjáid! eg uppset einn sáttmála vid ydur, og vid ydvart sædi eptir ydur.

10. Og vid øll lifandi dýr hjá ydur, af fuglum, af fé, og af øllum dýrum á jørdunni hjá ydur, af øllu því sem gékk út af ørkinni, hvad helst dýr þar eru á jørdunni.

11. Og eg uppset svo minn sáttmála vid ydur, að hér eptir skal ekki meir allt hold eydileggjast af flódi vatna, og þar skal ekki framar koma vatnsflód hér eptir, að fordjarfa jørdina.

12. Og Gud sagdi: þetta er teikn þess sáttmála sem eg hefi sett á millum mín og ydar, og allra lifandi dýra hjá ydur, hér eptir til æfinlegrar tídar.

13. Eg hefi sett minn boga í skýunum, hann skal vera eitt teikn, á þeim sáttmála millum mín og jardarinnar.

14. Og þegar það skér, að eg færi ský yfir jørdina, þá skulu menn sjá minn boga í skýunum.

15. Og þá vil eg þenkja á minn sáttmála millum mín og ydar, og allra lifandi dýra, í allsháttudu holdi, að þar skal ei koma eitt vatnsflód hér eptir, að fordjarfa allt hold.

16. Þar fyrir skal minn bogi vera í skýunum, svo eg kunni sjá á hann, og þenkja á þann eilífa sáttmála á milli Guds og allra lifandi dýra, í øllu holdi sem er á jørdunni.

17. Og Gud sagdi það sama til Nóa: þetta skal vera teiknid á þeim sáttmála, sem eg hefi uppreist millum mín og alls holds á jørdunni.

18. Þessir eru Nóa synir sem gengu út af ørkinni: Sem, Cham, Japhet, en Cham er Canaans fadir.

19. Þessir eru þeir þrír synir Nóa, af hverjum øll lønd byggdust.

20. En Nói tók til að yrkja jørdina, og plantadi víngarda.

21. Og sem hann drakk af víni, vard hann drukkinn, og lá nakinn í sinni tjaldbúd.

22. Þá nú Cham, Canaans fadir, sá síns føðurs leyndarlim, þá sagdi hann það bádum sínum brædrum, sem úti stódu.

23. Þá tóku þeir Sem og Japhet eitt klædi, og løgdu uppá sínar bádar herdar, og gengu á bak aptur, þar til, og huldu þeirra føðurs smán. Og þér snéru sínum andlitum þar frá, svo að þeir sæu ei þeirra føðurs blygdan.

24. En sem Nói vaknadi af sínu víni, og fékk að vita hvad hans yngsti son hafdi gjørt honum.

25. Þá sagdi hann: bølvadur verdi Canaan, hann skal vera þræll allra þræla medal sinna brædra.

26. Og sagdi framar meir: lofadur verdi Drottinn Sems Gud, og Canaan sé hans þræll.
27. Gud útbreidi Japhet, og láti hann búa í Sems tjaldbúdum, og Canaan skal vera hans þræll.
28. Og Nói lifdi eptir vatnsflódid, þrjú hundrud og fimmtígir ár.
29. Og hans allur aldur vard níu hundrud og fimmtíu ár, og hann andadist.

## 10. Kapituli.

Ætt og nidjar Nóa barna.

Þetta er ættkvísl þeirra Nóa sona, Sem, Cham, Japhet, og þeir gátu børn eptir flódid.
2. Þessi eru Japhets børn, Gomer, Magog, Madai, Javan, Thubal, Mesech og Thiras.
3. En þessir eru Gomers børn, Ascenas, Riphath og Thogorma.
4. Þessi eru Javans børn, Elisa, Tharsis, Kithim og Dodanim.
5. Af þessum eru allar heidíngjanna eyar útskiptar í þeirra løndum, hver eptir sínu túngumáli, ætt og fólki.
6. Þessi eru Chams børn, Chus, Mizraim, Put, og Canaan.
7. Þessi eru Chus børn, Seba, Hevila, Sabtha, Raema og Sabtecha. Og þessi eru Raema børn, Scheba og Dedam.
8. En Chus gat Nimrod, hann tók til ad verda einn mikilsháttar herra á jørdunni.
9. Og var einn voldugur veidimadur fyrir Drottni. Þar fyrir er þad máltæki uppkomid: hann er einn voldugur veidimadur fyrir Drottni, svo sem Nimrod.
10. Og Babel var upphaf hans ríkis, Erech, Acad og Calne í landi Sinear.
11. Af því landi er Assur sídan kominn, og hann uppbyggdi Ninive og Rehoboth, Ir og Calah.
12. Og þar til Ressen millum Ninive og Calah, þad er einn stór stadur.
13. Mizraim gat Ludim, Anamim, Leabim, Naphtuhim.
14. Pathrusim og Casluhim. Af þessum eru komnir Philistim og Caphthorim.
15. En Canaan gat Zidon sinn fyrsta Son, og Heth.
16. Jebusi, Emori, Girgosi.
17. Hivi, Arki, Sini.
18. Arvadi, Zemari og Hamathi. Af þessum eru þær Cananita ættir útbreiddar.
19. Og þeirra lands álfur taka frá Zidon, í gégnum Gerar, inn til Gasa, þar til ad menn koma til Sódóma, Gomorra, Adama, Seboim, og allt til Lasa.
20. Þessi eru Chams børn, í þeirra ættum, túngumálum, løndum og lýdum.
21. En Sem, Japheths hins elsta bródir, gat og svo børn, hann er allra barna fadir af Eber.
22. Og þessir eru hans synir, Elam, Assur, Arphachsad, Lud og Aram.
23. Synir Aram eru þessir, Uz, Hul, Gether, og Mas.
24. Arphachsad gat Salah, Salah gat Eber.
25. Eber gat tvo sonu, einn hét Peleg, því ad veroldin var skipt í hans tíd, hans bródir hét Jaketan.
26. Og Jaketan gat Almodad, Saleph, Hazarmavet, Jarah.
27. Hadoram, Usal, Dikela.
28. Obal, Abimael, Seba.
29. Ophir, Hevila, og Jobab. Þessir allir eru Jaketans synir.
30. Og þeirra bygdarløg voru fra Mesa, þar til komid var til Sephar, til þess fjalls mót austri.
31. Þessir eru Sems synir, eptir þeirra ætt, túngumálum, landi og lýdum.
32. Þessi er nú ætthríngur Nóa sona, í þeirra ættkvíslum og fólki. Af þeim eru þjódirnar útbreiddar á jørdina, eptir vatnsflódid.

## 11. Kapituli.

1.) Turninn Babel. 2.) Sambland túngumálanna. 3.) Sems ættartala.

1.) En veroldin øll hafdi eitt tal og túngumál.
2. Og sem þeir fóru frá austri, fundu þeir þar eitt sléttlendi í Sinear landi, og bjuggu þar.

3. Og hver sagdi til annars: komid! gjør-
um oss tígulsteina, og brennum þá í eldi.
Og þá tóku þeir tígulsteina fyrir múrgrjót,
og límstein fyrir kalk.
4. Og þeir søgdu: komid! vér viljum byggja
oss einn stad og turn, hvers toppur ad taki
upp í himininn, og gjørum oss svo eitt nafn,
því verda má ad vér úttvístrumst um oll lønd.
2.) 5. Þá fór Drottinn ofan, ad sjá þann
stad og turn sem mannanna synir uppbyggdu.
6. Og Drottinn sagdi: sjá! þetta er ein
þjód, og þeir hafa allir eitt túngumál, og þeir
hafa uppbyrjad ad gjøra svoddan, og ekki munu
þeir láta af ad gjøra allt þad sem þeir hafa
fyrir sig tekid.
7. Komum, látum oss fara ofan og villa
þeirra túngumál, ad enginn skilji hvad ann-
ar segir.
8. Svo sundurdreifdi Drottinn þeim þadan
í øll lønd, svo ad þeir urdu af ad láta ad
byggja þann stad.
9. Því kallast hans nafn Babel, því Drott-
inn villti þar allra landa túngumál, og hann
sundurdreifdi þeim þadan til allra landa.
3.) 10. Þetta er Sems ættkvísl. Sem var
hundrad ára gamall, og átti Arphachsad, *
tveimur árum eptir flódid. * Lúk. 3, 34. 35. 36.
11. Og hann lifdi sídan fimm hundrud ára,
og gat sonu og dætur.
12. En Arphachsad var fimmtán og tuttugu
ára gamall, og gat Salah.
13. Og hann lifdi sídan fjogur hundrud og
þrjú ár, og gat sonu og dætur.
14. Salah var þrjátígir ára gamall, þá
gat hann Eber.
15. Og hann lifdi sídan fjogur hundrud
og þrjú ár, og gat sonu og dætur.
16. Eber var fjórtán og tuttugu ára gam-
all, og gat Peleg.
17. Og hann lifdi sídan fjogur hundrud
og þrjátígir ár, og gat sonu og dætur.
18. Peleg vard þrítugur ad aldri, og gat Regu.
19. Og lifdi sídan tvø hundrud og níu ár,
og gat sonu og dætur.
20. Regu var tólf og tuttugu ára gamall,
og gat Serug.
21. Og lifdi sídan tvø hundrud og sjø ár,
og gat sonu og dætur.
22. Serug var þrítugur ad aldri og gat
Nahor.
23. Og lifdi þar eptir tvø hundrud ára,
og gat sonu og dætur.
24. Nahor var níu og tuttugu ára gamall,
og gat Tharah.
25. Og lifdi sídan hundrad og nítján ár,
og gat sonu og dætur.
26. Tharah var sjøtugur ad aldri, og gat
Abram, Nahor og Haran.
27. Þessi er Tharah ættkvísl, Tharah gat
Abram, Nahor og Haran. En Haran gat Loth.
28. En Haran andadist fyrri enn fadir
hans Tharah, í sínu fødurlandi, í þeim stad Ur
í Chaldea landi.
29. En Abram og Nahor kvongudust. Abr-
ams hustrú hét Sarai. En Nahors kvinna
hét Milca, Harans dóttir, sem var fadir
þeirra Milka og Jisca.
30. En Sarai var óbyrja, og gat engin børn.
31. Þá tók Tharah sinn son Abram og
Loth sinn sonar son, Harans son, og Saraí
sína sonarkonu Abrams kvinnu, og útleiddi þau
frá Ur í Chaldea, ad hann færi í landid Cana-
an. Og þeir komu til Haran, og bjuggu þar.
32. Og Tharah vard tvø hundrud og fimm
ára gamall, og andadist í Haran.

## 12. Kapítuli.

1.) Køllun Abrams; 2.) Ferd, og 3.) Kross.

1.) Og Drottinn sagdi til Abrams: * gakk
út af þínu fóstur landi, og frá þínu frændlidi,
og út af þínu fødurs húsi, til þess lands sem
eg mun vísa þér. * Gjørn. P. Post. 7, 3.
2. Og eg vil gjøra þig ad mikilli þjód, og
blessa þig, og gjøra þér eitt stórt nafn, og
þú skalt vera ein blessan.
3. Eg vil blessa þá sem þig blessa, og svo
bølva þeim sem þér bølva. Og * í þér skulu
blessast allar ættkvíslir á jørdunni. * Gb. Post.
3, 25. Gal. 3, 8.
2.) 4. Svo * ferdadist Abram burt svo sem
Drottinn hafdi sagt honum, og Loth fór med

honum. Abram var sjøtígir og fimm ára gamall, þá hann fór úr Haran. * Ebr. 11, 8.

(Abram ferdast frá Haran til Canaan 430 árum ádur enn fólkid útleiddist af Egyptalandi.)

5. Svo tók þá Abram sína hustrú Saraí, og Loth sinn bródur-son, og alla þeirra fjárhluti sem þeim hafdi aflast, og svo þær sálir sem þeir høfdu gétid í Haran, og fóru út ad reisa í landid Canaan.

6. Og sem þeir voru komnir í þad sama land, fór Abram (þar) í gégnum, allt til þess stadar Sichem. Og til lundsins More. En Cananei bjuggu í þann tíma í landinu.

7. Þá birtist Drottinn Abram, og sagdi: Þínu sædi vil eg géfa þetta land. Og hann byggdi Drottni eitt altari í þeim stad sem hann opinberadist honum.

8. Eptir þad tók hann sig upp þadan til eins fjalls, sem lá fyrir austan stadinn Bethel, og reisti þar upp sitt landtjald, og hafdi Bethel á vestri sídu, en Ai á eystri. Og hann byggdi Drottni þar eitt altari, og prédikadi um Drottins nafn.

9. Þar eptir veik Abram framm lengra, og fór í sudur átt.

3.) 10. Og þar vard mikid hallæri í landinu. Þá ferdadist Abram ofan til Egyptalands, ad hann vildi halda sig þar sem einn framandi madur, því ad mjøg mikid hallæri var í landinu.

11. Og sem hann var kominn hardt nær í Egyptaland, þá sagdi hann til sinnar kvinnu Sarai: sjá þú! eg veit ad þú ert hardla fríd kona álits.

12. Og þegar þeir Egyptsku sjá þig, þá munu þeir segja: þad er hans eginkona, svo munu þeir slá mig í hel, en halda þér eptir.

13. Því bid eg þig, ad þú segir, ad þú sért systir mín, uppá þad mér megi þess betur gánga þinna vegna, og ad mín sál megi haldast vid lífid fyrir þína skuld.

14. En sem Abram kom í Egyptaland, þá sáu þeir Egyptsku menn kvinnuna, ad hún var hardla væn.

15. Og Pharaonis høfdíngjar sáu hana, og hældu henni fyrir honum. Þá var hún høfd í Pharaonis hús.

16. Og hann gjørdi Abram til góda fyrir hennar skuld. Og hann átti saudi, naut, asna, þræla og ambáttir, øsnur og úlfalda.

17. En Drottinn plágadi Pharaonem med mikilli plágu, og hans hús, vegna Sarai, Abrams kvinnu.

18. Þá kalladi Pharaó Abram til sín, og sagdi til hans: því hefur þú gjørt mér svoddan?

19. Því sagdir þú mér ekki, ad hún væri þín egin kona? því sagdir þú þá, ad hún væri þín systir? hvers vegna eg vildi hafa tekid hana mér til eginkvinnu. Sjá! þar hefur þú þína eginkvinnu, tak hana og far í burt.

20. Og Pharaó baud sínu fólki, ad þad skyldi fylgja honum á veg, og hans kvinnu, og øllu því sem honum tilheyrdi.

## 13. Kapítuli.

Abram skilur vid Loth.

Svo fór Abram af Egyptalandi, med sinni kvinnu, og med øllu því hann hafdi, í sudurátt, og Loth var med honum.

2. Og Abram var stór-audugur, ad kvikfé, svo og líka af silfri og gulli.

3. Og hann fór jafnan áframm frá sudri ad Bethel, til þess stadar sem hans tjaldbúd var fyrr, í milli Bethel og Ai.

4. Í þeim sama stad sem hann hafdi ádur gjørt altarid, og hann prédikadi þar um nafn Drottins.

5. En Loth sem fór med Abram, hann hafdi bædi saudi og naut, og svo tjaldbúdir.

6. Og landid var þraungt fyrir þá báda ad búa saman, því þeir høfdu fjølda kvikfjár, svo þeir máttu ekki vera í sambýli.

7. Og þar vard ósamþykki í millum fjárhyrdara Abrams, og í millum fjárhyrdara Loths. Í þann tíma bjuggu Cananei, og svo Pheresei í því landi.

8. Þá mælti Abram vid Loth: kjæri! látum ekki vera nokkra þrætu millum þín og mín, og ekki heldur í millum minna og þinna fjárhyrdara, því vid erum brædur.

9. Stendur ekki allt landid opid fyrir þér? þar fyrir skil þig vid mig, viljir þú víkja til vinstri handar, þá skal eg fara til hægri, eda viljir þú fara til hægri handar, þá skal eg víkja til vinstri.

10. Þá upphóf Loth sín augu, og leit landsálfu alla hjá Jórdan, því ádur enn Drottinn umturnadi Sódóma og Gomorra, þá hafdi hún nóglegann vatns vøkva, allt ad Zoar, líka sem aldingardur Drottins, líka sem Egyptaland.

11. Þá kjøri Loth sér allt þad hérad, sem lá hjá Jórdan, og fór burt til austurs. Svo skildust þessir brædur ad, hver frá ødrum.

12. Abram bjó í Canaan landi, en Loth í stødum þess sama hérads, og setti sína tjaldbúd allt til Sódóma.

13. En fólkid í Sódóma var íllt og syndgadist mjøg í móti Drottni.

14. Og sem Loth var nú skilinn vid Abram, þá mælti Drottinn vid Abram: upplyptu þínum augum, og lít þú frá þessum stad sem þú býr, til nordurs, sudurs, austurs, og vesturs.

15. Því ad allt þad land, sem þú sjer, vil eg géfa þér og þínu sædi æfinlega.

16. Og eg vil gjøra þitt sád sem dupt á jørdu, gétur nokkur talid dupt jardarinnar, sá skal telja þitt sád.

17. Þar fyrir tak þig upp, og far í gégnum landid, bædi á lengd þess og breidd, því eg vil géfa þér þad.

18. Svo tók Abram sína tjaldbúd upp, kom og bjó í lundinum Mamre, hver ed liggur í Hebron, og byggdi Drottni þar eitt altari.

## 14. Kapituli.

1.) Abram frelsar Loth; og 2.) blessast af Melchisedech.

1.) Og þad skédi á døgum Amraphel Kóngs af Sinear, og Arioch Kóngs í Elassar, og Kedorlaomor Kóngs í Elam, og Thideal, sem var heidíngjanna Kóngur.

2. Ad þeir børdust í mót Bera Kónginum af Sódóma, og mót Birsa Kónginum af Gomorra, og í mót Sineab, Kónginum af Adama, og mót Semeber Kónginum af Zeboim, og í mót Kónginum af Bela, sem kallast Zoar.

3. Þessir mættust allir í dalnum Siddim, sem nú er sá salti sjórinn.

4. Því þeir høfdu verid lydskildir í tólf ár undir Kónginum Kedorlaomor, en féllu frá honum á því þrettánda ári.

5. Þar fyrir kom Kedorlaomor og þeir Kóngar sem voru med honum, á því fjórtánda ári, og slóu þá risa sem vóru í Astaroth, Karnaim, og Susim, í Ham og Emim, á því sléttlendi Kiriathaim.

6. Þeir slóu og svo Horeos, á þeirra fjalli Seir, allt til þess vídlendis Pharan, sem liggur til eydimerkur.

7. Eptir þad snéru þeir sér aptur, og komu til þeirrar uppsprettu Mispat, þad er Kades, og slóu allt land þeirra Amalekitarum, Amoreorum, sem bjuggu í Hazezon Thamar.

8. Þá reisti Kóngurinn af Sódóma út, Kóngurinn af Gomorra, Kóngurinn af Adama, Kóngurinn af Zeboim, og Kóngurinn af Bela, sem kallast Zoar, og bjuggust til bardaga í dalnum Siddim.

9. Á móti Kedorlaomor Kónginum af Elam, og í mót, Thideal heidíngja Kóngi, og í mót Amraphel Kónginum af Sinear, og í mót Arioch Kónginum af Elassar, fjórir Kóngar á móti fimm.

10. Og þar voru margar leirgrafir í þessum dal Siddim. En Kóngurinn af Sódóma og Gomorra urdu þar slegnir á flótta og vid velli lagdir, en þeir sem eptir voru flúdu til fjalla.

11. Svo tóku þeir alla þá fjárhluti sem voru í Sódóma og Gomorra, og allt þad sem ætt var, og dróu þar frá.

12. Þeir tóku og svo líka Loth, Abrams bródur son, og hans allann fjárhlut, því ad hann bjó í Sódóma, og svo dróu þeir þar frá.

13. Þá kom einn sem í burt hafdi komist, og sagdi þad Abram útlendska, þeim sem þá bjó í lundinum Mamre Amorhei, sem var bródir þeirra Eskols og Aners, þessir voru sáttmáls bundnir vid Abram.

14. Og sem Abram heyrdi, þad hans bródir var hertekinn, vopnadi hann þrjú hundrud og átján sína húskarla, sem fæddir voru

í hans húsi, og hann fór eptir þeim allt til Dan.

15. Þar skipti hann sínum liðsmønnum, og féll á náttarþeli yfir sína óvini, og feldi þá, og rak flóttann allt til Hoba, hver ed liggur á vinstri síðu frá stadnum Damascó.

16. Og hafdi aptur med sér alla fjárhluti, og svo Loth sinn bródur, og allann hans fjárhlut, svo og kvinnur og fólkid.

17. En sem hann kom aptur frá þessu slagi, sem hann hafdi veitt Kónginum Kedorlaomor, og þeim ødrum Kóngum sem med honum voru, þá gékk Kóngurinn af Sódóma út í móti honum, á þann vøll sem kallast Kónga dalur.

2.) 18. En * Melchisedech Kóngurinn af Salem, bar fram braud og vín, og hann var kénnimadur hins hærsta Guds. * Ebr. 7, 1.

19. Og blessadi hann, og sagdi: blessadur vertu Abram fyrir þeim allra hærsta Gudi, sem ad stýrir himni og jørdu.

20. Og lofadur sé sá allra=hærsti Gud, sem gaf þína óvini í þínar hendur. Og Abram gaf honum tíundir af øllum hlutum.

21. Þá sagdi Kóníngurinn af Sódóma til Abrams: géf mér mennina, en haf þú fjárhluti alla.

22. Abram svaradi Sódóma Kóngi: eg uppհef a) mínar hendur til Drottins þess allra hærsta Guds, sem stjórnar bædi himni og jørdu.
a) (Upphef) Þad er, eg sver.

23. Ad eg vil ekki taka svo mikid sem einn þrád, eda skóþveing af øllu því gótzi sem þér tilheyrir, svo þú skalt ekki segja, ad þú hafir gjørt Abram ríkann.

24. Utan þad sem þeir úngu menn hafa neytt og þeir menn, Aner, Eskol og Mamre, þeir sem reistu medur mér, þá láttu taka sitt hlutskipti.

## 15. Kapituli.

1.) Abrams trú er hrósad. Canaan er 2.) fyrirheitid Abram og 3.) hans nidjum.

1.) Eptir þessa atburdi, bar svo til, ad ord Drottins skédi til Abram, í einni sýn, og sagdi: óttast þú ekki Abram, eg er þinn skjøldur, og þín mjøg stór laun.

2. En Abram svaradi: Drottinn! Drottinn! hvad vilt þú géfa mér? eg fer hédan barnlaus, og minn verkstjóri hefur einn son, þessi Eleeser af Damasco.

3. Og Abram sagdi framar meir: mér hefur þú ekkért sædi géfid, og sjá þú! ad sonur míns þénara, skal vera minn erfíngi.

4. Og sjá þú! Drottinn sagdi til hans: ekki skal hann vera þinn erfíngi, heldur sá, sem kémur af þínu lífi, sá sami skal vera þinn erfíngi.

5. Og hann baud honum ad gánga út, og sagdi: líttu upp til himins og tel stjørnurnar, kanntu ad telja þær? og hann sagdi til hans: * svo skal þitt sædi verda. * Róm. 4, 18.

6. Abram trúdi Drottni, og þad reiknadi hann honum til * réttlætis. * Róm 4, 3. Gal. 3, 6. Jac. 2, 23.

2.) 7. Og hann sagdi til hans: eg er Drottinn sem útleiddi þig frá Ur í Chaldea landi, ad eg gjæfi þér þetta land til eignar.

8. Þá sagdi Abram: Drottinn! Drottinn! hvada merki skal eg hafa til þess, ad eg skuli þad eignast?

9. Og hann sagdi til hans: tak mér eina kú þrévetra, og eina geit þrévetra, og einn hrút þrévetrann, og eina turtildúfu, og eina únga dúfu.

10. Og hann bar allt þetta fram fyrir hann, og sundurskipti því midt í tvo hluti, og lagdi partana hvern gégnt ødrum, en fuglunum skipti hann ekki.

11. Og fuglar settust á hræin, en Abram rak þá í burtu.

12. Sem sólin var nú undirgengin, féll þúngur svefn = høfgi yfir Abram. Og sjá þú! ad ótta miklum og mirkri sló yfir hann.

3.) 13. Þá sagdi hann til Abrams: þad skaltu vita, * ad þitt sædi skal verda framandi á einu landi, sem ad ekki heyrir þeim til, og þar munu menn þjá þad med þrældómi, og plága þad í fjøgur hundrud ára. * Gb. Post. 7, 6. 7.

14. En eg vil dæma þad fólk, sem þeir verda ad þjóna. Þar eptir skulu þeir fara á burt þadan med miklum audæfum.

15. En þú skalt fara med fridi til þinna forfedra, og verda greptradur í gódri elli.

16. En þeir skulu koma hér aptur ad lidnum fjórum manns øldrum, þvíad ránglæti Amorítarum er enn ekki fullkomnad.

17. Sem sólin var nú undirgengin, og myrkt var ordid, sjá þú! þá rauk einn ofn, og einn eldslogi leid fram á medal stykkjanna.

18. Á þeim degi gjørdi Drottinn einn sáttmála vid Abram, og sagdi: þínu sædi vil eg géfa þetta land, frá vatnsfallinu í Egyptalandi, allt til þess stóra vatnsfalls Phrat.

19. Þá Kenita og Kinisita, Kadmonita.

20. Hethita, Pheresita, og Risana.

21. Amoríta, Cananíta, Gergesita, Jebúsita.

## 16. Kapítuli.

1.) Agar fær gétnad, og 2.) fædir Ismael.

1.) Saraí Abrams kvinna, átti ekkért barn, en hún hafdi eina Egyptska ambátt, sú hét Agar.

2. Og Sarai sagdi til Abram: sjá þú! Drottinn hefur a) tillukt mig, svo eg má egi børn fæda, legg hjá þér ambátt mína, svo eg megi, ef ské mætti, b) uppbyggjast af henni. Abram hlýddi raust Saraí.

a) (Tillukt) þad er, hann hefur ei géfid mér ødli til barneignar. b) (Uppbyggjast; þad er: børn ad fá.

3. Svo tók Sarai, Abrams kvinna, þá Egyptsku ambátt Agar, og gaf hana sínum manni Abram til kvinnu, þá þau høfdu búid tíu ár í Canaans landi.

4. Og hann gékk inn til Agar, og hún vard ólétt. Sem hún nú sá, ad hún var ólétt, vyrdti hún lítils sína húsfrú hjá sér.

5. Þá sagdi Saraí til Abram: þú gjørir mér órétt, eg lagda mína ambátt hjá þér, en nú hún sjer, ad hún hefur gétnad fengid, hlýt eg ad vera fyrirlitin hjá henni. Dæmi Gud í millum þín og mín.

6. Þá sagdi Abram til Sarai: sjá þú! þín ambátt er undir þínu valdi, gjør vid hana slíkt þú vilt. Og sem Sarai vildi þjá hana, þá flýdi Agar í burt frá henni.

2.) 7. En Engill Drottins fann hana hjá einum brunni, í eydimørkinni, sem ad liggur hjá þeirri uppsprettu, sem er á veginum til Sur.

8. Hann sagdi til hennar: Agar, Sarai ambátt! hvadan kémur þú? og hvert viltu fara? hún sagdi: eg flýdi frá minni húsfrú Sarai.

9. Og Engill Drottins sagdi til hennar: far heim aptur til þinnar húsfrúr, og audmýk þú þig undir hennar hendi.

10. Og Engill Drottins sagdi til hennar: eg vil margfalda þitt sædi, svo þad skal enginn kunna ad telja fyrir fjølda sakir.

11. Og Engill Drottins sagdi framar meir til hennar: sjá! þú ert ólétt ordin, og þú munt son fæda, hans nafn skalt þú kalla Ismael, því Drottinn hefur heyrt þinn mótgáng.

12. Hann mun vera einn grimmur madur, og hans hønd skal vera í móti hverjum manni, og hvers manns hønd í móti honum, og hann mun búa gagnvart øllum sínum brædrum.

13. Og hún kalladi Drottins nafn sem taladi vid hana: þú Gud! sjer mig, því hún sagdi: sannarlega hef eg sjed þann hér, sem mig sjer hér eptir.

14. Því kalladi hún þann brunn, brunn þess lifanda og mig sjáanda, hver brunnur ad liggur á millum Kades og Bared.

15. Og * Agar fæddi Abram einn son, og Abram kalladi þann son, sem Agar fæddi honum, Ismael. * Gal. 4. 22.

16. Og Abram hafdi sex um áttrædt, þá Agar fæddi honum Ismael.

## 17. Kapítuli.

1.) Abram er nefndur Abraham; 2.) Innsetníng Umskurnarinnar: 3.) Isaak er fyrirheitinn. 4.) Umskurnin er fyrst brúkud.

1.) Þá Abram var níu og níutígir ára gamall, birtist Drottinn honum og sagdi til hans: eg er almáttugur Gud, gakk fyrir mér, og vertu algjørdur.

2. Eg vil gjøra minn sáttmála í millum mín og þín, og eg vil margfalda þig hardla mjøg.

3. Þá féll Abram fram á sitt andlit. Og Gud taladi framarmeir vid hann, og sagdi:

4. Sjá þú! eg em, og eg hefi bundid mitt sáttmál vid þig.

5. Og þú skalt verda margra þjóda fadir. Þar fyrir skaltu ekki lengur heita * Abram, heldur skal þitt nafn kallast Abraham, því eg hefi gjørt þig ad fødur margra þjóda. * Abram kallast hár fadir, en Abraham fadir fjølmennis.

6. * Og eg vil gjøra þig mjøg margfaldann, og eg vil láta koma fjølda fólks af þér, þar skulu og einninn Kóngar koma af þér. * Róm. 4, 17.

2.) 7. Og eg vil uppreisa minn sáttmála í millum mín og þín, og þíns sædis eptir þig, hjá þeirra eptirkomendum, svo þad sé einn eilífur sáttmáli, ad eg sé þinn Gud, og þíns sædis, eptir þig.

8. Og eg vil géfa þér og þínu sædi eptir þig, þad land, í hverju þú ert framandi, sem er þad allt landid Canaan, til einnar eilífrar eignar, og eg vil vera þeirra Gud.

9. Og Gud sagdi til Abrahams: svo haldt nú mitt sáttmál, þú og þitt sædi eptir þig, hjá þeirra eptirkomendum.

10. Þetta er mitt sáttmál, sem þér skulud halda, milli mín og ydar, og þíns sædis eptir þig. * Allt karlkyns, sem er á medal ydar, skal * umskérast. * Gjørnb. Post. 7, 8. Róm. 4, 11.

11. Og þér skulud umskéra yfirhúd ydars holds. Þad skal vera sáttmáls teikn, á millum mín og ydar.

(Umskurnin er innsett 2047 árum eptir heimsins skøpun, fyrir híngadburdinn Kristi, 1915; á því ári afmádist Sódóma og Gomorra; þá kom Isaak til ári seinna).

12. Þér skulud umskéra hvert sveinbarn, þá þad er átta daga gamallt hjá ydar eptirkomendum, líka og einninn hvern heimafæddann heimilis mann, eda tilkeiptann, af hverskyns útlendíngum, sem ecki eru af ydar sædi.

13. Svo skal minn sáttmáli vera á ydar holdi, til eins eilífs sáttmála.

14. Og hvert þad sveinbarn, sem ekki er umskorid á yfirhúd síns holds, þess sál skal afmást frá hans fólki, þvíad hann forlét minn sáttmála.

3.) 15. Og * Gud sagdi í annad sinn til Abrahams: þína kvinnu Sarai skaltu ekki hédan af kalla Sarai, heldur skal hennar nafn vera Sara. Því eg vil blessa hana, og af henni vil eg géfa þér einn son. * Gal. 4, 23.

16. Því eg vil blessa hana, og þar skulu koma þjódir af henni, og svo Konúngar margra þjóda.

17. Þá féll Abraham fram á sitt andlit, og brosti, segjandi í sínu hjarta: skal eg ega barn hundrad ára gamall? og skal Sara nírœd barn fæda?

18. Og Abraham sagdi til Guds: eg vildi Ismael mætti lifa fyrir þér.

19. Þá sagdi Gud: ad vísu, Sara þín kvinna, skal fæda þér einn son, þann skaltu kalla Isaak, því vid hann vil eg uppreisa minn eilífann sáttmála, og vid hans sædi eptir hann.

20. Þar ad auk hefi eg og bænheyrt þig um Ismael, sjá þú! eg hefi blessad hann, og eg vil auka hann, og gjøra hann mjøg margfaldann. Hann mun géta tólf høfdíngja, og eg vil gjøra hann ad einni mikilli þjód.

21. En minn sáttmála vil eg uppreisa vid Isaak, hvern Sara skal fæda þér, í þetta mund á ødru ári.

22. Og hann lét af ad tala vid hann, og Gud fór upp frá Abraham.

4.) 23. Þá tók Abraham sinn son Ismael, og alla þá þénara sem fæddir vóru í hans húsi, og alla þá sem til voru keyptir, og alla adra sem voru karlkyns í hans húsi, og umskar yfirhúd á þeirra holdi, á þeim enum sama degi sem Gud hafdi sagt honum.

24. Og Abraham var níu og níutígir ára gamall, þá hann umskar yfirhúdina á sínu holdi.

25. En Ismael hans son var þrettán ára gamall, þá hans holds yfirhúd var umskorin.

26. Á einum degi voru þeir allir umskornir, Abraham, hans son Ismael.

27. Og allt karlkyns, sem var í hans húsi, heimafæddir og af annarlegum keiptir, þeir vóru allir umskornir med honum.

## 18. Kapituli.

1.) Abraham fær ad nýu fyrirheiti um Isaak; og 2.) er søgd fyrirfram eydilegging Sódóma borgar.

1.) Og Drottinn birtist honum í þeim lund

Mamre, þá hann sat í sínum tjaldbúdardyrum, og dagurinn var sem heitastur.

2. Og er hann upplypti sínum augum, þá stódu þrír menn gagnvart honum. Og sem hann leit þá, rann hann í mót þeim úr sínum tjaldbúdardyrum, og féll fram til jardar.

3. Og sagdi: Herra! hafi eg fundid nád fyrir þínu augliti, þá gakk ekki fram hjá þínum þénara.

4. Ydur skal sækja litid vatn ad þvo ydar fætur, og hvílid ydur undir trénu.

5. Eg vil bera ydur munnbita brauds, svo þér megid styrkja ydvart hjarta, sídan farid ydar leid, því þar fyrir erud þér komnir hingad til ydvars þénara. Þeir svörudu: gjör sem þú mæltir.

6. Abraham flýtti sér inn í tjaldbúdina til Sara, og sagdi: flýt þér og gjör til deigs þrjá mælir hveitimjöls, hnoda og baka kökur.

7. Og hann hljóp til nautanna og sókti einn gódann feitann kálf, og fékk þénaranum, hann flýtti sér og tilreiddi hann.

8. Og hann bar fram smjör og mjólk, og af þeim kálfi, sem hann hafdi tilreidt, og setti þad fram fyrir þá, og hann stód hjá þeim undir trénu, og þeir neyttu.

9. Þá sögdu þeir til hans: hvar er þín kvinna Sara? hann svaradi: hún er þar inni í tjaldbúdinni.

10. Þá sagdi hann: * eg vil koma til þín aptur, ad mér lifanda, sjá þú! þá skal Sara þín kvinna hafa einn son. Þetta heyrdi Sara til baka vid hann, á bak vid tjaldbúdar dyrnar. * Róm. 9, 9.

11. Og Abraham og Sara voru bædi gömul, og hnígin á efra aldur, svo ad kvennlegir edlis hættir voru horfnir frá Sara.

12. Þar fyrir brosti hún med sér sjálfri og sagdi: skal eg nú stunda eptir lysting, þar sem eg er gömul ordin, og * minn herra hníginn ad aldri? * 1 Pét. 3, 6.

13. Þá sagdi Drottinn til Abrahams, því hlær Sara þar ad og segir: mun þad satt, ad eg skuli barn fæda svo gömul?

14. Skyldi nokkur hlutur vera Drottni ómögulegur? eg vil koma til þín á þessum tíma, ad mér lifanda, og skal Sara hafa einn son.

15. Þá þrætti Sara og sagdi: eg hló ekki, því hún var hrædd. En hann sagdi: þad er ekki svo, þú hlóst.

2.) 16. Þá stódu mennirnir upp þadan, og snéru sér til Sódóma. Og Abraham gékk á leid med þeim, til ad fylgja þeim.

17. Þá sagdi Drottinn: hvernin má eg dylja fyrir Abraham því sem eg vil gjöra?

18. Med því hann skal verda ad einu miklu og mektugu fólki, og allar þjódir á jördunni skulu blessast í honum.

19. Því ad eg veit, ad hann mun bjóda sínum börnum og sínu húsi eptir sig, ad vardveita vegu Drottins, og gjöra þad sem rétt og gott er, svo ad Drottinn láti þad koma yfir Abraham, sem hann hefur heitid honum.

20. Og Drottinn sagdi: þar er eitt hróp í Sódóma og Gomorra, þad er mikid, og þeirra syndir eru mjög þúngar.

21. Þar fyrir vil eg fara ofan, og vita hvert þeir hafa gjört allt eptir því hrópi, sem komid er fyrir mig, eda sé þad ekki, svo ad eg megi þad vita.

22. Og mennirnir snéru sínu augliti þar frá, og gengu til Sódóma.

23. En Abraham var standandi fyrir Drottni, og gékk fram fyrir hann, og sagdi: viltu lífláta þann réttláta med þeim ógudlega?

24. Má vera þar finnist fimmtígir réttlátir í stadnum, viltu þá lífláta þá og þirma ekki þeim stad, fyrir sökum þeirra fimmtígir réttlátra manna, ef þeir væri þar?

25. Fjarlægt sé þér þad, ad þú skulir þad gjöra, ad drepa þann réttláta med þeim ógudlegu, ad sá hinn réttláti verdi líkur þeim ógudlega, þad sé lángt frá þér, þú sem ert * allrar veraldarinnar dómari, ekki muntu svo dæma. * Róm. 3, 9.

26. Þá sagdi Drottinn: ef eg finn fimmtígir réttlátra manna í þeim stad Sódóma, þá vil eg fyrir þeirra skuld fyrirgéfa öllu því plássi.

27. Abraham svaradi og sagdi: Ach, sjá! eg hefi um sinn uppbyrjad ad tala vid Drottinn, þar sem eg er þó dupt og aska.

28. Ské má, þar séu fimm midur enn fimm-tígir réttlátra, vildir þú þá afmá allann stad-inn, vegna þeirra fimm? Hann sagdi: ef eg finn þar fimm og fjørutíu, þá mun eg ekki af-má þá.

29. Og hann taladi framar meir vid hann, og sagdi: kannské þar megi finnast fjørutígir inni. En hann svaradi: eg vil ekkért gjøra þeim vegna þeirra fjørutíu.

30. Þá sagdi Abraham: reidst mér ekki, Drottinn! þó eg tali enn meira, máské þar finnist þrjátíu inni? Hann svaradi: ef eg finn þar þrjátíu, þá vil eg ekkért gjøra þeim. Og hann sagdi:

31. Ach, sjá! eg hefi tekid mér fyrir hendur ad tala vid Drottinn. En ef þar inni finnast kannské tuttugu, hann svaradi: eg vil ei for-djarfa þá vegna þeirra tuttugu. Og hann sagdi:

32. Æ, Drottinn! reidst ekki þó eg tali enn alleina eitt sinn; en ef þar finnast tíu. Og hann svaradi: eg vil ekki afmá þá vegna þeirra tíu.

33. Og Drottinn gékk í burt eptir þessar vidrædur vid Abraham. Og Abraham fór apt-ur til síns stadar.

## 19. Kapituli.

1.) Loth er kunngjørd Sódóma eydileggíng; 2.) Hann frelsast; en 3.) syndgar.

1.) Ad aptni komu þeir tveir Englar til Só-dóma, en Loth sat í Sódómu borgar hlidi. Og er hann leit þá, þá stód hann upp í móti þeim, og hneigdi sig med sínu andliti til jardar.

2. Og sagdi: sjáid, herrar! * komid nú inn med mér í hús ydvars þénara, og verid hér í nótt, og látid þvo ydar fætur, svo megid þér vera árla uppi á morgun, og ferdast ykkar veg. Þeir søgdu: nei, heldur viljum vid vera úti á strætum í nótt. * Hebre. 13, 2.

3. Þá neyddi hann þá mjøg þar til, svo þeir gengu inn med honum, og komu í hans hús. Og hann gjørdi þeim eina máltíd, og bakadi ósýrdar kokur, og þeir neyttu.

4. En fyrr enn þeir færi í sængur, þá komu borgarmenn Sódóma stadar, úngir og gamlir, allur lýdur af øllum áttum, og slóu hríng um húsid.

5. Utkølludu Loth, og søgdu til hans: hvar eru þeir menn sem komu til þín í nótt? leid þá út til vor; svo vér megum kénna þeirra.

6. Loth gékk út fyrir dyrnar til þeirra, og lét aptur dyrnar eptir sér, og sagdi:

7. Æ, kjærir brædur! gjørid ekki svodd-an glæp.

8. Sjá! eg hefi tvær dætur, sem enn ní hafa ekki mann þýdst, eg vil leida þær út til ydar, gjørid vid þær hvad ydur lystir. All-einasta gjørid þessum mønnum ekkért, því ad þar fyrir eru þeir hér inngengnir, undir skugga míns húsa þaks.

9. Þeir svørudu: kom þú hér nær. Og enn aptur, þú ert einn útlendur madur hér, og viltu dæma oss, ní vel, vér viljum kvelja þig framar enn þá. * Og þeir brutust hardt inn á þann mann Loth. Og sem þeir hlupu til og vildu brjóta dyrnar upp. * 2 Pét. 2, 7.

10. Seildust mennirnir út, og tóku Loth inn í húsid til sín, og luktu dyrnar aptur.

11. En þeir menn sem voru fyrir dyrunum, urdu slegnir med blindleika, bædi smáir og stór-ir, svo lengi þeir urdu þreyttir, og fundu hvergi dyrnar.

12. Þá mæltu mennirnir vid Loth: ef þú hefur nokkurn mág, sonu eda dætur, eda nokk-urn þér vanda-bundinn í stadnum, þá haf þá burt úr þessum stad.

13. Því vid skulum afmá þennann stad, því ad þeirra hróp er mikid fyrir Drottni, hann sendi okkur híngad ad fordjarfa þá.

14. Loth gékk í burt og taladi vid bidla dætra sinna, og sagdi: standid upp og gángid út af þessum stad, því ad Drottinn vill for-djarfa þennann stad. En þeim þókti þad hlæilegt.

2.) 15. Og þá ed dagadi, budu Englarnir Loth ad flýta sér, og søgdu: tak þína konu og þínar tvær dætur sem hér eru, svo ad þú fyr-irfarist ekki í syndum þessa stadar.

16. Og sem hann seinkadi, þá tóku menn-irnir í hendur honum, og hans kvinnu, og hans tveimur dætrum, því ad Drottinn vildi vægja honum.

17. Og leiddu hann út, og létu hann út fyrir stadinn. Og þá hann hafdi leidt hann út, þá sagdi hann: frelsa ønd þína, og lít eigi aptur á bak, og nem hvergi stadar í þessu héradi, forda þér á fjallinu uppi, svo þú fyrirfarist eigi.

18. Þá sagdi Loth til þeirra: æ nei! herra. Sjá! med því þinn þénari hefur fundid nád fyrir þínu augliti.

19. Þá viljir þú mikla þína miskunsemi, þá þú hefur nú veitt mér, í því, ad þú vildir láta mig halda lífi; eg kann ekki ad, forda mér á þessu fjalli, því kannské ad mér verdi nokkud vondt, svo ad eg megi deya.

20. Sjá! hér er einn stadur eigi lángt hédan, til hans gét eg flúid, og er lítill, þar vil eg hjálpa mér, þó hann sé lítill, ad eg megi halda mínu lífi.

21. Þá sagdi hann til hans: sjá! eg hefi og álitid þig í þessu efni, ad eg vil ekki umturna þeim stad, sem þú hefir talad um.

22. Flýt þér þángad, og forda þér þar, því ad eg kann ekkért ad gjøra, fyrr enn þú ert þar inn kominn. Þar fyrir kallast sá stadur a) Zoar.

a) Zoar: kallast lítil.

23. Og sólin var upprunnin yfir jørdina, þá Loth kom inn í Zoar.

24. Þá lét Drottinn * rigna brennisteini og eldi, frá Drottni af himnum, yfir Sódóma og Gomorra. * Lúk. 17, 29. 2 Pét. 2, 6.

25. Og umturnadi þeim stødum med øllu því héradi, og øllum innbyggjurum stadanna, og øllu því, sem í landinu varid var.

(Gud umturnar Sódóma og Gomorra, sýnandi enn annad eptirdæmi hrædilegrar Guds reidi í gégn syndinni, 392 árum eptir vatnsflódid, 42 árum eptir andlát Nóa, þá heimurinn hafdi stadid 2048 ár, fyrir híngadburdinn Krísti, 1915 ár).

26. Og hans kvinna * leit aptur á bak, og vard ad salt-stólpa. * Lúc. 17, 32.

27. Abraham tók sig upp snemma morguns, til þess stadar, sem hann hafdi ádur stadid fyrir Drottni.

28. Og snéri sínu andliti í mót Sódóma og Gomorra, og til alls lands þeirra hérada, og sá sig um, og sjá þú! þar upp gékk einn reikur af landinu, því líkast sem reikur af ofni.

29. Því þá Gud umturnadi stødunum í þeim eudimørkum, þá minntist hann á Abraham, og leiddi Loth af þeim borgum sem hann eydilagdi, þar sem Loth var búandi.

3.) 30. Og Loth fór af Zoar, og dvaldist á fjallinu med sínum tveimur dætrum, því hann óttadist ad vera í Zoar, og var í einum hellir med sínum bádum dætrum.

31. Þá sagdi sú eldri til þeirrar ýngri: okkar fadir er hníginn á efra aldur, og þar er enginn madur eptir ordinn á jørdu sem leggjast megi med okkur, eptir allrar veraldarinnar plagsid.

32. Þar fyrir kom þú, og géfum fødur okkar vín ad drekka, og sofum hjá honum, svo vid megum kveikja kyn af okkar fødur.

33. Svo gáfu þær sínum fødur vín ad drekka þá sømu nótt. Og sú hin eldri gékk inn, og lagdist hjá sínum fødur. En hann vissi ekki af þá hún lagdi sig, og ekki þá hún upp stód.

34. Um morguninn sagdi sú eldri til hinnar ýngri: sjá þú! í gjær lá eg hjá mínum fødur, vid viljum og svo á þessari nóttu géfa honum vín ad drekka, svo þú megir fara inn og sofa hjá honum, ad vid mættum kveikja kyn af okkrum fødur.

35. Svo líka gáfu þær sínum fødur á þeirri nóttu vín ad drekka. Og sú ýngri dótturin gékk inn, og svaf med honum. Og hann vissi ekki til, þá hún lagdi sig, og ekki þá hún uppstód.

36. Svo fengu bádar dætur Loths gétnad af sínum fødur.

37. Og sú eldri fæddi einn son, þann kalladi hún Moab. Af honum komu þær þjódir er Moabitar kallast, allt til þessa dags.

38. Sú ýngri fæddi og einn son, þann kalladi hún Ben-ammi, af honum komu Ammons børn allt til þessa dags.

## 20. Kapituli.

1.) Abimelech tekur Sara frá Abraham, sem 2.) fær hana aptur óskémda.

1.) Abraham flutti sig þadan í suduráttt lands-

ins, og setti bústad sinn á millum Kades og Sur, og vard a) útlendíngur í Gerar.

a) Framandi.

2. Og sagdi um sína kvinnu Sara: hún er mín systir. Þá sendi Abimelech, Kóngurinn af Gerar, bod eptir henni, og lét sækja hana.

3. En Gud kom um nótt til Abimelech í draumi, og sagdi til hans: sjá þú! þú skalt deya vegna þeirrar kvinnu sem þú hefur tekid, því hún á sér mann.

4. En Abimelech hafdi ekki snert hana, hann sagdi: Drottinn! viltu þá slá réttlátt fólk í hel?

5. Hefur hann ekki sjálfur sagt mér: hún er mín systir? hún hefur og sagt: hann er minn bródir, eg gjørda þetta af einføldu hjarta, og med saklausum høndum.

6. Og Gud sagdi til hans í svefni: eg veit ad þú gjørdir þad af einføldu hjarta, þar fyrir hef eg vardveitt þig, svo þú misgjørdir ekki vid mig, og ei leyfda eg þér ad snerta hana.

7. Svo fá nú manninum sína kvinnu aptur, því hann er spámadur, og lát hann bidja fyrir þér, og muntu lifa. En ef þú fær honum hana ekki aptur, þá skaltu vita, ad þú munt vissulega deya, og allt þad þitt er.

2.) 8. Abimelech reis upp árla um morguninn, og kalladi saman alla sína þénara, og taladi øll þessi ord fyrir þeirra eyrum, og fólkid vard mjøg óttaslegid.

9. Og Abimelech kalladi á Abraham og sagdi til hans: því hefur þú gjørt oss þetta? Hvad hef eg misgjørt vid þig, ad þú vildir leida svo stóraan glæp yfir mig og mitt ríki? ekki hefur þú breitt vid mig eptir því sem þér bar.

10. Og Abimelech sagdi enn framar til Abrahams: hvad hefur þú b) sjed þess, ad þú gjørdir þetta?

b) Sjed: fyrst þú ert Spámadur, þá kannské þér hafi vitrast í sjón, ad eg hafi þetta forþént med mínum syndum.

11. Abraham svaradi: eg hugsadi med mér, ské má, ad ei sé Guds ótti í þessum stad, og kann vera ad þeir slái mig í hel vegna minnar kvinnu.

12. Hún er þó í sannleika mín systir, því hún er míns fødurs dóttir, en ei minnar módur dóttir, og er ordin mín egin kvinna.

13. En þá Gud baud mér ad gánga út af míns fødurs húsi, þá sagdi eg til hennar: veit mér þá miskun, ad hvar sem vid komum, þá segdu: ad eg sé þinn bródir.

14. Þá tók Abimelech saudi og naut, þræla og ambáttir, og gaf þad Abraham, og fékk honum aptur Saram sína eginkonu.

15. Og sagdi: sjá þú! mitt land stendur opid fyrir þér, þar fyrir máttu búa hvar þér best líkar.

16. Og hann sagdi til Sara: sjá þú! eg hefi géfid þínum bródur þúsund silfurpenínga, sjá! þad skal vera ein hulda fyrir þínum augum, fyrir øllum þeim sem eru hjá þér, og í øllum stødum. Og þad var c) hennar straff.

c) Hennar straff: þeir heilogu verda mildilega straffadir sér til gagns og ábata, líka sem Sara hér, hún hafdi kallad Abraham sinn bródur, og fær stórann velgjørníng.

17. Og Abraham bad til Guds, og Gud læknadi Abimelech, og hans kvinnu, og hans ambáttir, ad þær fæddu børn.

18. Því Drottinn hafdi ádur tillukt allann módurlegann kvid í Abimelechs húsi, fyrir sakir Saru, Abrahams kvinnu.

## 21. Kapituli.

1.) Isaak fædist; 2.) Ismael er útrekinn; 3.) Abraham gjerir sáttmála vid Abimelech.

1.) Og * Drottinn vitjadi Saru, sem hann hafdi lofad, og fullkomnadi þad sem hann hafdi til hennar sagt. * Ebr. 11, 11.

2. Og Sara vard ólétt og fæddi Abraham einn son í elli sinni, í þeim sama tíma, sem Gud hafdi sagt honum.

3. Og Abraham kalladi sinn son, þann honum var fæddur, Isaak, hvern ed Sara fæddi honum.

4. Og hann umskar hann á áttunda degi, svo sem ad Gud hafdi bodid honum.

5. Abraham var hundrad ára gamall, þá hans son Isaak var honum fæddur.

Isaak var fæddur þá Abraham var 100 ára, á því ári er foreydd var Sódóma.

6. Þá sagdi Sara: Gud hefur gjørt mér

einn hlátur, því ad hver þetta heyrir, hann mun hlæa ad mér.
7. Og hún sagdi: hver mundi hafa þorad ad segja Abraham, ad Sara hefdi barn á brjósti, og hefdi fædt honum einn son í sinni elli?
8. Og barnid óx upp, og vard vaninn af brjósti. En Abraham gjørdi eitt mikid géstabod, þann dag þá Isaak var afvaninn.
2.) 9. Og Sara sá son Agar hinnar Egyptsku, hvern hún hafdi fædt Abraham, ad hann var einn spottari.
10. Þá mælti hún til Abrahams: * rek þessa ambátt á burt, og hennar son, því ei skal þessi ambáttar son arf taka med mínum syni Isaak. * Gal. 4, 30.
11. Þetta ord misþókknadist Abraham mjøg, søkum síns sonar.
12. En Gud sagdi til hans: lát þér ekki mislíka vegna sveinsins og ambáttarinnar, gjør allt sem Sara sagdi þér. * Því ad í Isaak skal þér nefnast þad sædi. * Róm. 9, 7.
13. Eg vil og gjøra ambáttarinnar son ad þjód, því ad hann er þitt sædi.
14. Þá stód Abraham upp árla morguns, og tók braud, og einn leigil med vatn, og lagdi hann á herdar Agar, og svo barnid med, og lét hana fara. Hún fór burt, og villtist á eydimørkinni hjá Bersaba.
15. Og sem útdrukkid var vatnid af leiglinum, þá varpadi hún barninu nidur undir eina eik.
Merk hér, hvørsu þad Agar er fyrirmindun løgmálsins og þeirra verka, sem án trúarinnar eru gjørd, Gal. 4, 24. Samt lannar Gud þau verk tímanlega, og gjørir þá mikla á jørdunni, sem þau gjøra.
16. Og gékk í burtu, og settist nidur þar gagnvart, svo sem eitt ørskot þar frá, því hún sagdi: eigi gét eg sjed uppá ad barnid deyr. Og hún settist nidur gagnvart barninu, og upphóf sína raust, og grét.
17. Þá bænheyrdi Gud sveinsins raust, og Guds Engill kalladi af himni til Agar, og sagdi til hennar: hvad er þér Agar? hræds þú ekki, því Gud bænheyrdi sveinsins raust þar sem hann liggur.
18. Statt upp! tak sveininn og leid hann þér vid hønd, því eg vil gjøra hann ad mikilli þjód.
19. Og Gud upplauk hennar augum, og hún sá einn brunn, hún gékk þángad ad, og fyllti sinn leigil med vatn, og gaf sveininum ad drekka.
20. Og Gud var med honum, hann óx upp, og bjó í eydimørku, og vard einn gódur skotmadur.
21. Og bjó í þeirri eydimørku Pharan. Og hans módir tók honum til handa eina eginkvinnu af Egyptalandi.
3.) 22. Á þeim tíma taladi Abimelech, og Phichol hans hershøfdíngi til Abrahams, og sagdi: Gud er med þér í øllum þínum gjørníngum.
23. Því vil eg þú vinnir mér eid, vid Gud, ad þú viljir ekki sýna mér, mínum børnum, eda mínum barna børnum nokkra ótrú, heldur ad þú viljir veita miskunsemi mér og mínu landi, í hverju þú ert einn útlendíngur, líka sem eg veitta þér.
24. Þá svaradi Abraham: eg vil sverja.
25. Og Abraham ávítadi Abimelech, fyrir þann vatnsbrunn, sem Abimelechs þénarar høfdu tekid med ofríki.
26. Þá svaradi Abimelech: eigi var mér vitanlegt hver þad gjørdi, eigi hefur þú heldur sagt mér þad, ekki hef eg heldur heyrt þad fyrr enn í dag.
27. Þá tók Abraham saudi og naut, og gaf Abimelech. Og þeir gjørdu eitt samband med sér.
28. Og Abraham tók sjø lømb, og lét þau afsídis.
29. Þá mælti Abimelech til Abrahams: hvad skulu þau sjø lømb sem þú lætur þar afsídis?
30. Hann svaradi: þú skalt nú taka sjø lømb af minni hendi, og þau skulu vera mér til vitnis, ad eg hefi grafid þennann brunn.
31. Þar fyrir kallast þessi sami stadur b) Bersaba, því ad þeir sóru þar bádir hver ødrum eida.
b) Bersaba: þad þýdist eid = brunnur eda svardagabrunnur, má og vel kallast sjøbrunnur.
32. Og þeir gjørdu svo þar bádir samband í Bersaba. Þá tók Abimelech sig upp, og Phichol hans hershøfdíngi, og snéri aptur í land þeirra Philisteis.
33. En Abraham plantadi tré í Bersaba, og prédikadi þar út af nafni Drottins, þess eilífa Guds.

34. Og hann var útlendíngur í landi Phili-
stinorum, í lánga tíma.

## 22. Kapítuli.

1.) Isaak átti ad fórnfæraft, en 2.) frelsast, og Messías er fyrirheitinn. 3.) Nahórs born.

1.) Eptir þessa atburdi freistadi Gud Abra-
hams, og sagdi til hans: Abraham! hann svar-
adi: hér em eg.
2. Og hann sagdi: tak þinn einka son Isaak,
þann þú elskar, og far í burt í þad landid a)
Moria, og offra hann þar, til einnrar brenni-
fórnar, á einu því fjalli, sem eg vil vísa þér.

a) Moria: þad þýdir: Guds ótta, því þeir gømlu forfedur, Adam, Nói og Sem hafa þjónad Gudi á þessu fjalli. Vér køllum þad: þad heilaga fjall, þar Gudi verdur þjónad med lofgjord, bæn og þakklæti.

3. Þá stód Abraham upp snemma morguns,
og sødladi sinn asna, tók med sér two af sínum
þénurum, og sinn son Isaak, klauf vidinn til
brenni-offursins, tók sig upp, og ferdadist til
þess stadar sem Gud hafdi bodid honum.
4. Og á þeim þridja degi upplypti Abraham
sínum augum, og sá þann stad álengdar.
5. Þá sagdi hann til sinna þénara: bídid
hér med asnann, en eg og sveinninn viljum fara
þángad, og þá vid høfum lokid bæn okkar, þá
viljum vid koma til ykkar aptur.
6. Og Abraham tók brennifórnar vidinn, og
lagdi hann uppá sinn son Isaak, en hann bar eld-
inn og sverdid sér í hendi. Og þeir gengu
tveir saman.
7. Þá mælti Isaak vid sinn fødur Abraham:
minn fadir! Abraham svaradi: hér er eg, minn
son. Og hann sagdi: sjá þú! hér er eldurinn
og vidurinn, en hvar er saudurinn til brenni-
offursins?
8. Abraham svaradi: minn son! Gud mun
sjá fyrir saud til brenni-offursins. Og þeir
gengu tveir saman.
9. Og er þeir komu til þess stadar, sem Gud
hafdi sagt honum, þá byggdi Abraham þar eitt
altari, og lagdi vidinn þar á ofan og batt sinn
son Isaak, og lagdi hann uppá altarid ofan
á vidinn.
10. Og * rétti sína hønd út, og greip sverdid,
ad hann slátradi sínum syni. * Ebr. 11, 17.
Jak. 2, 21.
2.) 11. Þá kalladi Engill Drottins af himni
til hans, og sagdi: Abraham! Abraham! hann
svaradi: hér em eg.
12. Og hann sagdi: legg ekki þína hønd á
sveininn, og gjør honum ekkert. Því nú veit eg
ad þú óttast Gud, og þú vægdir ekki þínum
einka syni fyrir mínar sakir.
13. Þá upplypti Abraham sínum augum og
sá einn hrút fastann á hornunum á baki sér í
einum buska. Og hann gékk þángad, og tók
hrútinn, og færdi hann í fórn til brenni-offurs,
í síns sonar stad.
14. Og Abraham kalladi þann stad: Drott-
inn sjer b). Þar fyrir er þad máltæki enn til
þessa dags, á því fjalli, þar Drottinn sjer.

b) Drottinn sjer: þad er: hann vakir og ber umhyggju fyrir øllum hlutum.

15. Og Guds Engill kalladi enn í annad
sinni af himni til Abrahams.
16. Og sagdi: * eg hefi svarid vid mig sjálf-
ann, segir Drottinn, af því ad þú gjørdir þenn-
ann hlut, og vildir ei vægja þínum einka syni.
* Lúk. 1. 73. Ebr. 6, 13.
17. Ad eg * vil blessa þig og margfalda
þitt sædi, líka sem stjørnur á himnum, og svo
sem sand á sjáfar strøndu. Og þitt sædi skal
eignast borgarhlid sinna óvina. * Ebr. 6, 14.
18. Og * í þínu sædi skulu allar þjódir á
jørdunni blessast. Því þú varst hlýdinn c) minni
røddu. * Gjørnb. Post. 3, 25. Gal. 3, 16.

c) Hlýdinn: hér verdur Abraham ekki hid fyrsta réttlátur af trúnni sjálfur fyrir sig, heldur orkar hann sínu sædi mikillrar vegsemdar, því hann var ádur réttlátur ordinn.

19. Svo snéri Abraham aptur til sinna þén-
ara, og þeir tóku sig upp, og fóru til Bersaba,
og bjuggu þar.
3.) 20. Eptir þessa atburdi skédi þad svo, ad
Abraham var sagt: sjá! Milka hefur fædt þín-
um bródur Nahor børn, sem er:
21. Uz þann frumgétna, og Bus hans bród-
ir, og Kemuel, af hverjum Syri eru komnir.
22. Og Chesed, og Haso, og Pildas, og
Jedlaph og Bethuel.

23. En Bethuel gat Rebekkam. Þessa átta fæddi Milka Nahor, Abrahams bródur.

24. Og hans a) hjákona hét Rehuma, hún fæddi og svo Theba, Gaham, Thahas og Maacha.

a) Frilla.

## 23. Kapituli.

1.) Sara andast; og 2.) um hennar legstad.

1.) Sara lifdi hundrad sjø og tuttugu ár.

2. Og hún andadist í einum høfudstad sem hét a) Hebron, í landi Canaan. Þá kom Abraham ad barma sér og gráta hana.

a) Hebron: er Kiriath Arba, segir Móses, þad er: fjórhlutadur stadur, því høfudstadirnir fordum tídvoru allir Arba, þad er: sundurdeildir í 4 parta, svo sem Róm, Jerúsalem, Babylon, Gen. 10, 10. Act. 7, 3.

2.) 3. Sídan stód hann upp frá hennar líki, og taladi vid Heths sonu og sagdi:

4. Eg er einn útlendur madur, og þó einn innbyggjari á medal ydar, géfid mér einn eginlegann stád, til greftrunar, hér hjá ydur, svo eg megi greftra þar minn framlidinn, sem hér liggur fyrir mér.

5. Þá svørudu Heths synir Abraham, og søgdu til hans:

6. Heyr oss, kjæri herra! þú ert einn Guds høfdingi hér á medal vor, graf þú þinn framlidna hér í vorum ærligustum grøfum, enginn af oss skal meina þér sína grøf, ad þú megir ei jarda þinn framlidna þar úti.

7. Þá stód Abraham upp, og hneigdi sig fyrir landsfólkinu, sem var fyrir Heths sonum.

8. Og taladi vid þá, og sagdi: ef þad er ydar vilji, ad eg megi greftra hér minn framlidna, sem hér liggur fyrir mér, þá heyrid mig, og bidjid fyrir mig Ephron son Zohar.

9. Ad hann vilji unna mér þess tvøfalda hellirs, sem ad liggur vid endann á hans akri, ad hann selji mér hann fyrir peninga, svo mikla sem hann er verdur, á medal ydar, til eins greftrunar eignardóms.

10. Því ad Ephron bjó á medal Heths sona. Þá svaradi Ephron Hethiter Abraham, svo ad Heths synir heyrdu þar uppá, fyrir øllum þeim sem gengu út og inn, ad hans stadar portdyrum, og sagdi:

11. Nei, minn herra! heldur heyr mig, eg géf þér þann akur, og þennann hellirinn sem þar er, og eg géf þér hann í vald, fyrir míns fólks barna augum, til ad jarda þinn framlidinn.

12. Þá hneigdi Abraham sig fyrir fólkinu landsins.

13. Og taladi vid Ephron, svo ad landsfólkid heyrdi uppá og sagdi: viljir þú unna mér akursins, þá bid eg, ad þú viljir taka peninga fyrir hann, svo vil eg greftra minn framlidinn þar úti.

14. Þá svaradi Ephron Abraham, og sagdi til hans:

15. Minn herra! heyr mig, sú jørd er verd fjøgur hundrud b) silfurpenínga, en hvad er þad reiknandi á millum mín og þín? graf þú ad eins þinn hinn framlidna.

b) Siclus: var silfurpeníngur ad vigt hálfur eyrir Silfurs, því menn vógu peninga fordum tíd, líka sem nú gull.

16. Abraham hlýddi Ephron ad, og vog honum þessa peninga út, sem hann sagdi, þar heyrdu Heths børn uppá, þad vóru fjøgur hundrud silfurpeníngar gildir og gengir í kaup.

17. Svo vard Ephrons akur, í hverjum sá tvøfaldi hellir var, þvert yfir frá Mamre, Abraham stadfestur til eignar med hellirnum sem þar í var, og øllum trjám, þar um kring akurinn.

18. Ad ásjáendum Heths sonum, og øllum þeim sem gengu út og inn um hans stadarport.

19. Eptir þad greftradi Abraham sína kvinnu Sara, í þeim tvøfalda hellir, á akrinum þvert yfir frá Mamre, þad er Hebron, í Canaans landi.

20. Og sá akur og hellirinn þar úti stadfestist af Heths børnum, Abraham til erfdar greftrunar.

## 24. Kapituli.

Isaak fær Rebekku til eginkonu.

Abraham var gamall, og hníginn á efra aldur, og Drottinn hafdi blessad hann í øllum hlutum.

2. Og hann sagdi til síns ellsta þénara sem var í hans húsi, hver ed settur var yfir allt hans góz, legg þína hønd undir mínar lendar.

3. Og sver mér vid Drottinn Gud himins

og jardar, ad þú skulir ekki taka mínum syni til handa nokkra af þeim Cananeis dætrum honum til eginnar kvinnu, á medal hverra eg er búandi.

4. Heldur skaltu fara í mitt føðurland til minnar ættar, og bidja þar mínum syni Isaak til handa eginkonu.

5. Þjóninn svaradi: en ef konan vill ekki fylgja mér hingad í þetta land, skal eg þá færa þinn son þángad, í þad land aptur, af hverju þú ert útgenginn?

6. Abraham sagdi til hans: varast þú ad hafa minn son þángad aptur.

7. Drottinn Gud himins, sá sem tók mig frá míns føðurs húsi, og frá minni ódal-jørdu, sá sem taladi vid mig, og vann mér eid og sagdi: þetta land vil eg géfa þinu sædi, hann mun senda sinn Engil fyrir þér, svo þú munt þar taka mínum syni til handa eginkonu.

8. En vilji konan ekki fylgja þér, þá ertu kvittur þessa eids, eins kostar, láttu minn son ei koma þángad.

9. Þá lagdi sveinninn sína hønd undir lendar Abrahams síns herra, og vann honum eid ad þessu.

10. Svo tók sveinninn tíu úlfalda af síns herra úlføldum og fór af stad, og hafdi allra handa med sér, af síns herra gózi. Og tók sig upp, og fór í Mesopotamíam, til borgarinnar Nahor.

11. Þar hvíldi hann sína úlfalda utan borgar, í móti aptni, hjá einum brunni, á þeim tíma sem konur voru vanar ad fara út eptir vatni. Og hann sagdi:

12. Drottinn Gud, míns herra Abrahams! kom nú á þessum degi til mín, og veit miskunsemi mínum herra Abraham.

13. Sjá! eg stend nú hér hjá þessum brunni, og mannanna dætur af borginni koma nú híngad eptir vatni.

14. Og þá hér kémur nú ein píka til hverrar eg segi: hneig þína skjólu nidur, og lát mig drekka, og hún segir: drekk þú! eg vil og géfa þínum úlføldum ad drekka, ad hún sé sú hin sama, sem þú hefur fyrirhugad þínum þjón Isaak. Og ad eg megi merkja hér út af, ad þú hefur audsýndt miskunsemd mínum herra.

15. En ádur enn hann hafdi þetta úttalad, sjá! þá kom Rebekka, hún var dóttir Bethuels sonar Milka, og Milka var Nahors Abrahams bródur kvinna, og hún bar eina skjólu á ørlinni.

16. Og var mjøg væn píka álits, og enn þá jómfrú, svo enginn mann hafdi enn þá þýdst hana. Hún sté ofan í brunninn, og fyllti sína skjólu, og kom upp aptur.

17. Þá rann Abrahams þénari í móti henni, og sagdi: géf mér ad drekka lítid vatn af þinni skjólu.

18. Hún sagdi: drekk, minn herra! og strax tók hún skjóluna í sína hønd, og gaf honum ad drekka.

19. Og sem hún hafdi géfid honum ad drekka, þá sagdi hún: eg vil og sækja vatn þínum úlføldum, þángad til ad þeir hafa allir drukkid.

20. Og hún flýtti sér, og steypti úr skjólunni í vatns trygilinn, og hljóp aptur ofan til brunnsins og bar vatnid upp, og vatnadi øllum hans úlføldum.

21. Manninn furdadi þetta um hana, og þagdi þó, þar til hann kynni ad vita hvert Drottinn vildi láta hans reisu lukkast edur ei.

22. Og sem hans úlfaldar høfdu allir drukkid, tók hann eina gullega a) ennisspaúng, ad vigt hálfur Siclus, og setti tvo armhrínga á hennar hendur, sem voru ad vigt tíu Sicli gulls.

a) Spaung, þessi ennisspaung eda hlad, hefur verid svo sem hálfur hríngur, og nád um ennid og aptur ad eyrum bádum megin, þar fyrir kallar hann þad stundum eyrnahríng, en stundum ennisspaung, og er ad merkja svo sem bædi menn og kvinnur hafi borid þetta skart, svo sem þú kannt ad lesa í 135 Kap: hér eptir.

23. Og hann sagdi: mín dóttir! hverra manna ert þú? seg þú mér þad, er ekki rúm í þíns føðurs húsi ad herbergja oss.

24. Hún svaradi: ég er Bethuels dóttir sonar Nahors, sem Milka fæddi honum.

25. Og hún sagdi framar meir til hans: vér høfum hálm og fódur nóg, og gott rúm til ad herbergja ydur.

26. Þá laut madurinn nidur og bad til Drottins.

27. Og sagdi: lofadur sé Drottinn Gud míns Herra Abrahams, sem ekki hefur yfirgéfid sína miskun og sannleika vid minn herra, því ad Drottinn hefur leidt mig þann rétta veg, híngad til míns herra bródurs húss.

28. Og píkan rann heim og bar øll þessi ord í sinnar módur hús.

29. En Rebekka átti einn bródur, sem hét Laban, og Laban skundadi út til mannsins, ad brunninum.

30. Og sem hann sá eyrnagullid, og hríngana á høndum sinnar systur, og heyrdi ord Rebekku sinnar systur, þad hún sagdi: svo og svo hefur madurinn mælt; þá kom hann til mannsins, og sjá þú! hann stód hjá brunninum, med sína úlfalda.

31. Og hann sagdi: kom hér inn, þú blessadur af Drottni! því stendur þú hér úti? eg hefi búid þér herbergi, og skikkad þér rúm til þinna úlfalda.

32. Og hann leiddi manninn inn í húsid, og spretti af hans úlføldum, og gaf þeim hálm og fódur, og svo vatn til ad þvo hans fætur, og hans manna, sem komu med honum.

33. Og hann setti fædslur fram fyrir hann. En hann sagdi: eg vil ei matar neyta, fyrr enn eg hefi rekid mitt erindi. Þeir svørudu: seig þú fram þitt erindi.

34. Hann svaradi: eg er Abrahams þénari.

35. Og Drottinn hefur ríkuglega blessad minn Herra, ad hann er stórmektugur ordinn, og hann hefur géfid honum naut og saudi, silfur og gull, þræla og ambáttir, úlfalda og asna.

36. Og hér med hefur Sara, míns Herra húsfrú, fædt honum einn son í sinni elli, honum hefur hann géfid allt þad sem hann á.

37. Og minn Herra hefur tekid eid af mér, og sagt: þú skalt ei taka mínum syni til handa nokkra kvinnu af þessum Canaans dætrum, í því landi sem eg bý.

38. Heldur far þú til míns fødurs húss, og til minnar ættar, og tak þar mínum syni til handa eina kvinnu.

39. En eg svaradi mínum Herra: en ef kvinnan vill ekki fylgja mér?

40. Þá sagdi hann til mín: sá Drottinn, fyrir hverjum eg geing, hann mun senda sinn Engil med þér, og géfa lukku til þinnar reisu, svo ad þú munt taka mínum syni til handa eina kvinnu, út af minni ætt, og af míns fødurs húsi.

41. Svo skaltu vera kvittur fyrir mínum eidi, nær þú kémur til minnar ættar, vilji þeir ekki géfa þér hana, svo ertu kvittur þessa míns eids.

42. Svo kom eg á þessum degi til brunnsins, og sagdi: Drottinn Gud míns Herra Abrahams, hafir þú géfid mér nád til þessarar reisu sem eg hefi ferdast.

43. Sjá þú! eg stend hér hjá þessum brunni, og nær hér kémur nú ein jómfrú ad sækja vatn, og eg segi til hennar, géf mér lítid vatn af þinni skjólu til ad drekka.

44. Og hún segir: drekk þú, eg vil og sækja vatn til þinna úlfalda, ad hún skal vera sú kvinna, sem Drottinn hefur fyrirhugad míns Herra syni.

45. En ádur eg hafdi úttalad þessi ord í mínu hjarta, sjá! þá kom Rebekka út híngad, og bar eina skjólu á sínum ørlum, og hún sté nidur til brunnsins, og bar upp vatnid. Þá sagdi eg til hennar: géf mér ad drekka.

46. Svo tók hún skjóluna strax af sinni ørl, og sagdi: drekk þú, eg vil og géfa þínum úlføldum ad drekka, og eg drakk, hún vatnadi og svo úlføldunum.

47. Eg spurdi hana og ad, og sagdi: hvers dóttir ert þú? hún svaradi: eg er Bethuels dóttir, sem er Nahors son, hvern ed Milka fæddi honum. Þá lét eg eitt hlad um hennar enni, og armhríng á hennar hendur.

48. Og eg laut nidur, og tilbad Drottinn, og lofadi Drottinn Gud míns Herra Abrahams, sem færdi mig híngad þann rétta veg, ad eg skyldi fá míns Herra bródurs dóttur hans syni til handa.

49. Þar fyrir, ef þér viljid sýna vináttu og trú mínum Herra, þá b) segid mér þad, en viljid þér þad ekki, þá segid mér og einn-

inn það, svo að eg megi víkja annað hvert til hægri eða vinstri handar.

b) Segið mér: hann talar fyrst við móðurina og bróðurinn, um giptumál meyarinnar, hvar af sjá má, að heimugleg trú-lofun án foreldranna vitundar er ekki rétt.

50. Þá svaraði Laban og Bethuel, og sögðu: frá Drottni er þetta komið, þar fyrir kunnum vér ekki neitt að mæla á móti þér, hverki illt né gott.

51. Sjá þú! þar er Rebekka frammi fyrir þér, tak þú hana og far aptur, að hún sé þíns Herra sonar kona, svo sem Drottinn hefur sagt.

52. Og sem Abrahams þjón heyrði þessi orð, hneigði hann sig til jarðar, fyrir Drottni.

53. Og hann tók upp silfurs og gulls gérsemar, og klæðnað, og gaf Rebekku. En hennar bróður og móður gaf hann jurtir.

54. Svo át hann og drakk, og þeir menn sem voru með honum, og þeir voru þar um nóttina. Að morgni dags stóð hann upp, og sagði: leyfið mér nú að fara heim til míns Herra.

55. Þá svaraði hennar bróðir og móðir: lát þú stúlkuna blífa hér hjá oss eina tíu daga, síðan máttu fara.

56. Hann sagði til þeirra: tefjið ekki fyrir mér, því að Drottinn hefur géfið mér eina lukkusamlega reisu, látið mig fara heim til míns Herra.

57. Þau svöruðu: vér skulum kalla á píkuna, og spyrja eptir hvað hún sjálf segir til.

58. Svo kölluðu þau Rebekku fyrir sig, og sögðu til hennar: viltu fara með þessum manni c)? hún svaraði: já, eg vil fara með honum.

c) Brúðurin á ekki að vera neydd til hjónabandsins af foreldrunum, heldur að vera að spurð um sinn vilja og samþykki.

59. Svo létu þau Rebekku sína systur, og hennar fóstur-móður fara með Abrahams þénara, og með hans mönnum.

60. Og þau blessuðu Rebekkam og sögðu til hennar: þú ert vor systir, vaxi af þér mörg þúsund þúsunda, og þitt sæði eignist borgarhlið sinna óvina.

61. Svo tók Rebekka sig upp með sínum ambáttum, og settu sig á úlfalda, og fóru með manninum. Og þénarinn meðtók Rebekkam, og fór af stað.

62. En Isaak kom frá þeim brunni, sem kallaðist þess lifanda og sjáanda, því hann bjó í suður-átt landsins.

63. Og var útgenginn í móti aptni, út á akurinn, að gjöra sína bæn. Og hann upplypti sínum augum, og sá hvar úlfaldar komu.

64. Og er Rebekka leit upp, og sá Isaak, sté hún niður af úlfaldanum.

65. Og sagði til sveinsins: hver er sá maður sem kémur á móti oss þar á akrinum? hann sagði: það er minn Herra. Þá tók hún sína kápu, og huldi sig.

66. Og sveinninn sagði Isaak frá öllum þeim atburðum sem skéð höfðu, og hvað hann hafði útrétt.

(Isaak hefur þá verið 40 ára gamall).

67. Þá leiddi Isaak hana í tjaldbúð sinnar móður Saru, og tók hana sér til eginkonu, og elskaði hana, svo varð Isaak huggaður þess harms sem hann hafði eptir sína móður.

## 25. Kapítuli.

1.) Önnur gipting Abrahams og 2.) Dauði. 3.) Ismaels, og 4.) Isaaks synir.

1.) Abraham gipti sig aptur einni kvinnu, sem hét Ketura.

2. Hún fæddi honum Simron og Jaksan, Medan og Midian, Jesbak og Suah.

3. Og Jaksa gat Seba og Dedan. En Dedans börn voru þessi: Assurim og Latusim og Leumim.

4. Og Midians börn voru: Epha, Epher, Hanoch, Abida, og Eldaa. Þessir allir eru Keturu synir.

5. Og Abraham gaf Isaak öll sín auðæfi.

6. En þeim öðrum börnum sem hann hafði aflað með sínum hjákvinnum, gaf hann gáfur, og lét þau fara á burt í austur-átt frá sínum syni Isaak, á meðan hann var enn á lífi.

2.) 7. Þetta er Abrahams aldur, sem hann lifði, hundrað fimm og sjötígir ár.

Abraham andast 2123 árum eptir heimsins skop-

un; fyrir Kristí híngad fæðíng 1838. Jakob og Esau voru þá 14 vetra gamlir.

8. Og hann fór hnignandi og andadist í einni rólegri elli, þá hann var hníginn ad aldri, og saddur af lífdøgum, og safnadist til síns fólks.

9. Og hans synir Isaak og Ismael jørdudu hann í þeirri tvøfaldri grøf, á akri Ephrons Zohar Hethiters sonar, sem ad liggur yfir frá Mamre.

10. Á þeim akri hvern Abraham keypti af Heths sonum. Þar var Abraham jardadur hjá Sara sinni eginkvinnu.

11. Og eptir andlát Abrahams blessadi Gud Isaak hans son, og Isaak bjó hjá þeim brunni þess lifanda og sjáanda.

3.) 12. Þessi er Ismaels Abrahams sonar ættkvísl, sem Agar Egyptska ambátt Saru fæddi honum.

13. Og þessi eru Ismaels sona nøfn, sem þeirra ætt er nefnd eptir.

14. Nebaioth var hans frumgétinn son, sídan Kedar, Adbeel, Mibsam, Misma, Duma, Masa.

15. Hadar, Thema, Jetur, Naphis, og Kedma.

16. Þessir eru þeir Ismaels synir, med þeirra nøfnum, út í þeirra hofgørdum og stødum, tólf høfdíngjar yfir þeirra fólki.

17. Og þetta er Ismaelis aldur, hundrad þrjátigir og sjø ár, og hann fór hnignandi og andadist, og safnadist til síns fólks.

18. Og þeir bjuggu frá Hevila og inn til Sur, gégnt Egyptalandi, þar sem menn fara til Assyriam. Hann féll a) fyrir øllum hans brædrum.

*a)* Hann féll: Þetta kann marga vega ad útleggjast, mín útleggíng er sú, ad Ismael hefur verid kostulegur madur, og hafi allir hans brædur og vinir komid til samans á móti hans enn sídasta, og hafi svo dáid ærlegá og loslega í þeirra nærveru.

4.) 19. Þessi er Isaaks Abrahams sonar ættkvísl, Abraham gat Isaak.

20. Og Isaak var fjørutígir ára gamall, þá hann gékk til ad eiga Rebekku Bethuels dóttir hins Syrlendska, af Mesopotamia, systir Labans hins Syrlendska.

21. Og Isaak bad til Drottins fyrir sinni kvinnu, því hún var óbyrja. Og Drottinn heyrdi hans bæn, og * Rebekka hans kvinna fékk gétnad. * Róm. 9, 10. 11. 12.

22. Og børnin hnitludust vid í hennar kvidi. Þá sagdi hún: ef það skal svo gánga mér, því er eg þá ólétt ordin? Og hún gékk í burt, og spurdi Drottinn þar ad.

23. Og Drottinn svaradi henni: tvær þjódir eru í þínum kvidi, og tveggja handa lýdir skulu skiljast frá þínum kvidi, og lýdur mun lýd yfirstíga, og hinn meiri mun þeim minna þjóna.

24. Og sem sá tími kom, ad hún skyldi léttari verda, sjá! þá voru þar tvíburar í hennar kvidi.

25. Og hinn fyrsti sem kom í ljós, hann var raudur ad lit, og allur saman lodinn sem eitt skinn, og þeir nefndu hann Esau.

26. Jafnsnart kom í ljós hans bródir, og héldt um hælinn á Esau sinni hendi, og því nefndu þeir hann Jakob. Isaak var sextugur ad aldri, þá þeir voru fæddir.

27. Og sem sveinarnir voru nú vaxnir, þá gjørdist Esau veidimadur og akurmadur, en Jakob var gódur madur, og bjó í tjaldbúdinni.

28. Isaak elskadi Esau, og át gjarnan af hans veidi, en Rebekka unni Jakob.

29. Og Jakob hafdi matgjørt einn rétt, og í því bili kom Esau af akri, og var módur.

30. Og sagdi til Jakob: lát mig smakka af þeirri raudu b) matgjørd þinni, því eg em módur, og af því kallast hann Edon.

*b)* Sodníngu.

31. En Jakob sagdi: sel þú mér þá í dag þína frumgétníng.

32. Esau svaradi: sjá! eg hlýt ad deya, hvad stodar mig sú frumgétníng?

33. Þá sagdi Jakob: þá vinn mér eid í dag þar ad. Og hann sór honum eid.

34. Og svo * seldi hann Jakob sína frumgétníng. Þá gaf Jakob honum braud, og af þeirri matgjørd sem hann hafdi tilreidt af grjónum. Og hann át og drakk, reis upp og gékk í burt; svo litils virdti Esau sína frumgétníng. * Ebre. 12, 16.

## 26. Kapituli.

1.) Isaak ferdast úr landi; 2.) Hans bústadur og 3.) Andstreymi.

1.) Og þar vard enn mikid hallæri í landinu, auk þess hallæris er ádur var á døgum Abrahams. Og Isaak fór til Abimelechs Kóngs Philistinorum af Gerar.

2. Þá vitradist Drottinn honum, og sagdi: far þú ekki í Egyptaland, heldur vertu í því landi, sem eg segi þér.

3. Vertu einn útlendíngur í þessu landi, eg vil vera med þér og blessa þig, því ad þér og þínu sædi vil eg géfa øll þessi lønd, og eg vil efna þann eid, sem eg sór þínum fødur Abraham.

4. Og eg vil þitt sædi margfalda svo sem stjørnur á himninum, og eg vil géfa þínu sædi øll þessi lønd. Og í þínu sædi skulu allar þjódir á jørdunni blessast.

5. Fyrir því ad Abraham var hlídugur minni røddu, og vardveitti mín bodord, mín réttindi, mínar skikkanir, og mitt løgmál.

2.) 6. Og Isaak bjó í Gerar.

7, En sem fólkid í þeim stad spurdi ad hans kvinnu, þá sagdi hann: hún er mín systir, því hann vogadi ei ad segja, hún er mín kvinna, meinandi, kannské þeir slái mig í hel Rebekku vegna, því hún var hardla fríd sýnum.

8. Sem hann hafdi nú verid þar nokkra stund, leit Abimelech Philisteis Kóngur í gégnum einn glugga, og vard þess var, ad Isaak lék vid Rebekku sína konu.

9. Þá kalladi Abimelech á Isaak, og sagdi: sjá! hún er þín eginkona, því hefur þú þá sagt: ad hún væri þín systir? Isaak svaradi honum: eg hugsadi med mér, ské má ad þeir slái mig í hel fyrir hennar skuld.

10. Þá sagdi Abimelech: því hefur þú svo breitt vid oss? Þad hefdi snart kunnad ad ské, ad nokkur af fólkinu hefdi lagst med þinni kvinnu, þá hefdir þú leidt einn glæp yfir oss.

11. Þá baud Abimelech øllu fólkinu og sagdi: hver hann snertir þennann mann eda hans konu, sá skal dauda deya.

3.) 12. Og Isaak sádi í því landi, og hans akur bar hundradfaldann ávøxt á því ári, því ad Drottinn blessadi hann.

13. Og hann vard audugur og efldist meir og meir, allt þar til ad hann vard mjøg mektugur.

14. Svo ad hann vard stór-audugur, ad kvikfé smáu og stóru, hann hafdi og fjølda þjónustu fólks. Þar fyrir øfundudu Philistei hann.

15. Og byrgdu aptur alla þá brunna sem hans fødurs þénarar høfdu grafid, í Abrahams hans fødurs tíd, og fylltu þá med mold.

16. Svo ad Abimelech sagdi til hans: vík frá oss, því ad þú ert ordinn oss of-mektugur.

17. Þá fór Isaak burt þadan, og setti sína tjaldbúd í þeim dal Gerar, og bjó þar.

18. Og hann lét upp grafa þá brunna aptur sem þeir høfdu grafid á døgum Abrahams hans fødurs, hverja brunna ad Philistei høfdu byrgt aptur eptir Abrahams dauda. Og hann gaf þeim þau sømu nøfn, sem hans fadir hafdi ádur géfid þeim.

19. Svo grófu Isaaks þénarar í dalnum og fundu þar einn brunn lifanda vatns.

20. En hyrdararnir af Gerar þrættust á vid Isaaks hyrdara, og søgdu: þad er vort vatn, þar fyrir kalladi hann þann brunn a) Esek, því þeir gjørdu þeim þar órétt.

a) Esek: kallast ofríki.

21. Þá grófu þeir einn annann brunn, og þeir kífudu einninn um hann, og því kalladi hann hann b) Sitna.

b) Sitna kallast: mótstand, þar af heitir Djøfullinn Sathan, þad er mótstandari.

22. Þá fór hann þar frá, og gróf einn annann brunn, og þeir høfdu ekkert kíf um hann, þar fyrir kalladi hann hann c) Rehoboth, og sagdi: nú hefur Drottinn géfid oss rúm, og látid oss vaxa í landinu.

c) Rehoboth: vídd og breidd, þar sem ekki eru þreingsli.

23. Sídan fór hann þadan til Bersaba.

24. Og Drottinn vitradist honum þá sømu nótt, og sagdi: eg er þíns fødurs Abrahams Gud, óttast ekki, því eg er med þér, og eg vil blessa þig, og margfalda þitt sædi, vegna míns þénara Abrahams.

25. Þá byggdi hann þar eitt altari og d)
prédikadi um Drottins nafn, og setti þar sína
tjaldbúd, og hans þénarar gófu þar einn brunn.
d: Akalladi nafn Drottins.

26. Og Abimelech fór til hans frá Gerar
og hans vinur Ahusath og Phichol hans hers-
høfdingi, þá sagdi Isaak til þeirra:

27. Því komid þér til mín? hvern þér
hafid ádur hatad, og rekid frá ydur?

28. Þeir svørudu: vér sjáum berlega, ad
Drottinn er med þér, þar fyrir søgdum vér,
ad þar skyldi vera svardagi á millum þín og
vor, svo ad vér viljum gjøra einn sáttmála vid þig.

29. Ad þú skulir aungvann skada gjøra oss,
svo sem vér høfum ekki snortid þig, og ei ann-
ad gjørt þér enn allt gott, og vér létum þig
fara í fridi, en þú ert nú blessadur af Drottni.

30. Þá gjørdi hann þeim eitt géstabod, og
þeir átu og drukku.

31. Og þeir stódu snemma upp um morg-
uninn, og unnu eida hverjir ødrum. Og Isa-
ak lét þá fara, og þeir fóru frá honum í fridi.

32. Þann sama dag komu Isaaks þénar-
ar, og søgdu honum af þeim brunni sem þeir
høfdu grafid, og søgdu til hans: vér høfum
fundid vatn.

33. Og þann brunn kalladi hann Saba, þar
af kalladist sá stadur Bersaba, allt til þessa
dags.

34. Þá Esau var fjørutín ára gamall,
þá gékk hann til ad eiga Judith dóttur Beri
Hethei, og Basmath dóttir Elons Hethei.

35. Þær gjørdu bádar hjartans sorg Isa-
ak og Rebekku.

## 27. Kapítuli.

1.) Jakob er blessadur af fødur sínum, og 2.) hat-
adur af bródur sínum.

1.) Og þad skédi svo, þá Isaak var ord-
inn gamall ad aldri, og hans augu voru myrk
ordin, svo hann kunni ekki ad sjá. Hann kall-
adi þá sinn eldra son Esau, og sagdi til hans:
minn son! hann svaradi honum: hér er eg.

2. Og hann sagdi: sjá! eg er ordinn gam-
all, og veit ekki nær eg muni deya.

3. Því tak nú þín veidarfæri, þitt pílna-
kofur, og þinn boga, og far út á mørkina, og
veid mér nokkud villudýr.

4. Og matreid þú mér þar af fædu, svo
sem þú veitst eg vil gjarnan hafa, og ber mér
hana inn híngad, ad eg megi eta, svo ad * mín
sál megi blessa þig, ádur enn eg andast.
* Ebr. 11, 20.

5. Rebekka heyrdi þessi ord, sem Isaak
mælti til síns sonar Esau. Svo gékk Esau
út á mørkina ad veida villudýrid, svo hann
mætti færa þad heim.

6. Þá mælti Rebekka til Jakobs síns sonar:
sjá þú! eg heyrdi þinn fødur talanda vid þinn
bródur Esau, og segja: sæk mér villubrád.

7. Og tilreid mér einn rétt, hvar af ad eg
eti, ad eg géfi þér blessan fyrir Drottni ádur
enn eg andast.

8. Svo hlýd nú, son minn! røddu minni,
hvad eg skipa þér.

9. Far þú til hjardarinnar, og haf híngad
til mín tvø gód kid, svo eg kunni ad gjøra af
þeim fædslu þínum fødur til handa, af hverri
hann gjarnan neytir.

10. Þá fædslu skaltu bera inn til þíns fød-
urs, ad hann eti þar af, svo ad hann blessi
þér ádur enn hann andast.

11. Jakob sagdi til Rebekku sinnar módur:
sjá! minn bródur Esau er lodinn, en eg er snøggur.

12. Má vel ské, ad minn fadir þreifi á mér,
og honum þyki þá sem eg hafi viljad blekkja sig,
og færi þá bølvan yfir mig en ekki blessan.

13. Þá sagdi hans módir til hans: sú bøl-
van komi yfir mig, son minn! hlýd þú ad eins
minni røddu, og far ad sækja mér (þau).

14. Þá gékk hann á burt, sókti þau og færdi
sinni módur. Svo matbjó hans módir eina
fædslu, þá sem hans fadir vildi gjarnan hafa.

15. Og hún tók þau bestu klædi Esau síns
eldra sonar, þau sem hún hafdi í húsinu hjá sér,
og færdi Jakob sinn yngra son í þau.

16. En skinnid af kidinu lét hún um hans
hendur, og þar sem hann var hárlaus á hálsinum.

17. Og fékk svo Jakob sínum syni þá fædu í
hønd sem hún hafdi tilbúid, og svo braud.

18. Og hann gékk inn til síns føðurs, og

sagdi: minn fadir! hann svarar: hér er eg. Hver ertu minn son?

19. Jakob sagdi til síns fødurs: eg er Esau þinn frumgétinn sonur, eg hefi gjørt þad sem þú befaladir mér, rís upp og sit, og et af mínu villubrádi, svo ad þín sála megi blessa mér.

20. Þá sagdi Isaak til síns sonar: son minn! hvernin máttir þú finna þad svo snart? hann svaradi: Drottinn Gud þinn sendi mér þad til handa.

21. Þá sagdi Isaak til Jakobs: kom híngad, minn son! svo eg megi þreifa á þér og reyna hvert ad þú ert minn son Esau, ellegar ei.

22. Þá gékk Jakob ad sínum fødur Isaak. Og sem hann hafdi þreifad á honum, sagdi hann: røddin er Jakobs rødd, en hendurnar eru Esau hendur.

23. Og hann þekkti hann ekki, því hans hendur voru lodnar svo sem hendur Esau hans bródurs. Og hann blessadi honum.

24. Og sagdi til hans: hvert ert þú, minn son Esau? Hann svaradi: já! eg er hann.

25. Þá sagdi hann: fær mér þá híngad, minn son! og lát mig eta af þínu villubrádi, svo ad mín sál blessi þig. Þá bar hann honum þad, og hann át. Hann bar honum og vín inn, og hann drakk.

26. Sídan sagdi hans fadir Isaak til hans: kom hér, son minn! og kyss mig.

27. Og hann gékk ad honum og kyssti hann, þá kénndi hann ilminn af hans klædum, og blessadi hann og sagdi: sjá! míns sonar ilmur er svo sem ilmur af þeim akri hvern Drottinn hefur blessad.

28. Gud géfi þér af døggu himins, og af feiti jardar, og nægd korns og víns.

29. Þjódir skulu þjóna þér, og fólkid skal falla þér til fóta. Vertu einn herra yfir þínum brædrum, og børn þinnar módur skulu falla þér til fóta. Bølvadur veri sá sem þér bølvar, og blessadur sé sá sem þig blessar.

30. Og sem Isaak hafdi endad þessa blessan yfir Jakob, og Jakob var sem naumast útgenginn frá sínum fødur Isaak, þá kom Esau hans bródir heim frá sínum veidiskap.

31. Og hann tilreiddi og svo eina fædslu, og bar inn til síns fødurs, og sagdi til hans: rís upp, minn fadir! og et af villibrád þíns sonar, svo ad þín ønd megi blessa mér.

32. Þá svaradi Isaak hans fadir: hver ert þú? hann svaradi: eg er Esau þinn frumgétni sonur.

33. Isaak vard hardla mjøg felms fullur, og sagdi: hvad? hvar er þá sá veidimadur sem mér færdi, og eg át þar af ádur þú komst? og eg blessadi honum, og hann mun vera blessadur.

34. Sem Esau heyrdi þessi síns fødurs ord, hrópadi hann hárri røddu, og vard yfir máta sorgfullur, og sagdi til síns fødurs: blessa þú mér og svo, fadir minn!

35. Hann svaradi: þinn bródir kom med kjænsku, og tók í burtu þína blessan.

36. Þá sagdi hann: réttilega er hans nafn Jakob, því hann hefur nú í tvær reisur undir a) fótum trodid mig. Mína frumgétníng tók hann burt, og sjá! nú tekur hann og svo mína blessan. Og hann sagdi: hefur þú þá ekki ætlad mér eptir neina blessan?

a) Jakob fótum trodid: Ekeb, heitir fótsóli, þar af kémur Jakob, edur Jakob fóttrodandi, edur sá sem undir fætur tredur, og merkir alla þá sem trúa, hverjir fyrir Evangelíum undir fótum troda veraldina, holdid og Djøfulinn med synd og dauda, í krapti Kristí. Ebr. 11, 20.

37. Isaak svaradi og sagdi til hans: eg hefi sett hann til eins herra yfir þig, og alla hans brædur gjørdi eg til hans þénara, eg hefi og stied honum fyrir korni og víni, hvad skal eg nú gjøra þér? minn son!

38. Esau sagdi til síns fødurs: hafdir þú ekki utan þá eina blessan, minn fadir? blessa mig og svo, minn fadir! Og * hann upphóf sína raust og grét. * Ebr. 12, 17.

39. Þá svaradi Isaak hans fadir, og sagdi til hans: sjá þar! þú skalt hafa einn feitann bústad á jørdunni, og af døggu himinsins hér ofan ad.

40. Af þínu sverdi skaltu næra þig, og þjóna muntu þínum bródur. Og þad mun ské, ad þú munt verda einn herra, og munt fá slitid hans ok af þínum hálsi.

2.) 41. Og Esau vard reidur vid Jakob sökum þeirrar blessunar sem hans fadir hafdi blessad hann med, og hann sagdi í sínu hjarta: sú

stund skal snarlega koma, ad minn fadir skal gráta, því eg vil slá Jakob minn bródur í hel.

42. Og Rebekka fékk þad ad vita, ad Esau hennar eldri son hafdi svo sagt, því sendi hún í burt, og lét kalla sinn ýngra son til sín, og sagdi til hans: sjá! þinn bródir Esau heitast vid þig, ad hann vilji lífláta þig.

43. Því heyr þú nú mín ord, minn son! tak þig upp og flý til míns bródurs Laban í Haran.

44. Og vert um stund hjá honum, þar til ad sefast grimd bródur þíns.

45. Og þar til hans reidi, sem hann hefur til þín, snýst frá þér, og hann gleymir því sem þú hefur gjört á móti honum, sídan vil eg senda þér bod, og hafa þig burt þadan, því skal eg missa ykkur báda á einum degi?

46. Og Rebekka sagdi til Isaak: mér leidist ad lifa vegna þeirra Heths dætra, ef ad Jakob tekur sér eginkonu af þeim Heths dætrum, þær sem eru med svoddan hætti sem þessa lands dætur, því skyldi eg þá lengur lifa?

## 28. Kapituli.

Jakob her á ferd sinni einn stiga sem nær til himins.

Þá kalladi Isaak, Jakob son sinn fyrir sig, og blessadi hann, baud honum og sagdi til hans: þú skalt ekki taka þér neina eginkonu af þeim Canaans dætrum.

2. Heldur tak þig upp, og far í Mesopotamiam, til Bethuels þíns módurfødurs húss, og tak þér þar eginkonu til handa af dætrum Laban, þíns módurbródurs.

3. Almáttugur Gud blessi þig og gjøri þig ávaxtarsamann, og margfaldi þig, svo þú verdir til eins mikils fólks.

4. Hann géfi þér Abrahams blessan, þér og þínu sædi med þér, svo ad þú eignist þad land í hverju þú ert framandi, hvert Gud gaf Abraham.

5. Svo sendi Isaak Jakob þángad, og lét hann fara í Mesopotamiam til Labans Bethuels sonar í Sýrien, hver ad var bródir Rebekku módur hans og Esau.

6. En sem Esau sá þad, ad Isaak hafdi blessad Jakob, og sendt hann til Mesopotamiam, ad hann skyldi giptast þar, og hann hafdi undir eins blessad hann, bodid honum, og sagt svo: þú skalt ei taka þér eginkonu af Canaans dætrum.

7. Og ad Jakob var sínum fødur og módur hlídugur, og fór burt í Mesopotamiam.

8. Hann sá og einninn, ad sínum fødur Isaak var ekki um þær Canaans dætur.

9. Þá gékk hann burt til Ismael, og tók sér til eginkonu dóttur Ismaels, Abrahams sonar, Mahalath, systir Nebahioth, ad auk þeirra kvenna sem hann átti ádur.

10. En Jakob fór frá Bersaba, og reisti til Haran.

11. Og hann kom í nokkurn stad, þar var hann um nótt, því ad sólin var undirgengin. Og hann tók einn stein í þeim sama stad, og lagdi hann undir sitt høfud, og lagdi sig til svefns í þeim sama stad.

12. Og hann dreymdi, og sjá þú! einn stigi stód á jørdu, hvers efsta bust nádi upp til himinsins, og sjá! Guds Englar fóru upp og ofan eptir honum.

13. Og Drottinn stód þar upp yfir, og sagdi: eg er Drottinn Gud þíns fødurs Abrahams, og Gud Isaaks, þetta land, á hverju þú liggur nú, vil eg géfa þér og þínu sædi.

14. Og þitt sædi skal verda sem dupt á jørdunni, og þú skalt útbreidast til vesturs og austurs, nordurs og sudurs, og í þér og þínu sædi skulu allar þjódir á jørdunni blessast.

15. Og sjá þú! eg er med þér, og eg vil vardveita þig hvert sem þú fer, og eg vil færa þig í þetta land aptur, því eg vil ekki yfirgéfa þig, fyrr enn eg hefi fullkomnad þad allt sem eg hefi sagt þér.

16. Og sem Jakob vaknadi af sínum svefni, sagdi hann: sannlega er Drottinn í þessum stad, og eg vissi þad ekki.

17. Hann óttadist og sagdi: hversu a) heilagur er þessi stadur? hér er ekki annad enn Guds hús, og hér er hlid himins.

a) Ogurlegur.

18. Og Jakob stód upp snemma morguns, og tók þann stein sem hann hafdi lagt undir sitt høfud, og reisti hann upp til eins marks, og hellti vidsmjøri yfir hann.

19. Og hann kalladi þann sama stad Be=
thel, ádur hét sá stadur Lus.
20. Og Jakob streingdi eitt heit, og sagdi:
ef Gud er med mér, og vardveitir mig á þess=
um vegi sem eg nú ferdast, og géfur mér braud
ad eta, og klædir mig.
21. Og færir mig heim aptur til míns fød=
urs húss med fridi, þá skal Drottinn vera
minn Gud.
22. Og þessi steinn sem eg hefi nú uppreist
til eins teikns, skal verda Guds hús, og eg vil færa
þér tíundir, af øllu því sem þú géfur mér.

## 29. Kapituli.

1.) Jakob giptist tveimur Labans dætrum. 2.) Onn=
ur þeirra fædir honum syni.

1.) Sídan upplypti Jakob sínum fótum, og
gékk í þad land sem liggur til austurs.
2. Og hann skygndist um kríng, og sjá!
þar var einn vatnsbrunnur á akrinum, og sjá!
þar láu hjá brunninum þrennar saudahjardir,
því þeir voru vanir ad vatna hjørdunum af
brunninum, þar lá og einn stór steinn ofan yf=
ir munna brunnsins.
3. Og þeir pløgudu ad safna allri hjørdunni
þángad, og velta svo steininum af brunninum,
og vøtnudu fénu, løgdu sídan steininn aptur
yfir brunns munnann, sem hann lá ádur.
4. Og Jakob sagdi til þeirra: kjærir bræd=
ur! hvadan erud þér? þeir svørudu: vér erum
af Haran.
5. Hann sagdi til þeirra: þekkid þér ekki
Laban Nahors son? þeir svørudu: já! vel þekk=
jum vér hann.
6. Hann sagdi: geingur honum vel? þeir
svørudu: vel geingur honum, sjá! þar kémur
hans dóttir Rachel med hans saudi.
7. Þá mælti Jakob: mikid er enn dags ept=
ir, og er ei mál ad reka féd heim, vatnid saud=
unum, farid sídan ad beita þeim.
8. Þeir svørudu: vér meigum ekki fyrr enn
øll hjørdin kémur til samans, svo vér gétum
velt steininum frá brunninum, og vatnad svo
saudunum.
9. Og sem hann ræddi þetta vid þá, kom
Rachel med saudi síns fødurs, því hún gjætti
þeirra.
10. En sem Jakob sá Rachel dóttir Labans
síns módurbródurs, og saudi Labans síns móð=
urbródurs, fór hann til, og velti steininum af
munna brunnsins.
11. Og vatnadi saudum Labans módurbród=
urs síns, hann mynntist vid Rachel, og grét hátt.
12. Og sagdi henni: ad hann væri hennar
fødurs bródir, Rebekku son, en hún hljóp og
sagdi þetta sínum fødur.
13. En sem Laban heyrdi um Jakob sinn
systur son, rann hann út á móti honum, og tók
hann sér í fáng, og mynntist til hans, og fylgdi
honum inn í sitt hús.
14. Þá kunngjørdi hann Laban allt þetta
efni. Þá sagdi Laban til hans: nú vel, þú ert
mitt bein og hold. Og sem hann hafdi nú ver=
id med honum einn mánud.
15. Þá sagdi Laban til Jakobs: þó ad þú
sért minn bródir, skyldir þú fyrir því þjóna
mér fyrir ekkért? seig þú til hvad þitt verdkaup
skal vera.
16. Laban átti tvær dætur, sú eldri hét Lea,
en ýngri hét Rachel.
17. Lea var augndøpur, en Rachel var væn
og fríd.
18. Og Jakob fékk elsku til Rachelar, og
sagdi: eg vil þjóna þér í sjø ár fyrir Rachel
þína ýngri dóttur.
19. Laban svaradi: þad er betra eg géfi þér
hana, heldur enn einum ødrum, vertu hjá mér.
20. Svo þjónadi Jakob í sjø ár fyrir Rachel,
og sýndist honum fem fáir dagar væri, svo
mikla ást hafdi hann á henni.
21. Eptir þad sagdi Jakob til Laban: géf
mér nú mína kvinnu, þvíad tíminn er nú kom=
inn, ad eg skuli gánga inn til hennar.
22. Þá baud Laban øllu fólki í þeim stad,
og gjørdi brúdkaup.
23. En um kvøldid tók hann sína dóttir Lea,
og leiddi hana inn til hans, og hann lá hjá henni.
24. Og Laban gaf Lea sinni dóttir, sína þjón=
ustu stúlku Silpa henni til ambáttar.
25. En um morguninn, sjá! þá var þad
Lea. Þá sagdi hann til Labans. Hvar fyrir

hefur þú ſvo gjørt vid mig? hef eg ekki þjónad þér fyrir Rachel? því hefir þú ſvo ſvikid mig?

26. Laban ſvaradi: þad er ekki ſidur í voru landi, ad þær enu ýngri ſéu útgéfnar fyrr enn þær eldri.

27. Haltu út vikuna med henni, ſvo vil eg einninn géfa þér adra, fyrir þá þjónuſtu ſem þú ſkalt þjóna mér enn í ønnur ſjø ár.

28. Jakob gjørdi ſvo, og hélt þá viku út. Svo gaf hann honum Rachel ſína dóttur til húsfrú.

29. Og hann gaf Rachél ſinni dóttur, ambátt ſína Bilha til ambáttar.

30. Svo gékk hann líka inn til Rachelar, og elſkadi hana meir enn Lea, og þjónadi hjá honum ønnur ſjø ár fyrir hana.

2.) 31. En er Drottinn ſá, ad Lea var fyrirlitin, þá gjørdi hann hana ávaxtarſamlega, en Rachel var óbyrja.

32. Og Lea vard ólétt, og fæddi einn ſon, og kalladi hann a) Rúben, og ſagdi: Drottinn hefur ſjed til minnar eymdar, nú mun minn madur elſka mig.

a) Ruben þýdiſt ſkodunar ſonur.

33. Og hún vard enn í annad ſinn ólétt og fæddi einn ſon, og ſagdi: Drottinn hefur heyrt ad eg er forſmád, og hefur géfid mér og ſvo þennann, og hún nefndi hann Simeon. b)

b) Simeon kallaſt heyrari.

34. Og enn aptur vard hún ólétt, og fæddi einn ſon, og ſagdi: nú ſkal minn madur halda ſig aptur til mín, því eg hefi fædt honum þrjá ſonu, og því kalladi hún þann ſama Levi. c)

c) Levi, vidaukinn.

35. Sídan vard hún í fjórda ſinn ólétt, og fæddi einn ſon, og ſagdi: nú vil eg þakka Drottni, þar fyrir kalladi hún hann Juda, d) og hún lét af ad eiga børn.

d) Juda: medkénnari.

## 30. Kapítuli.

1.) Børn Jakobs og 2.) annur.

1.) Sem ad Rachel ſá ad hún átti ekki børn vid Jakob, þá hatadi hún ſína ſyſtur, og ſagdi til Jakobs: géf þú mér børn, ſé annars, þá mun eg deya.

2. Um þetta vard Jakob mjøg reidur vid Rachel, og ſagdi: eigi em eg Gud, ſem ekki vill géfa hér ávørt þíns kvidar.

3. Þá ſagdi hún: ſjá! þar er mín ambátt Bilha, leggſtu med henni, ſvo hún megi fæda á mitt ſkaut, ſvo eg megi verda uppbyggd af henni.

4. Og hún gaf honum ſína ambátt Bilha til kvinnu. Og Jakob lagdiſt med henni.

5. Og hún vard ólétt, og fæddi Jakob einn ſon.

6. Þá ſagdi Rachel: Drottinn hefur dæmt mína ſøk, og heyrt mína rauſt, og géfid mér einn ſon, og því kalladi hún hann a) Dan.

a) Dan kallaſt Dómur.

7. Í annad ſinn vard Bilha Rachels ambátt ólétt, og fæddi Jakob annann ſon.

8. Þá ſagd Rachel: Gud hefur ſkipt um med mér og minni ſyſtur, ad eg geing nú yfir hana, og kalladi hann b) Nephthali.

b) Nephtali kallaſt umbreitt, umſkipt.

9. Sem Lea ſá nú ad hún lét af ad eiga børn, þá tók hún ſína ambátt Silpa, og gaf hana Jakob til eginkvinnu.

10. Svo fæddi Silpa, Leæ ambátt, Jakob einn ſon.

11. Þá ſagdi Lea: Tyadur! og kalladi hann c) Gad.

c) Gad kallaſt útbúinn til ſtríds.

12. Þar eptir fæddi Silpa, Leæ ambátt, Jakob einn annann ſon.

13. Þá ſagdi Lea: ſæl em eg, því dæturnar ſkulu príſa mig ſæla ad vera. Og hún kalladi hann d) Aſser.

d) Aſser kallaſt ſæll.

14. Og Ruben gékk þángad ſem menn voru ad hyrda hveiti, og fann e) Dudaim á akrinum, þad bar hann heim til ſinnar módur Lea. Þá ſagdi Rachel til Lea: géf mér nokkud af Dudaim þíns ſonar.

e) Dudaim: liljugras edur ber, ókénnd í nordurløndum; ſumir kalla Gydínga lands kirſeber, ſem vara á móti hveitis hauſtyrkjunni.

15. Hún ſvaradi: er þér þad ekki nóg, ad þú hefur tekid minn mann frá mér, og nú viltu taka míns ſonar Dudaim? Rachel ſvaradi: nú vel, láttu hann ſofa hjá þér í nótt fyrir Dudaim þíns ſonar.

16. Og sem Jakob kom heim ad kvøldi af akri, þá gékk Lea út í mót honum, og sagdi: þú skalt sofa hjá mér í nótt, því ad eg hefi keypt þig fyrir míns sonar Dudaim og svo svaf hann hjá henni þá nótt.

17. Og Gud bænheyrdi Leam, og hún vard þúngud, og fæddi Jakob þann fimmta son.

18. Og sagdi: Gud hefur launad mér, fyrir þad eg gaf mína ambátt mínum manni, og þann kalladi hún f) Isaschar.

f) Isaschar kallast laun.

19. Og Lea vard enn þúngud, og fæddi Jakob þann sjøtta son.

20. Og sagdi: Gud hefur vel forsjed mig, og nú mun minn mann aptur búa vid mig, því eg hefi fædt honum sex sonu, og hún nefndi hann g) Sebulon.

g) Sebulon: hjábúnadur.

21. Eptir þetta átti hún eina dóttir, hana nefndi hún h) Dina.

h) Dína merkir sok edur dóm.

22. Drottinn minntist þá á Rachel og bænheyrdi hana, og gjørdi hana ávaxtarsama.

23. Og hún vard þúngud, og fæddi einn son, og sagdi: Gud hefur burttekid mína smán.

24. Hún nefndi hann i) Jóseph, og sagdi: Drottinn géfi mér nú einn annann son til þessa.

i) Jóseph kallast aukníng edur voxtur.

2.) 25. Sem Rachel hafdi fædt Jóseph, þá sagdi Jakob til Laban: lát mig nú fara burt til míns samastadar í mitt land.

26. Og géf mér mínar kvinnur og børn, hvar fyrir eg hefi þjónad þér, ad eg megi nú ferdast, því þú veitst hverninn eg hefi þjónad þér.

27. Þá svaradi Laban honum: lát mig finna nád fyrir þínum augum, af reynslu hef eg numid, ad Drottinn blessar mig fyrir þínar sakir.

28. En þú ákvarda sjálfur hvert verkkaup ad eg skal géfa þér.

29. Jakob svaradi honum: þú veitst hversu eg hefi þjónad þér, og hvad fyrir fé þú átt undir mér.

30. Þú áttir lítid ádur eg kom híngad, en nú er þad margfaldlega útbreidt og Drottinn hefur blessad þig fyrir minn fót k). Og nú, nær skal eg og svo forsorga mitt egid hús?

k) Fyrir minn fót: þad er, eg vard ad hlaupa og skjokta híngad og þángad, svo þú kynnir ad verda svo ríkur, minn fótur hlaut þad ad vinna.

31. Hann svaradi: hvad skal eg þá géfa þér? Jakob mælti: þú skalt ekki géfa mér neitt, en ef þú vilt gjøra þad sem eg segi þér, þá vil eg enn framvegis fæda og geyma saudi þína.

32. Eg vil í dag gánga í gégnum alla þína hjørd, og fráskilja allt flekkótt og mislitt fé, og alla svarta saudi á medal lambanna, og þær flekkóttu og mislitu geitur, hvad þá þar eptir verdur flekkótt og mislitt, þad skal vera mitt verkkaup.

33. Svo skal mín réttvísi vitni bera mér í dag eda morgun, þegar þar kémur, ad eg skal taka mitt verkkaup af þér, svo ad hvad sem ekki er flekkótt, eda mislitt, eda ekki verdur svart, á medal lambanna og l) geitanna, þá skal þad vera stuldur hjá mér.

l) Lát þig hér ei villa: ad Mósis kallar smá-fénadinn stundum geitur, stundum lomb, stundum hrúta, eptir Ebreskri málisku, því ad hann vildi svo mikid sagt hafa, ad Jakob hafi hjá sér haft allt hvítt fé, en svart og mislitt allt fékk hann Laban. Og þad sem flekkótt yrdi, undan einlitum berfénadi þad skyldi vera hans laun: Þessum skilmála vard Laban feiginn, og hafdi náttúruna fyrir sér, ad ei mundi margt flekkótt fædast af einlitum eptir náttúru edli: En Jakob styrkti náttúruna med list, svo einlitar ær áttu fjølda flekkóttra lamba.

34. Þá sagdi Laban: sjá! þad skal svo vera sem þú hefur sagt.

35. Og þann sama dag skildi hann frá alla flekkótta og mislita hrúta, og alla flekkótta og mislita geitsaudi, þar sem nokkurstadar fannst hvítur flekkur uppá, og allt þad sem var svart, á medal lambanna, þetta afhendti hann sínum sonum í hendur.

36. Og hann lét þriggja daga leid vera í millum sín og Jakobs. Svo geymdi Jakob Labans hjørd, þad sem ad afgángs var.

37. En Jakob tók sér stafi af grænu Popeltré, harslvidi og Castaniu tré, og skóf hvítar rákir þar uppá.

38. Og lagdi svo stafina, sem hann hafdi skafid børkinn af, í vatnsrennurnar, svo ad þad hvíta á stofunum var bert fyrir hjørdinni, sem þángad hlaut ad koma til ad drekka, ad hún

skyldi fá lamba í því bili, nær hún kjæmi ad drekka.

39. Og svo fékk hjørdin lamba upp yfir stöfunum, og fæddi flekkótt, dílótt, og mislitt.

40. Svo fráskildi Jakob lømbin, og skikkadi þá fráskildu hjørd til þeirrar flekkóttu og svørtu í Labans hjørd, og gjørdi sér sjálfum eina sérdeilis hjørd, og lét hana ekki koma saman vid Labans hjørd.

41. En þegar hjørdin gékk snemma, þá lagdi hann stafina í rennurnar, fyrir augu hjardarinnar, svo ad hún skyldi fá í því bili er hún horfdi á stafina.

42. En fyrir þær sem sídla gengu, lagdi hann þá ekki. Svo vard Labans þad sem sídborid var, en Jakobs þad snemmborna.

43. Og af þessu vard madurinn stór-auðugur, svo ad hann hafdi fjølda sauda, ambáttir og þræla, úlfalda og asna.

## 31. Kapítuli.

1.) Jakob flýr med konum sínum og børnum burt frá Laban, sem 2.) gjørir sáttmála vid Jakob.

1.) Og Jakob heyrdi ord Labans sona, þeir ed søgdu: Jakob hefur komist yfir aleigu vors fødurs, og af vors fødurs eigu er hann svo vellríkur ordinn.

2. Jakob sá og á Labans yfirbragdi, og sjá! þad var ekki svo vid hann sem í gjær og fyrra dag.

3. Þá sagdi Drottinn til Jakobs: hverf aptur í þitt fóstur land, og til þinnar ættar, eg vil vera med þér.

4. Þá sendi Jakob, og lét kalla þær Rachel og Lea út á mørkina, þar hans hjørd var, og sagdi til þeirra:

5. Eg sje ad ykkar fødurs yfirbragd er ekki vid mig svo sem þad var í gjær og í fyrra dag, en Gud míns fødurs hefur verid med mér.

6. Og þid vitid, ad eg hefi þjónad ykkrum fødur af øllu mínu megni.

7. Og hann hefur svikid mig, og tíusinnum hefur hann skipt um min laun, en Gud hefur ekki lofad honum ad gjøra mér skada.

8. Þá hann sagdi: þad flekkótta skal vera þitt verkkaup, þá fæddi øll hjørdin flekkótt lømb, og þá hann sagdi: þad mislita skal vera þitt verkkaup, þá fæddi øll hjørdin mislitt.

9. Svo hefur Gud tekid frá ykkar fødur hans eign og géfid mér.

10. Því ad nær tíminn kom, ad berfjed skyldi fá lambanna, upplypti eg mínum augum, og eg sá í svefni, og sjá þú! ad flekkóttir, dílóttir og mislitir hrútar stukku upp á hjørdina.

11. Og Guds Engill sagdi til mín í svefni: Jakob! og eg svaradi: hér er eg.

12. En hann sagdi: lát upp þín augu og sjá, ad þeir flekkóttu, dílóttu og mislitu hrútar stokkva upp á hjørdina. Því eg hefi sjed allt þad sem Laban hefur gjørt þér.

13. Eg er sá Gud í Bethel, þar sem þú smurdir steininn, og gjørdir mér þar eitt heiti, tak þig nú upp, og far burt af þessu landi, og hverf aptur til þinnar ætt-jardar.

14. Þá svørudu þær Rachel og Lea, og søgdu til hans: vid egum nú aungva deild, eda nokkurn arf eptir í okkar fødurs húsi.

15. Hefur hann ekki haldid okkur svo sem annarlegar? því ad hann hefur selt okkur, og eydt okkar verdi.

16. Þar fyrir hefur Gud tekid vors Fødurs ríkdóm, og géfid okkur og okkar børnum, gjør nú allt þad sem Gud hefur bodid þér.

17. Jakob tók sig upp, og setti sín børn og kvinnur uppá úlfalda.

18. Og hafdi í burt allar sínar hjardir og alla þá fjárhluti sem honum høfdu aflast í Mesopotamia, ad hann færi til síns fødurs Isaaks, í Canaans land.

19. (En Laban var genginn ad klippa saudi sína) og Rachel stal í burt skúrgodum síns fødurs.

20. Svo a) stal Jakob hjarta Labans hins Syrlendska, í því, ad hann sagdi honum ekki, ad hann flýdi.

a) Stal: ad stela hjarta, er Ebreskt máltæki, og er svo mikid, sem ad gjøra nokkud án annars vitundar.

21. Svo flúdi hann í burtu þadan med øllu því honum tilheyrdi, tók sig upp, og fór yfir um fljótid, og setti sína leid til fjallsins Gilead.

22. Á hinum þridja degi þar eptir frétti Laban, ad Jakob var í burt flúinn.

23. Og hann tók sína brædur til sín, og fór eptir honum sjø dagleidir, og nádi honum á fjallinu Gilead.

24. En Gud kom til Labans þess Syrlendska, um nóttina í svefni, og sagdi til hans: varast þú ad tala annars vid Jakob enn vinsamlega. Og Laban nálgadist Jakob.

25. En Jakob hafdi sett sínar tjaldbúdir á fjallinu. Laban setti sín tjøld þar med sínum brædrum, á sama fjalli Gilead.

26. Þá sagdi Laban til Jakobs: hvad hefur þú gjørt, ad þú stalst mínu hjarta og burtfluttir mínar dætur, líka sem þær hefdi verid herteknar med sverdi?

27. Hvar fyrir flúdir þú svo heimuglega? og stalst þig svo í burt, og sagdir mér þad ekki ádur, svo ad eg hefdi mátt fylgja þér á leid med fagnadi, med saungleik, bumbum og hørpum?

28. Þú létst mig eigi heldur mynnast vid mín børn og dætur, nú, þú hefur gjørt fávíslega.

29. Og eg hefi svo mikla makt, ad eg gét vel gjørt þér íllt, en ydvars Fødurs Gud sagdi til mín í gjær: varast þú ad mæla vid Jakob annad heldur enn vinsamlegt.

30. Og eptir því þú vilt ei annad enn á burt fara, og þig lángar svo mjøg heim til þíns fødurs húss, því hefur þú þá stolid mínum godum?

31. Jakob svaradi og sagdi til Labans: eg uggda, og hugsadi ad þú mundir slíta þínar dætur frá mér.

32. En hjá hverjum þú finnur þín god, hann skal hér deya fyrir vorum brædrum. Leitadu þíns hjá mér, og tak þad burt (en Jakob vissi ekki ad Rachel hafdi burt stolid þeim.).

33. Þá gékk Laban inn í Jakobs tjald, og og í tjald Lea, og í beggja ambáttanna tjaldbúd, og fann ekkért. Og hann gékk úr Lea tjaldi, og í tjald Rachelar.

34. Þá tók Rachel godin og lagdi þau undir strábreidu úlfaldanna, og settist þar á ofan. En Laban ransakadi allt tjaldid og fann ekki par.

35. Þá mælti hún til síns Fødurs: minn Herra! reidst mér ekki, þó eg géti ekki risid upp í móti þér, því ad kvennleg edlis sótt er komin ad mér. Og hann fann ekki godin, hversu mjøg sem hann ransakadi.

36. Þá reiddist Jakob, deildi á Laban, og sagdi til hans: hvad hef eg misgjørt edur brotid, ad þú ert mér svo gramur?

37. Þú hefur ransakad alla mína búshluti, hvad hefur þú nú hér fundid af allri þinni eigu? Legg þad hér framm fyrir mína og þína brædur, ad þeir dæmi á millum okkar.

38. Eg hefi verid hjá þér í tuttugu ár, þínir saudir og geitur þínar hafa ekki verid ófrjófar, hrúta hjardar þinnar hef eg ekki etid.

39. Hvad sem rifid var af dýrunum bar eg ekki heim til þín, heldur hlaut eg þad ad betala, og þú krafdir þess af minni hendi, hvert þad var heldur stolid á nóttu eda degi frá mér.

40. Eg vanmegnadist um daga af hita, en um nætur af kulda, og þar kom enginn svefn á mín augu.

41. Svo hef eg nú þessi tuttugu ár þjónad í þínu húsi, fjórtán ár fyrir þínar dætur, og sex ár fyrir þína hjørd. Og þú hefur tíusinnum skipt um mitt verkkaup.

42. Hefdi ekki míns Fødurs Gud, Abrahams Gud, og Isaaks b) ótti, haldid med mér, þá hefdir þú látid mig snaudann frá þér fara. En Gud leit á mína neyd og mína mædu, og hann straffadi þig í gjær.

b) Ótta: Jakob kallar Gud Isaaks ótta, af því ad Isaak óttadist Gud, og var Guds þénari.

2.) 43. Laban svaradi og sagdi til Jakobs: þessar dætur eru mínar dætur, og þessi børn eru mín børn, og þessi hjerd er mín hjørd, og allt þad þú sjer þad er mitt, hvad kann eg gjøra mínum dætrum í dag, eda þeirra børnum, sem þær hafa fædt?

44. Svo kom nú, látum okkur gjøra einn sáttmála, mig og þig, sem skal vera til eins vitnisburdar millum mín og þín.

45. Þá tók Jakob einn stein, og reisti hann upp til eins merkis.

46. Og hann sagdi til sinna brædra: safnid steinum saman. Og þeir báru steina saman, og gjørdu eina grjót-hrúgu, og þeir snæddu á þeirri hrúgu.

47. Og Laban kalladi hana: Jegar Sahadutha, en Jakob kalladi hana c): Gilead.

c) Gilead: vitnisburdar hrúga; og merkir Rítnínguna, í hverri ad eru margir vitnisburdir um Gud.

48. Þá sagdi Laban: þessi steinhrúga skal vera einn vitnisburdur í millum mín og þín, þar fyrir kallast hún Gilead og Mizpah. d).

d) Mizpah: sjónarhæd.

49. Því hann sagdi: Drottinn hann skodi millum mín og þín, nær vid skiljum hér.

50. Ef þú gjörir mínum dætrum nokkud grand, edur ef þú tekur þér adrar kvinnur ad auk minna dætra. Hér er enginn madur hjá okkur, en sjá þú! Gud er vitnid millum mín og þín.

51. Og Laban sagdi enn framar meir til Jakobs: sjá! þad er sú steinhrúga, og þad er þad merki sem eg hefi uppreist millum mín og þín.

52. Sú sama steinhrúga skal vera vitni, og þad teikn skal og vera vitni, ef eg fer hér yfir til þín, eda þú til mín, yfir þessa steinhrúgu og þetta merki, til ad gjöra skada.

53. Abrahams Gud, og Nahors Gud, og þeirra forfedra Gud skal vera dómari millum okkar. Og Jakob sór honum eid, vid síns fodurs Isaaks ótta.

54. Og Jakob færdi fórnir á fjallinu, og baud sínum brædrum til snædíngs, og sem þeir høfdu matar neytt, voru þeir þar uppá fjallinu um nóttina.

55. Árla morguns stód Laban upp, og mynntist vid sín børn og sínar dætur, og blessadi þau, og fór í burt, og kom heim aptur til síns stadar.

## 32. Kapítuli.

1.) Ótti Jakobs; 2.) Bæn; og 3.) Glíma

1.) En Jakob fór leid sína, og Guds Englar mættu honum.

2. Og sem hann sá þá, sagdi hann: þeir eru Guds herlid, og kalladi þann sama stad e) Mahanaim.

e) Mahanaim, þad er: herbúdir.

3. Jakob sendi bod undan sér til móts vid Esau bródur sinn, í landid Seir, í því héradi Edom.

4. Og hann baud þeim og sagdi: segid svo mínum herra Esau, þinn þénari Jakob lætur segja þér, eg hefi til þessa verid lengi utan lands med Laban.

5. Og hefi uxa og asna, saudi, þræla og ambáttir, og sendi eg nú til fundar vid þig, ad eg vildi kunngjøra þetta mínum Herra, svo eg mætti finna nád fyrir þínu augliti.

6. Sendimenn komu aptur til Jakobs, og søgdu: vér komum til þíns bródurs Esau, hann fer í móti þér med fjøgur hundrud manns.

7. Þá óttadist Jakob hardla mjøg, og vard mjøg kvídandi. Og hann skipti í tvo stadi føruneyti sínu sem med honum var, og nautum og saudum og úlføldum í tvær fylkíngar.

8. Og hann sagdi: ef Esau kémur til eins flokksins, og drepur hann, þá má sá annar flokkurinn komast undan.

2.) 9. Og enn sagdi Jakob: Drottinn! míns fødurs Abrahams Gud, og míns fødurs Isaaks Gud! þú sem hefur sagt til mín, far aptur í þitt land, og til þinnar ættar, eg vil gjøra þér gott.

10. Minni er eg allri þeirri miskun, og øllum þeim sannleika sem þú hefur veitt þínum þénara (því eg hafdi ekki meir enn þennann staf, þá eg fór yfir um þessa Jórdan, en nú er eg ordinn ad tveimur fylkíngum).

11. Frelsa mig frá míns bródurs hendi, frá hendi Esau, því eg hrædumst fyrir honum, ad hann muni koma og slá mig, mædurnar, og svo børnin.

12. Þú hefur sagt: eg vil veita þér velgjørníngа, og gjøra þitt sædi svo sem sjóarsand, hver ed ekki verdur talinn fyrir fjølda sakir.

13. Og hann var þar um nóttina, og tók af því sem hann hafdi hjá sér, gáfur, til handa sínum bródur Esau.

14. Sem var tvø hundrud geitur, tuttugu kjarnhafrar, tvø hundrud ásaudar, tuttugu hrútar.

15. Og þrjátíu mylkir úlfaldar med þeirra foløldum, fjørutíu kýr, og tíu uxar, tuttugu øsnur med tíu fýlum.

16. Og hann fékk þetta í hendur sínum þénurum, já, hverja hjørd sér í lagi, og sagdi

til þeirra: farid undan mér, og látid vera bil í millum hjardanna.

17. Og hann baud þeim fyrsta og sagdi: þegar minn bródir Esau mætir þér, og spyr: hverjum heyrir þú til? og hvert villt þú fara? eda hver á þetta sem þú rekur undan þér?

18. Þá skaltu segja: þetta heyrir til þínum þénara Jakob, og hann sendir sínum Herra Esau þetta til einnrar gáfu, og hann kémur hér sjálfur eptir oss.

19. Líka svo skipadi hann hinum ødrum, og svo þeim þridja, og svo øllum þeim sem fylgdu hjørdinni, og sagdi: þér skulud segja til Esau, þá þér mætid honum, svo sem eg hefi bodid ydur.

20. Segid og einnin svo, sjá! þinn þénari Jakob fer hér eptir oss. Því hann þenkti, eg vil blídka hann med þessum gáfum, sem fara undan mér, þar eptir vil eg sjá hann, ské má ad hann taki í móti mér blídlega.

3.) 21. Svo fóru gáfurnar undan honum, en hann var þá sømu nótt hjá sínum flokki.

22. Og hann stód upp um nóttina, og tók bádar sínar eginkonur, og þær tvær ambáttir, og sín ellefu børn, og fór til Vadsins Jaboc.

23. Tók þau,' og færdi þau yfir um vatnsfallid, svo ad yfirum komst allt hvad hann hafdi.

24. Og hann var eptir alleina. Þá a) fékkst madur nokkur vid hann, allt til þess ad dagur var.

a) Fékkst eda glímdi: Kristur er sá madur sem glímdi vid Jakob. Hos. 12, 4. 5.

25. Og sem hann sá ad hann gat ekki yfirunnid hann, tók hann svo hardt á samtengíngu lærlidsins, ad lærbeinid gékk úr lidi í því þá hann fékkst vid hann.

26. Og hann sagdi: lát mig fara, því nú rennur upp dagsbrún; hann svaradi: ekki mun eg láta þig lausann, nema þú blessir mig.

27. Hann sagdi: hvad heitir þú? hann svaradi: Jakob.

28. Hann sagdi: eigi skaltu lengur kallast Jakob, heldur b) Israel. Því ad þú hefur strídt vid Gud og mann, og fékkst sigur.

b) Israel: þýdist høfdíngi edur yfirvinnari Guds, og dregst af Sara, sem þýdir: ad sá makt edur ad yfirvinna; Sar høfdíngi, Sara høfdíngja Frú, þadan er Israel Guds høfdíngi, því ad í krossins baráttu læra menn med trúnni rétt ad þekkja og reyna Gud; sídan gengur sólin upp og er allt hættulaust.

29. Og Jakob spurdi hann ad, og sagdi: seg þú mér, hvad heitir þú? hann svaradi: því spyr þú eptir mínu heiti? Og hann blessadi hann, í þeim sama stad.

30. Og Jakob kalladi þann stad c) Pniel, því ad eg hefi sjed Gud frá andliti til andlits, og mín ønd er frelst.

c) Pniel: merkir: Guds auglit, edur kynníng.

31. Og er hann kom yfir um frá Pniel, þá rann honum sól upp. Og hann var halltur í lærinu.

32. Þar fyrir eta ekki Israels synir afl-sinar (í lærinu) allt til þessa dags, því þá hrørnudu afl-sinar í læri Jakobs.

## 33. Kapituli.

1.) Vinsamlegt vidmót Esau vid Jakob, og 2.) um ferd Jakobs til Canaan.

1.) Jakob lypti sínum augum upp, og sá sinn bródur Esau komanda med fjøgur hundrud manns. Hann skipadi sínum sonum til Lea, og til Rachel, og til beggja þeirra ambátta.

2. Og hann skikkadi ambáttunum og þeirra sonum fremst, þar næst Lea med sínum børnum, en Rachel seinast med Jóseph.

3. Og hann gékk framm undan þeim, og féll sjøsinnum til jardar, þar til hann kom til síns bródurs.

4. Esau rann í móti honum, og tók hann í fáng sér, lagdi hendur um háls honum og kyssti hann, og þeir grétu bádir.

5. Og hann lypti sínum augum upp, sá kvinnurnar med børnunum, og sagdi: hvada fólk er þetta sem med þér er? hann svaradi: þetta eru børn þau sem Gud hefur géfid þínum þénara.

6. Og ambáttirnar gengu framm med sínum børnum, og lutu honum.

7. Lea gékk og framm med sínum børnum, og laut honum, þar eptir gékk Jóseph og Rachel framm, og lutu honum líka.

8. Og hann sagdi: hvad villtu med allann þann flokk sem kom á móti mér? hann svaradi: ad eg megi finna nád fyrir mínum Herra.

9. Esau sagdi: minn bródir! eg hefi nóg, bafdu sjálfur þína eign.

10. Jakob svaradi: eigi svo, hafi eg nú fundid nád fyrir þér, þá medtak nú þessa gáfu af minni hendi, því eg sá þína ásjónu, líka sem eg hefdi sjed Guds ásjónu, og lát þér þetta vel þóknast af mér.

11. Og tak þessa blessan af mér, sem eg hefi fært þér, því Gud gaf mér þad, og eg hefi aldeilis nóg eptir, svo neyddi hann hann þar til, ad hann medtók þad.

12. Og hann sagdi: látum oss fara áfram og ferdast, eg vil fylgjast ad med þér.

13. En Jakob svaradi honum: minn Herra! þú sjer vel, ad eg hef úng børn medferdis, þar til med fé og nýbærar kýr, ef svo skédur nú, ad þetta væri rekid til þrautar á einum degi, þá mun øll hjørdin deya fyrir mér.

14. Minn Herra ferdist undan sínum þénara, eg vil reka svo a) hægt á eptir, svo sem féd og børnin géta gengid, þar til ad eg kém til míns Herra í Seir.

a) Hægt: athuga, ad þeir rétttrúudu og hinir sem uppá sjálfra sín verk treysta, kunna ekki ad fylgjast ad, því þeir trúudu fara sagtmódlega framm med trúudum anda, en þeir sjálfheilogu brjótast fram, stélandi uppá sína egin gjorninga.

15. Esau svaradi: þá vil eg þó láta eptir hjá þér nokkra af þessum mønnum sem eru med mér; hann svaradi: hvad gjørist þess þørf? lát mig alleinasta finna nád fyrir mínum Herra.

16. Svo ferdadist Esau þann sama dag aptur, þann rétta veg til Seir.

2.) 17. Og Jakob fór til Suchoth, og byggdi sér þar eitt hús, gjørdi og hreisi handa sínum fénadi, og því kallast sá stadur Suchoth.

18. Eptir þad fór Jakob til Salem, í þá borg Sichems, sem liggur í Canaans landi, þá hann var kominn af Mesopotamia, og hann setti sína byggd utan stadar.

19. Og keypti eitt lítid akurland af børnum Hemors, fødurs Sichems, fyrir hundrad b) silfurpenínga, hvar hann setti sína tjaldbúd.

b) Edur saudi.

20. Og uppbyggdi þar eitt altari, og ákalladi þar nafn þess sterka Guds Israel.

## 34. Kapituli.

1.) Hemor bidlar til Dina; hvers vegna 2.) þeir synir Jakobs eydileggja Sichem.

1.) Dina dóttir Lea, hverja hún fæddi Jakob, gékk út, ad sjá þess lands dætur.

2. En sem ad Sichem sonur Hemor Hevita, þess lands høfdíngja, sá hana, tók hann hana med valdi, og lá med henni.

(Þad skédi þá Jakob var 100 ára gamall, tveim árum ádnrenn Jóseph var seldur).

3. Og hans hugur hneigdist mjøg til hennar, og hafdi hana harla kjæra, og taladi vinsamlega vid hana.

4. Og Sichem sagdi til síns fødur Hemor: tak mér þessa stúlku til ektakvinnu.

5. Sem Jakob fornam ad hans dóttir Dina var ósæmd, en hans synir voru á akri med sínar hjardir, var Jakob hljódur um þetta, þar til þeir komu heim.

6. Þá gékk Hemor fadir Sichems út og fann Jakob, og taladi vid hann.

7. Og í því bili komu Jakobs synir af akri, og sem þeir heyrdu hvad skéd hafdi, styggdust mennirnir þar vid, og urdu mjøg reidir, ad hann hafdi framid svoddan heimsku í Israel, og ósæmt Jakobs dóttir, því þad var ekki hæfilegt.

8. Þá taladi Hemor vid þá og sagdi: Sichem sonur minn þráir mjøg eptir ydar dóttir, eg bid ad þér géfid honum hana til eginkonu.

9. Gjørum mægdir vor á milli, giftid oss ydar dætur, og takid ydur til handa vorar dætur.

10. Og búid hjá oss, landid skal vera opid fyrir ydur, búid hér, kaupid og seljid, útvegid ydur stadfestu hér.

11. Og Sichem sagdi til hennar fødurs og hennar brædra: látid mig finna nád hjá ydur.

12. Eg vil géfa ydur hvad þér uppá setjid, æskid ad eins frílega af mér bædi morgungáfu og tilgjafar, eg vil géfa ydur hvad þér hafa viljid, géfid ad eins stúlku þessa í mitt vald mér til eginkvinnu.

13. Þá svørudu Jakobs synir Sichem, og hans fødur Hemor, med undirhyggju, søkum þess ad þeirra systir Dina var ósæmd, og søgdu til þeirra:

14. Eigi megum vér þad gjøra, ad gifta nokkrum manni vora systir, þeim sem ekki er umskorinn, því þad er oss vanvirda.

15. En þó viljum vér vera ydur til vilja, ef þér viljid verda oss líkir, og láta umskéra allt karlkyns ydar á millum.

16. Þá viljum vér gifta ydur vorar dætur, en taka oss til handa ydar dætur, og búa hjá ydur, og vér viljum vera svo allir einn lýdur.

17. En viljid þér ekki viljuglega láta umskéra ydur, þá viljum vér taka vora dóttir, og fara í burt.

18. Þessi ræda líkadi Hemor og hans syni vel.

19. Og sveinninn tafdi ekki ad gjøra þad, því hann hafdi stóra ást á dóttur Jakobs. En hann var ágjætastur haldinn allra í síns fødurs húsi.

20. Svo komu þeir nú Hemor og hans sonur Sichem til borgarhlidsins, og tøludu vid borgarmenn sína og søgdu:

21. Þessir menn eru fridsamlegir hjá oss, og vilja búa í þessu landi, kaupa og selja, svo er nú landid nógu vídt fyrir þá, vér viljum taka þeirra dætur oss til eginkvenna, og gifta þeim vorar dætur.

22. En í þann máta vilja þeir vera oss til vilja, ad búa hjá oss, og vera eitt fólk med oss, ef vér viljum umskéra allt karlkyns á medal vor, líka svo sem þeir eru umskornir.

23. Þeirra fé og fjárhlutir og allt þad þeir hafa verdur vort, ef vær eins kostar viljum gjøra þeim þetta til vilja, svo ad þeir búi hjá oss.

24. Og þeir hlýddu Hemor og Sichem hans syni, allir þeir sem geingu út og inn ad hans stadar borgarhlidum. Og þeir umskáru allt karlkyns, sem gékk út og inn um hans stad.

3.) 25. A þeim þridja degi er þeim var sem vidkvæmast, þá tóku þeir tveir synir Jakobs, Simeon og Levi, brædur Dina, hver sitt sverd, og gengu djarflega í stadinn, og drápu alla karlmenn.

26. Og þeir drápu einninn Hemor og hans son Sichem med sverds eggjum, og høfdu burt Dinam sína systir af húsi Sichem, og geingu í burt.

27. Þá komu Jakobs synir yfir þá sem slegnir voru, og ræntu borgina, søkum þess ad þeir høfdu óscæmt þeirra systur.

28. Og tóku þar naut þeirra og saudi, asna, og hvad þar var í borginni, og á økrunum, og allt þeirra góts.

29. Øll børn og kvinnur tóku þeir ad herfángi, og ræntu øllu því sem var í húsunum.

30. Þá sagdi Jakob til Simeon og Levi: þid hafid stofnad mér til ólukku, og gjørt mig a) illa lyktandi vid þessa lands innbyggjara, sem eru Cananei og Pheresei, vér erum fáir, nær sem þeir saman safnast í móti mér, þá slá þeir mig í hel, svo verd eg afmádur og mitt hús.

*a) Ovinsælann.*

31. Þeir svørudu: skyldu þeir hafa þá breitt vid vora systur svo sem vid adra portkonu?

## 35. Kapítuli.

1.) Jakob ferdast til Bethel; 2.) Rachel andast; 3.) Nøfn Jakobs sona; 4.) Isaak andast.

1.) Og Gud sagdi til Jakob: tak þig upp, og far til Bethel, og bú þú þar, og bygg þú þeim Gudi þar eitt altari sem vitradist þér, þá þú flýdir fyrir þínum bródur Esau.

2. Þá sagdi Jakob til síns húss, og til allra þeirra sem med honum voru: kastid burt þeim annarlegum Gudum sem þér hafid hjá ydur, og hreinsid ydur, og skiptid um ydar klædnad.

3. Tøkum oss upp, og førum í Bethel, svo eg megi byggja þeim Gudi þar eitt altari, sem bænheyrdi mig í minni mótgángs tíd, og hefur verid med mér á þeim vegi sem eg hefi farid.

4. Svo gáfu þeir honum í hendur alla framandi Gudi, sem þeir høfdu undir sínum høndum, og svo þeirra a) eyrna speingur. Og hann gróf þau nidur undir eina eik sem stód hjá Sichem.

*a) Ennisspengur.*

5. Svo ferdudust þeir burt, og þar kom hrædsla af Drottni yfir alla þá stadi sem þar láu umhverfis, svo þeir sóktu þá ekki eptir Jakobs sonum.

6. Svo komst Jakob til Lus í Canaans landi, sem kallast Bethel, og allt þad fólk sem var med honum.

7. Og hann byggdi þar eitt altari, og kall-

adi þann sama stad El-Bethel b), því að Gud birtist honum þar, þá hann flýdi fyrir sínum bródur.

b) El Bethel: þad er: Gud í Bethel.

8. Þá andadist Debora fóstra Rebekku, og var jørdud fyrir nedan Bethel, undir einni eik sem var køllud Grát-eik.

9. Og Gud birtist Jakob í annad sinn, sídan hann var kominn af Mesopotamia, og blessadi hann.

10. Og sagdi til hans: þú kallast Jakob. En þú skalt ekki hér eptir kallast Jakob, heldur skaltu heita Israel, og sídan kalladist hann Israel.

11. Og Gud sagdi til hans: eg er almáttugur Gud, vertu ávaxtarsamur og margfalda þig, þjódir og þjóda hópur skal koma af þér, og Kóngar skulu koma af þínum lendum.

12. Og þad land sem eg hefi géfid Abraham og Isaak, vil eg géfa þér, og eg vil géfa þad þínu sædi eptir þig.

13. Svo fór Gud upp frá honum úr þeim stad sem hann taladi vid hann.

14. Jakob uppreisti þar einn steinstólpa í þeim stad, þar Gud taladi vid hann, og jós drykkjar-offri c) þar uppá, og hellti þar yfir vidsmjøri.

c) Drykkjar offur: þad var vín, sem merkja má af eptirfylgjandi bókum.

15. Og Jakob kalladi þann stad þar Gud taladi vid hann, Bethel.

2.) 16. Og þeir ferdudust frá Bethel, og sem þeir voru komnir hardt nærri Ephrat, þá fæddi Rachel.

17. Og hún komst hardla mjøg vid í barnburdinum. Og sem hún þjakadist svo þúngloga í barnburdinum, sagdi ljósmódurin til hennar: óttast þú ekki, því þennann son skaltu og hafa.

18. Og sem øndin gékk upp af henni, og hún hlaut ad deya, þá kalladi hún hann Benoni, d) en hans fadir kalladi hann Benjamin. e)

d) Benoni merkir minn harmkvæla sonur.

e) Benjamin hægri handar sonur.

19. Svo andadist Rachel, og var jørdud á veginum til Ephrath, sem nú kallast Betblehem.

20. En Jakob setti upp eitt merki yfir hennar grøf, og þad er merki yfir leidi Rachel, allt til þessa dags.

3.) 21. Og Israel ferdadist þadan, og setti sína tjaldbúd á hina sídu turnsins Eder.

22. Og þad skédi, þá ad Israel bjó þar í landinu, þá gékk Ruben burt, og svaf med Bilha síns fødurs hjákvinnu, og þad spurdi Israel. Jakob átti * tólf sonu. * Gjørnb: Post. 7, 8.

23. Synir Lea voru þessir: Ruben, sá frumgétni sonur Jakobs, Simeon, Levi, Juda, Isaschar og Zabulon.

24. Rachels synir voru: Jóseph og Benjamin.

25. Synir Bilha, Rachels ambáttar, voru: Dan og Nephtali.

26. Synir Silpa, Lea ambáttar, voru þeir: Gad og Asser. Þessir eru synir Jakobs, sem honum voru fæddir í Mesopotamia.

4. 27. Og Jakob kom til síns fødurs Isaak í Mamre, í þeim høfudstad sem kallast Hebron, þar sem Abraham og Isaak høfdu verid framandi.

28. Og Isaak vard hundrad og átta tíu ára gamall.

29. Og hann veiktist, og andadist, og safnadist til síns fólks, gamall og saddur af þessu lífi. Og hans synir, Esau og Jakob, jørdudu hann.

## 36. Kapituli.

Ættartala Esau.

Þetta er Esau ættkvísl, sem nefndist Edom.

2. Esau tók sér kvinnu af Canaans dætrum, Ada dóttir Elons Hethei, og Ahalibama dóttir Ana, sem var barns barn Zibeons Hevitei.

3. Og Basmath Ismaels dóttir Nebajóths systir.

4. Og Ada fæddi Esau Eliphas. En Basmath fæddi Reguel.

5. Ahalibama fæddi Jehus, Jaelam og Korah, þessi eru Esau børn, sem hann átti í Canaans landi.

6. Og Esau tók sínar kvinnur, sonu og dætur, og þær allar sálir sem voru í hans húsi, sinn búsmala, og allt sitt kvikfé, og alla

þá fjárhluti sem honum høfdu aflast í Canaans landi, og fór í eitt land frá Jakob sínum bródur.

7. Því þeirra audæfi voru svo mikil, ad þeir máttu ekki búa til samans, og þad land, í hverju þeir voru framandi, bar þá ekki, fyrir søkum fjølda hjardar þeirra.

8. Og Esau bjó á fjallbygdum Seir, og Esau er Edom.

9. Þetta er ættkvísl Esau, af hverjum Edomitar eru komnir, á fjallinu Seir.

10. Og þetta er heiti Esau barna, Eliphas son Ada kvinnu Esau. Reguel son Basmath kvinnu Esau.

11. En þessir voru Eliphas synir, Theman, Omar, Zepho, Gaetham, og Kenas.

12. Og Thimna var hjákvinna Eliphas Esau sonar, hún fæddi honum Amalek. Þessi eru Esau børn af Ada hans kvinnu.

13. En Reguels børn eru þessi, Nahath, Serah, Samma, Misa. Þessi eru børn Basmath kvinnu Esau.

14. Þessi eru børn af Ahalibama kvinnu Esau Ana dóttir, sem var barns barn Zibeons, er hún fæddi Esau, Jeus, Jaelam og Korah.

15. Þessir eru høfdíngjar á medal sona Esau. Børn Eliphas Esau frumgetna sonar voru þessi, hertugi Theman, hertugi Omar, hertugi Zepho, hertugi Kenas.

16. Hertugi Korah, hertugi Gaetham, hertugi Amalek. Þessir eru hertugar komnir af Eliphas, í landi Edom, og eru synir Ada.

17. Þessir eru synir Reguels sonar Esau, hertugi Nahath, hertugi Sera, hertugi Samma, hertugi Misa. Þessir eru hertugar komnir af Reguel, í landi Edom og eru þessir synir Basmath kvinnu Esau.

18. Þessi eru børn Ahalibama Esau kvinnu, hertugi Jeus, hertugi Jaelam, hertugi Korah, þessir høfdíngjar komu af Ahalibama Anas dóttir kvinnu Esau.

19. Þetta eru børn Esau og þeirra høfdíngja, hann er Edom.

20. Þessi eru børn Seirs Horita, sem bjuggu í landinu, Lothan, Sobal, Zibeon, Ana.

21. Dison, Ezer, og Disan, þessir eru Horita hertugar Seirs børn í landi Edom.

22. En þessi eru Lothans børn, Hori og Heman, og Lothans systir hét Thimna.

23. Þessi voru Sobals børn, Alvan, Manahath, Ebal, Sepho, og Onan.

24. Þessi voru børn Zibeon, Aia, og Ana, og þessi Ana var sá sem fann múlasna í eydimørku, þá hann geymdi síns fødurs Zibeons asna.

25. Þessi voru Anas børn, Dison, og Ahalibama, þad er Anas dóttir.

26. Þessi voru børn Dison, Hemdan, Esban, Jetran og Charan.

27. Þessi voru Ezers børn, Bilhan, Savan, og Akan.

28. Disans børn voru Uz og Aran.

29. Þessir voru hertugar Horita, hertugi Lothan, hertugi Sobal, hertugi Zibeon, hertugi Ana.

30. Hertugi Dison, hertugi Ezer, hertugi Disan. Þessir voru hertugar þeirra Horita, sem ríktu í landinu Seir.

31. Þessir eru þeir Kóngar, sem ríktu í landi Edom, fyrr enn Israels synir høfdu Kónga.

32. Bela Beors son var Kóngur í Edom, og hans borg hét Dinhaba.

33. En sem Bela deydi, vard Jobab Serah son af Bazra Kóngur í hans stad.

34. Þá Jobab andadist, vard Husam af landi Themanorum Kóngur í hans stad.

35. En þá Husam deydi, vard Hadad Bedads son Kóngur í hans stad, hver ed sló þá Madianita á Moabiters mørkum. Og hans stadur hét Avith.

36. En sem Hadad deydi, ríkti Samla af Masrek.

37. Þá Samla deydi, vard Saul af Rehoboth hjá fljótinu, Kóngur í hans stad.

38. Eptir andlát Sauls, tók kóngdóm Baal Hanan Achbors son.

39. Eptir Baal Hanan Achbors son tók Hadar kóngdóm, og hans stadur hét Pagu, og hans kvinna hét Mehethabeel, dóttir Matred, dóttur Mesahab.

40. Þessi voru þeirra hertuga nøfn, sem

komu af Esau, eptir þeirra ætterni, stødum og nøfnum, hertugi Thimna, hertugi Alva, hertugi Jetheth.

41. Hertugi Ahalibama, hertugi Ela, hertugi Pinon.

42. Hertugi Knas, hertugi Theman, hertugi Mibzar.

43. Hertugi Magdiel, hertugi Iram. Þetta eru þeir høfdíngjar í Edom, eptir því sem þeir bjuggu í sínu erfdalandi. En Esau er fadir þeirra Edomita.

## 37. Kapítuli.

Jóseph 1.) dreymir; og er 2.) seldur af brædrum sínum.

1.) Jakob bjó í því landi, sem hans fadir hafdi verid framandi, sem var í Canaans landi.

2. Og þessi er Jakobs ættkvísl. Jóseph var seitján ára gamall, þá hann gjætti hjardar med sínum brædrum. Og sveinninn var hjá sonum þeirra Bilha og Silpa síns fødurs kvenna. Og hann sagdi sínum fødur frá þeirra vondu rikti.

3. Og Israel hafdi Jóseph kjærann framm yfir øll sín børn, því hann hafdi gétid hann í sinni elli, og hann gjørdi honum einn mislitann kyrtil.

4. En er hans brædur sáu þad, ad þeirra fadir elskadi hann meir enn alla hans brædur, * þá fengu þeir hatur til hans, og gátu ei talad eitt vinsamlegt ord vid hann. * Gjørn: P: Post. 7, 9.

5. Þar til dreymdi Jóseph einu sinni einn draum, og sagdi hann sínum brædrum, þá høtudu þeir hann enn meir.

6. Því hann sagdi til þeirra: heyrid hvad mig hefur dreymt.

7. Mér þótti, ad vér bundum korns bindini á akri, og mitt korns bindini reisti sig upp, og stód, en ydar korns bindini beygdu sig nidur fyrir mínu korns bindini, allt um kríng.

8. Þá svørudu hans brædur honum: muntu þá eiga ad verda vor Kóngur, og drottna yfir oss? Og þeir fengu enn meira hatur til hans bædi søkum hans draums, og hans orda.

9. Eptir þad dreymdi hann einn annann draum, og sagdi sínum brædrum, segjandi: sjáid! mig dreymdi enn einn draum. Mér þótti ad sólin og túnglid og ellefu stjørnur lutu mér.

10. Og sem þetta var sagt hans fødur, og hans brædrum, straffadi fadir hans hann og sagdi til hans: hvad er þad fyrir einn draum sem þig dreymdi? skyldi eg og þín módir og þínir brædur koma og tilbidja þig?

11. Og hans brædur høtudu hann, en hans fadir geymdi þessi ord hjá sjálfum sér.

2.) 12. Og sem hans brædur gengu nú í burt, ad halda þeirra fødurs saudum til haga í Sichem, sagdi Israel til Jósephs.

13. Geyma ekki þínir brædur hjørd í Sichem? kom! eg vil senda þig til þeirra.

14. Hann svaradi: hér em eg. Og hann sagdi: far þángad, og sjá hvert allt gengur vel þínum brædrum og hjørdunni, og seig mér svar aptur, hvad þar er tídinda. Svo sendi hann Jóseph á stad úr dalnum Hebron, ad hann færi til Sichem.

15. Þá fann madur nokkur hann, er hann villtist á mørkinni, hann spurdi hann ad, og sagdi: eptir hverju leitar þú?

16. Hann svaradi: eg leita eptir mínum brædrum, eg bid þig ad þú segir mér hvar þeir halda hjørdinni.

17. Madurinn svaradi: þeir eru farnir hédan, því eg heyrdi þá segja: vér viljum fara til Dothan. Svo gékk Jóseph eptir sínum brædrum, og fann þá í Dothan.

18. Sem þeir sáu hann nú álengdar, ádur enn hann kom nærri þeim, gjørdu þeir rád sín ad vega hann.

19. Og søgdu sín á milli: sjáid! draumadurinn kémur.

20. Því komid nú og látum oss vega hann, og køstum honum í gryfju, og segjum ad íllt dýr hafi hann uppetid, þá mun sjást hvad hans draumar hafa uppá sig.

21. En sem Ruben heyrdi þetta, vildi hann frelsa hann af þeirra høndum, og sagdi: eigi skulum vér drepa hann. Og, Ruben sagdi enn framar til þeirra:

22. Uthellid ekki blódi, heldur kastid honum í þessa grøf sem hér er í eydimørkinni, og leggid ekki hendur á hann. Því hann vildi frelsa hann af þeirra høndum, svo hann gæti aptur feingid hann sínum fødur.

23. Og sem Jóseph kom nú til sinna bræðra, flettu þeir hann sínum kyrtli, sem var sá misliti kyrtill er hann hafdi.

24. Og þeir tóku hann, og køstudu honum í eina gryfju. En sú sama gryfja var tóm og vatnslaus.

25. Þeir settust nidur ad neyta matar. Og í því bili lyptu þeir upp sínum augum, og sáu ad flokkur Israelita kom af Gilead, med sína úlfalda, sem báru jurtir, balsamum og myrram, og ferdudust nidur í Egyptaland.

26. Þá sagdi Júda til sinna bræðra: hvad stodar oss þó vér myrdum vorn bródur og leynum hans blódi?

27. Komid! vér viljum selja hann þeim Ismaelitis, svo ad vorar hendur forgrípi sig ekki á honum, því hann er vor bródir, vort hold og blód, og þeir hlýddu honum.

28. Og sem þeir Madianitersku kaupmenn reistu þar framm hjá, drógu þeir hann upp úr gryfjunni, og seldu hann þeim Ismaelitis fyrir tuttugu silfurpeninga, þeir fluttu hann í Egyptaland.

29. En þá Ruben kom nú til gryfjunnar aptur, og fann ekki Jóseph þar, þá reif hann sín klædi.

30. Kom til sinna bræðra aptur og sagdi: sveinninn er ekki þar, hvert skal eg fara?

31. Þá tóku þeir Jósephs kyrtil, sæfdu einn hafur, og velktu kyrtilinn í hans blódi.

32. Og þeir sendu þann sama mislita kyrtil af stad, og létu færa hann þeirra fødur, og segja svo: þetta høfum vér fundid, skoda þú, hvert þad er þíns sonar kyrtill, eda ekki.
(Þá hefur Jakob hast átta vetur og hundrad).

33. Hann þekkti hann og sagdi: þad er míns sonar kyrtill, ólmt dýr hefur upp etid hann; eitt glepsandi dýr hefur sundur slitid Jóseph.

34. Og Jakob reif sín klædi, og lagdi einn sekk um sínar lendar, og sorgadi sinn son lánga tíma.

35. Og allir hans synir og dætur, løgdu sig til ad hugga hann, en hann vildi ekki láta sig hugga, og sagdi: eg mun fara med harmi í grøfina nidur til míns sonar. Og hans a) fadir grét hann.

a) Fadir: Þad var Isaak, Jakobs fadir, og afi Jósephs, sem lifdi eptir þennann adburd um tólf ár.

36. En þeir Madianitar seldu Jóseph í Egyptalandi þeim manni sem hét Potiphar, hver ed var Pharaonis herbergis sveinn b) og hofmeistari.

b) Hershøfdíngi.

## 38. Kapítuli.

Júda 1.) blessast med børnum, og 2.) leggst med Thamar.

1.) Þad bar til á þeim sama tíma, ad Júda fór ofan frá sínum brædrum, og gaf sig til eins manns af Odollam, hann hét Hira.

2. Og þar leit Júda eins Canverks manns dóttir, hann hét Suha, og fékk hennar.

3. Og sem hann lagdist med henni, vard hún þúngud, og fæddi einn son, þann nefndi hann Ger.

4. Hún vard og ólétt í annad sinn, og átti einn son, þann nefndi hún Onan.

5. Hún fæddi aptur einn son, þann kalladi hún Sela. Hann var í Chesib þá hún fæddi hann.

6. Og Júda gipti sinn frumgétinn son Ger einni kvinnu, sem hét Thamar.

7. En hann var skálkur í augliti Drottins, þar fyrir sló Drottinn hann í hel.

8. Þá sagdi Júda til Onan: gakk inn til þinnar bródur kvinnu, og tak hana til ekta, svo þú megir uppvekja þínum bródur sædi.

9. En er Onan vissi þad, ad sædid var ekki hans eigid, þó ad hann legdist med síns bródurs kvinnu, lét hann þad á jørd falla, og spillast, svo hann skyldi ei géfa sínum bródur sædi.

10. Þad mislíkadi Drottni er hann gjørdi, og sló hann einninn í hel.

11. Þá sagdi Júda til sinnar sonarkonu Thamar: vert þú ein ekkja í þíns fødurs húsi, þar til minn son Sela er vaxinn. Því hann hugsadi: ské má ad hann deyi svo sem hans

brædur. Thamar fór burt, og var í síns føð-
urs húsi.
2.) 12. Og eptir marga daga liðna, andaðist
dóttir Suha, húsfrú Júda. Og þar eptir sem
Júda hafði úti sína sorg, þá fór hann upp til
Thimnath að klippa sína sauði, með sínum a)
hyrdir, Hira af Odollam.
*a)* vin.

13. Þetta spurði Thamar, sjá! mágur þinn
gengur upp til Timnath, að klippa sitt fé.

14. Og hún lagði sinn ekkju-búnað af sér,
sem hún bar, og vafði um sig einum møttli og
huldi sig, og setti sig fyrir dyrnar á þeim vegi
sem liggur til Thimnath, því hún sá að Sela
var fullvaxinn, en hún var þó ei gipt honum.

15. Þá nú Júda sá hana, ætlaði hann að
vera mundi ein portkona, því hún hafði hul-
ið sitt andlit.

16. Hann gékk af veginum til hennar, og
sagði: leyf mér að liggja hjá þér, þvíað hann
vissi ekki að það var hans sonar kvinna. Hún
svaraði: hvað villt þú géfa mér, að þú megir
liggja hjá mér?

17. Hann sagði: eg vil senda þér einn geit-
hafur af hjørðinni. Hún svaraði: fá mér þá
nokkuð í pant þar til þú sendir mér hann.

18. Hann sagði: hvað villt þú þá að eg fái
þér til panta? hún svaraði: þinn hríng, þinn
nasaðúk, og þinn staf sem þú hefur í hendinni.

19. Svo fékk hann henni þetta, og lá hjá
henni, og hún fékk gétnað af þeirra viðskiptum,
stóð upp, og gékk burt, og lagði kápuna af sér,
og færði sig í sinn ekkjubúníng aptur.

20. Og Júda sendi geithafurinn með sínum
b) hyrdir af Odollam, og að hann skyldi heimta
pantana aptur af kvinnunni, en hann fann
hana hvergi.
*b)* vin.

21. Þá spurði hann fólkið að í þeim stað,
og sagði: hvar mun sú portkona sem sat út við
veginn. Þeir svøruðu: engin portkona hefur
þar verið.

22. Og hann kom til Júda aptur, og sagði:
ekki fann eg hana, og fólkið í þeim stað sagði,
þar hefði engin portkona verið.

23. Þá sagði Júda: hafi hún það hún held-
ur, að vér skulum ekki verða mínkaðir; því eg
sendi geithafurinn sem eg lofaði, og þú kunnir
ekki að finna hana.

24. Þremur mánuðum þar eptir liðnum,
var Júda sagt: Thamar þíns sonar kona er
nú orðin portkona, og sjá! hér með er hún orðin
ólétt í frillulífi. Þá svaraði Júda: færið hana
híngað, hún skal brennast.

25. Og þá hún var frammleidd, sendi hún
boð til síns mágs, og sagði: af þeim manni hef
eg gétnað féngið, sem þetta heyrir til, og sagði:
veitst þú ekki hverjum þessi hríngur, og þessi
klútur, og þessi stafur tilheyrir?

26. Júda þekkti það og sagði: hún er rétt-
ferðugri enn eg, því eg gaf henni ekki minn son
Sela, og hann kénndi hennar ekki þaðan í frá.

27. Og sem hún skyldi nú verða léttari, þá
gékk hún með tvíbura.

28. Og í sjálfri fæðíngunni þá kom þar
ein barns hønd í ljós. Yfirsetukonan tók þá
einn rauðan þráð, og batt um høndina og
sagði: þessi skal fyrst fæðast.

29. En sem hann tók sína hønd að sér, þá kom
hans bróðir til, og hún sagði: því hefur þú
fyrir þína skuld gjørt svoddan sundurslit? og
hann var nefndur Perez. c)
*c)* Perez þýðist sundurslítari.

30. Þar eptir var hans bróðir fæddur, sem
hafði þann rauða þráð um sína hønd, og hann
var kallaður Serah d).
*d)* Serah: uppruni.

## 39. Kapítuli.

1.) Jósephs þjónusta; 2.) Hreinlífi; og 3.) Fángelsi.

1.) Jóseph var fluttur niður í Egyptaland. Og
Potiphar einn Egyptskur maður, herbergis þén-
ari og a) hofmeistari Pharaonis Kóngs, keypti
hann að þeim Ismaelitis, sem fluttu hann of-
an þángað.
*a)* Hershøfðíngi.

2. Og Guð var með Jóseph, svo hann varð
lukkusamur, og var í húsi síns herra þess
Egyptska.

3. Og hans herra sá, að Drottinn var með
honum, því að allt hvað hann gjørði, það lét
Drottinn vel lukkast fyrir hann.

4. Svo ad hann fann náð fyrir sínum herra, og var hans þénari. Og hann setti hann yfir allt sitt hús, og allt hvad hann hafdi, þad gaf hann honum undir hans hendur.

5. Og upp frá þeim tíma sem hann hafdi sett hann yfir sitt hús, og yfir alla sína fjárhluti, þá blessadi Drottinn þess hins Egyptska hús, vegna Jósephs, og þar var iduglega Guds blessan yfir øllu því hann hafdi, bædi heima í húsinu og svo á økrunum úti.

6. Og því gaf hann alla sína eigu Jóseph í hendur, og hugsadi ekki um neitt á medan hann hafdi hann, utan át og drakk. En Jóseph var vænn ad yfirliti, og fridur í ásjónu.

2.) 7. Pad skédi eptir þessa tilburdi, ad kona hans herra renndi augum til Jósephs, og sagdi: sof þú hjá mér.

8. En hann vildi ekki, og sagdi til hennar: sjá! minn herra hlutast til einskis fyrir mér sem er í hans húsi, og allt hvad hann á, þad hefur hann lagt undir mínar hendur.

9. Og hann hefur ekkért svo mikilsverdt í sínu húsi, ad hann geymi þad fyrir mér, ad frátekinni þér b) þad því vidvíkur, ad þú ert hans eiginkvinna, hvernin má eg nú þá gjøra svo mikid óhæfu-verk, og syndgast á móti Gudi?

b) Þad því vidvíkur: í odrn átti Jóseph ad sorga, svo vel fyrir húsmódurinni, sem ollu húsinu, utan í því, ad hann mátti ekki liggja med henni.

10. Hún taladi daglega svoddan ordum vid Jóseph, en hann vildi í aungvann máta samþykkjast henni, í því hann lægi med henni, eda væri hjá henni.

11. Pad skédi svo á nokkrum deigi, ad Jóseph gékk inn í húsid, til sýslu sinnar, og þar var einginn mann af heimafólkinu.

12. Hún tók þá í hans fat, og sagdi svo til hans: sof þú med mér. En hann lét eptir sitt fat í hennar høndum og flúdi, og hljóp út af húsinu.

13. Og sem hún sá nú, ad hann lét sitt fat eptir í hennar høndum, og flýdi út.

14. Pá kalladi hún á fólkid í húsid, og sagdi til þeirra: sjáid! hann hefur haft híngad þann Ebreska mann, til ad veita oss vanvirdu, hann kom hér inn til mín, og vildi hafa leigid med mér, en eg kalladi med hárri røddu.

15. En sem hann heyrdi ad eg hrópadi svo og kalladi, þá sleppti hann sínu fati vid mig, en flýdi sjálfur, og hljóp út.

16. Og hún lagdi hans fat hjá sér, þar til ad hans herra kom heim. Og taladi til hans øllum sømu ordum, og mælti:

17. Hér kom sá Ebreski sveinn inn til mín, sá þú hefur haft híngad, og vildi vanvirda mig.

18. En þá eg tók til ad hrópa og kalla, þá lét hann eptir sitt fat hjá mér, og flýdi í burtu.

3.) 19. Og sem hans herra heyrdi ord sinnar kvinnu, sem hún taladi til hans, og sagdi: svo hefur þinn þénari gjørt vid mig. Pá vard hann mjøg reidur.

20. Pá tók hans herra hann, og kastadi honum í myrkvastofu, þar sem kóngsins fángar voru vardveittir. Og hann lá þar í myrkvastofunni.

21. En Drottinn var med honum og hneigdi sína miskun til hans, og lét hann finna náð hjá forstjóra myrkvastofunnar.

22. Svo hann befaladi undir hans hønd alla bandíngjana sem voru í myrkvastofunni, svo ad allt hvad þar skyldi gjørast hlaut af honum ad gjørast.

23. Svo ad forstjórinn myrkvastofunnar tók sér ekki neitt fyrir hendur, þvíad Drottinn var med Jóseph, og Drottinn gaf lukku til þess sem hann gjørdi.

## 40. Kapituli.

Jóseph leggur einn draum út 1.) fyrir Skeinkjaranum, og 2.) fyrir Bakaranum.

1.) Sá atburdur var þar eptir, ad Skeinkjari kóngsins í Egyptalandi, og svo hans Bakari brutu í móti sínum herra Egyptalands kóngi.

2. Og Pharao reiddist bádum sínum þjónustumønnum, þeim ypparsta Skeinkjara og ypparsta Bakara.

3. Og lét setja þá í hofmeistarans hús í myrkvastofu, þar sem Jóseph var fyrir í fángelsi.

4. Og hofmeistarinn setti Jóseph yfir þá, ad

hann skyldi þjóna þeim, og þeir sátu nokkra daga í myrkvastofu.

5. Og báda Egyptalands Kóngs þjónustumenn Seinkjarann, og Bakarann, dreymdi á einni nóttu, undir eins, hvern þeirra sinn draum, og hvers þeirra draumur hafdi sína merkíng.

6. Þá Jóseph kom nú inn til þeirra um morguninn, og sá ad þeir voru ógladir, spurdi hann þá ad, og sagdi:

7. Því erud þér svo ókátir í dag?

8. Þeir svørudu: okkur hefur dreymt, og hér er einginn sá sem kann þad ad ráda fyrir okkur. Jóseph sagdi: útleggíngin heyrir Gudi til, en seigid mér þó (hvad ykkur dreymdi).

9. Þá framsagdi sá ypparsti Skeinkjari fyrir Jóseph sinn draum, og sagdi til hans: mig dreymdi, ad einn vínvidur væri fyrir mér, med þremur kvíslum.

10. Hann vard grænn, óx og blómgadist, svo ad vínberin þará urdu fullvaxin.

11. Og eg hafdi Pharaonis bordkér í minni hendi, og eg tók berin og spreingdi þau í kérid, og svo rétta eg kérid í Pharaonis hønd.

12. Þá sagdi Jóseph til hans: þetta er útþýdíngin þar uppá, þrjár vínvidar kvíslir eru þrír dagar.

13. Og ad þremur døgum lidnum, mun Pharao upp-hefja þitt høfud, og setja þig aptur til þíns embættis, svo þú munt rétta bordkérid í hans hønd, svo sem þú plagadir fyrr ad gjøra, þá þú varst hans Skeinkjari.

14. En minnstu mín þá þér vel geingur, og veit mér þá miskun, ad þú áminnir Pharaonem, ad hann taki mig út af þessu húsi.

15. Þvíad mér var med leynd burt stolid af landi ebreskra manna, þar med hef eg og hér ekkért þar til unnid, ad þeir hafa sett mig inn.

2.) 16. Nú sem sá ypparsti bakari sá þetta, ad útþýdíngin var svo gód, þá sagdi hann til Jóseph: mig dreymdi og svo. Eg þóttumst bera þrjár hvítar karfir á mínu høfdi.

17. Og í þeirri efstu kørfu voru allra handa steiktar krásir til handa Pharaoni. En fuglarnir átu úr kørfunni á mínu høfdi.

18. Þá svaradi Jóseph, og sagdi: þetta er útþýdíngin, þrjár karfir eru þrír dagar.

19. Og eptir þrjá daga mun Pharao upp hefja þitt høfud, og festa þig á gálga, og fuglar munu eta þitt hold af þér.

20. Og þad skédi á þeim þridja degi þadan, þá héllt Pharao sinn burdardag, og gjørdi øllum sínum þénurum eitt géstabod, þá upphóf hann þess ypparsta skeinkjara høfud, og svo høfud þess ypparsta bakarans, á medal sinna þénara.

21. Og hann setti þann ypparsta skeinkjara aptur til síns embættis, ad hann skyldi rétta kérid í Pharaonis hønd.

22. En þann ypparsta bakara lét hann hengja, svo sem Jóseph hafdi útþýdt þeim.

23. En sá ædsti skeinkjarinn minntist ekki á Jóseph, heldur gleymdi honum.

## 41. Kapituli.

1.) Draumar Pharaos, verda 2.) útlagdir af Jóseph, hver ed 3.) verdur og svo upphafinn.

1.) Og tveimur árum þar eptir þá dreymdi Pharao draum, hversu hann stód hjá einu fljóti.

2. Og sjá! upp úr fljótinu komu sjø kýr feitar og fagrar, og þær gengu í gódu haglendi.

3. Eptir þær sá hann adrar sjø kýr stíga upp úr fljótinu, þær voru ljótar og magrar. Þær gengu ad þeim ødrum kúnum, sem voru á fljótsbakkanum.

4. Og þær enu ljótu og møgru kýrnar, uppátu þær sjø feitu og føgru kýr, og þá vaknadi Pharao.

5. Og hann sofnadi í annann tíma, og hann dreymdi í annad sinn, og sá, ad þar spruttu upp sjø axin á einum hálmi full og þrútin.

6. Þar eptir sá hann ønnur sjø mjó og brunnin axin upp koma.

7. Og þessi sjø møgru axin uppsvelgdu þau sjø feitu og fullu axin.

8. Þá vaknadi Pharao, og fornam ad þad var einn draumur. Og um morguninn vard hans andi hugsjúkur. Og hann sendi út, og heimti til sín alla spásagnar menn Egyptalands, og alla spekínga, og sagdi þeim sína drauma,

en þar var einginn sem þá kunni að ráða fyrir Pharaoni.

2.) 9. Þá taladi sá ypparsti Skeinkjari til Pharaonem, og sagdi: minnist eg í dag á misgjørning minn.

10. Þá Pharao vard reidur uppá sína þénara, og lét setja mig og þann ypparsta Bakara í myrkvastofu, í hofmeistarans húsi.

11. Þá dreymdi okkur báda á einni nóttu sinn draum hvern okkar, og hverjum fyrir sig gékk eptir því sem hvers draumur rédst.

12. Þar var hjá okkur eitt úngmenni ebreskt, hofmeistarans þénari, honum søgdum vid okkar drauma.

13. Og hann rédi okkur okkar drauma, hverjum eptir sínum draum, og það gékk okkur svo eptir sem hann útlagdi þá, þvíað eg er settur til míns embættis aptur, en sá annar var heingdur.

14. Þá sendi Pharao, og lét kalla á Jóseph, og þeir létu hann strax úr myrkvastofunni, og hann lét skéra sitt hár, og fór í ønnur klædi, og gékk inn fyrir Pharao.

15. Þá sagdi Pharao til hans: mig hefur dreymt einn draum, og hér er einginn sá hann kann að ráda, en eg hefi heyrt sagt um þig, að þegar þú heyrir nokkurn draum, þá kunnir þú að ráda hann.

16. Jóseph svaradi Pharaoni og sagdi: ekki er þvílíkt í a) mínu valdi, Gud mun þó spá Pharaoni góds.

a) Mínu valdi: það er að skilja, eg er ekki sá sem drauma hefur úrþýdt, edur kann að úrþýda, Gud er sá sem slíkt hefur fyrir mig gjørt, hann sami kann og það að gjøra fyrir þig. Svo géfur Jóseph Gudi dýrdina, en afsegir þó ekki sína þénustu.

17. Þá sagdi Pharao Jóseph frá: mig dreymdi, eg stædi á fljóts bakkanum.

18. Og eg sá sjø fagrar feitar kýr koma upp úr ánni, og þær geingu í haglendinu og bitu.

19. Og eptir þær sá eg sjø adrar þurrar, mjøg ljótar og magrar kýr uppkoma, eg hefi aldrei séd adrar jafnljótar í øllu Egyptalandi.

20. Og þær sjø møgru og ljótu kýr uppátu þær fyrri sjø feitu kýrnar.

21. Og þá þær høfdu upp etid þær, sá þar ekki mun á þeim, að þær hefdi etid þær, og voru ljótar líka sem fyrr. Og þá vaknadi eg.

22. Þar eptir sá eg aptur í mínum draumi að sjø ax runnu upp á einum hálmi, full og þrútin.

23. Þar eptir runnu upp sjø þurr ax, sem bædi voru þunn og svidin.

24. Og þessi sjø þunnu axin, upp átu þau sjø enu þykkvu axin. Og eg hefi sagt spásagnar-mønnum þetta, en þeir kunnu ekki að þýda mér þetta út.

25. Jóseph svaradi Pharaoni: bádir Pharaonis draumar merkja eitt, því Gud kunngjørir Pharaoni, hvað hann ætlar að gjøra.

26. Sjø kýr fagrar eru sjø ár, og þau sjø gódu axin eru og sjø ár, þessir bádir draumar hafa eina merking.

27. Þær sjø kýr magrar og ljótar, sem upp komu eptir hinar, það eru sjø ár, og þau sjø mjóu og visin ax, eru sjø hallæris ár.

28. Þetta er nú það sem eg hefi sagt Pharaoni, að Gud undirvísar Pharaoni hvað hann vill gjøra.

29. Sjá! sjø rík ár munu koma yfir allt Egyptaland.

30. En að þeim lidnum, þá munu koma ønnur sjø hallæris ár, svo að menn skulu gleyma allri þeirri nægd í Egyptalandi, og það hallærí mun upp eta landið.

31. Svo að menn skulu ei minnast þeirrar yfirfljótanlegrar árgjædsku í landinu søkum þeirrar hallæris tídar sem koma mun hér eptir, því hún verdur mjøg þúng.

32. En það Pharaonem dreymdi hid sama í ødru sinni, það hefur þá merking: að Gud vill sannarlega, og snarlega gjøra þetta.

33. Því sjái sig Pharao um, og fái til einn vísann og forsjálann mann, hvern hann kunni að setja yfir allt Egyptaland.

34. Svo að hann skikki høfudsmenn yfir landið, og taki fimmtúng allann í Egyptalandi, á þessum sjø árgjædsku árum.

35. Og samansafni allra handa vistum á þessum gódum tilkomandi árum.

36. Að þeir safni korni í Pharaonis kornhlødur, og geymi það til forda í stødunum, svo

menn megi finna forsorgadar fædslur fyrir landid á þeim sjø hallæris árum, sem koma munu yfir Egyptaland, svo ad landid fordjarfist ekki af húngri.

3.) 37. Þessi ræda líkadi Pharaoni, og øllum hans þénurum.

38. Og Pharao sagdi til sinna þénara: hvar munum vér finna einn þvílíkann mann, í hverjum Guds Andi er?

39. Og hann sagdi til Jósephs: af því ad Gud hefur kunngjørt þér allt þetta, þá er þar enginn svo hygginn og forsjáll sem þú ert.

40. Þú skalt vera yfir-settur yfir mitt hús, og allur minn lýdur skal hlýda þínum ordum, Kóngs hásæti einu skal eg þér ædri vera.

41. Og enn framar sagdi Pharao til Jósephs: sjá! eg hefi sett þig yfir allt Egyptaland.

42. Og hann tók b) hríng af hendi sér, og gaf hann Jóseph á hans hønd, og klæddi hann med hvítum silkiklædum, og heingdi eina gullkédju um hans háls.

b) Fíngurgull.

43. Og hann lét aka honum í sínum ødrum vagni, og lét úthrópa fyrir honum: hann er landsins fadir! Og setti hann yfir allt Egyptaland.

44. Og Pharao sagdi til Jósephs: eg er Pharao, án þíns vilja skal enginn hræra hønd sína eda fót í øllu Egyptalandi.

45. Og Pharao kalladi hann þad leynda rádid. Og hann gaf honum Asnath til eginnarkvinnu, sem var dóttir Potiphars kénnimanns í On. Svo reisti Jóseph út, ad skoda Egyptaland. *

(Jóseph var 30 ára þá hann vard høfdíngi Egyptalands, og hafdi þá verid 13 ár í sinni útlegd og fángelsi).

46. Og hann var þrjátígir ára gamall, þá hann stód fyrir Pharaoni, Kónginum af Egyptalandi, og hann gékk út frá Pharao, og reisti í gégnum allt Egyptaland.

47. Og landid leiddi af sér yfirfljótanlega gnægd ávaxtar um þau sjø velti-ár.

48. Og hann safnadi saman á þeim sjø árum allsh____ttudum fædslum, sem voru á Egyptalandi, og lagdi þær inn í stadina, allt þad sem vóx á økrunum í kríngum hvern stad, til fædslu, þad allt saman lét hann inn láta.

49. Og í svoddan máta safnadi Jóseph ómælanlega miklu korni til samans, svo sem sand med sjáfarstrøndu, svo hann lét af ad telja þad, því þad kunni ekki ad reiknast.

50. Og Jóseph átti tvo sonu, ádur enn hallærid kom, hverja ed Asnath, dóttir Potiphars kénnimannsins í On, fæddi honum.

51. Og hann nefndi þann fyrra Manasse, því Gud (sagdi hann) hefur látid mig gleyma øllum mínum mótgángi, og øllu míns fødurs húsi.

52. Þann annann nefndi hann Ephraim, c), því Gud (sagdi hann) hefud látid mig vaxa í þessu landi þar eg var fátækur.

c) Manasse þýdist gleymt; Ephraim uppvaxinn.

53. Og sem þau sjø frjófgunar ár voru umlidin í Egyptalandi.

54. Þá tóku þau sjø hallæris árin ad koma, þau sem Jóseph hafdi talad um. Og þar vard hallæri í øllum løndum, en í øllu Egyptalandi var braud.

55. En sem ad þar kom, ad alls Egyptalands innbyggjarar tóku ad lída húngur, þá hrópadi fólkid til Pharaonis um braud. En Pharao sagdi til allra Egyptskra: farid til Jósephs, og hvad hann segir ydur, þad gjørid.

56. Sem nú hallærid var í øllu landinu, þá upplauk Jóseph allstadar kornhlødum, og seldi þeim Egyptsku, því ad þess lengur sem hallærid var, þess þýngra var þad í landinu.

57. Og øll lønd komu í Egyptaland, ad kaupa af Jóseph, því mjøg megnt húngur var í øllum løndum.

## 42. Kapítuli.

Synir Jakobs ferdast til Egyptalands, ad fráteknum Benjamín.

Nú sem Jakob sá ad korn var til kaups í Egyptalandi, þá sagdi hann til sona sinna: því horfid þér svo lengi á þetta? sjáid!

2. Eg hefi heyrt sagt: ad korn sé til kaups í Egyptalandi, þar fyrir farid ofan þángad, og kaupid oss korn, svo vér megum lifa og deya ekki.

3. Þá fóru tíu Jósephs brædur ofan til Egyptalands, ad kaupa korn.

4. En Jakob lét ekki Benjamin, Jósephs bródur, fara med sínum brædrum, því ad hann sagdi: máské ad hann megi saka nokkud.

5. Og Israels synir komu ad kaupa korn, med þeim ødrum sem ad fóru med þeim, því ad þar var hallæri í Canaans landi.

6. En Jóseph var stjórnari í landinu, og hann seldi kornid øllum mønnum landsins. Og sem hans brædur komu nú til hans, féllu þeir nidur til jardar fyrir honum, á sínar ásjónur.

7. Og hann sá uppá þá og þekkti þá, en hann lét sem hann þekkti þá ekki, og mælti hardlega vid þá, og sagdi til þeirra: hvadan erud þér adkomnir? Þeir svørudu: af Canaans landi, ad kaupa oss fædslur.

8. En þó hann þekkti þá, þá þekktu þeir hann ekki ad heldur.

9. Jóseph minntist þá á draumana sem hann hafdi ádur til forna dreymt um þá, og sagdi til þeirra: þér munud vera njósnarmenn, komnir til þess ad sjá hvar landid er a) opid.

a) Veikt.

10. Þeir svørudu honum: eigi er svo, minn herra! þínir þénarar eru híngad komnir ad kaupa fædslur.

11. Vér erum allir eins manns synir, vér erum ærlegir, og þínir þénarar hafa aldrei verid njósnarmenn.

12. Hann sagdi þá til þeirra: nei, heldur munud þér komnir ad skygnast um hvar landid er opid.

13. Þeir svørudu honum: vér þínir þjónar erum tólf brædur, eins manns synir, í Canaanslandi, og sá hinn yngsti er nú heima hjá vorum fødur, en sá einn er ekki til.

14. Jóseph sagdi til þeirra: þetta er þad sem eg hefi sagt: þér erud njósnar-menn.

15. Þar uppá vil eg reyna ydur, svo sannarlega sem Pharao lifir, þér skulud ekki á burt fara hédan, fyrr enn ydar yngsti bródir kémur híngad.

16. Sendid einn af ydur ad sækja ydar bródur. En þér skulud vera í fjøtrum, svo vil eg reyna ydar sagnir, hvert þér segid satt edur ei. Annars erud þér svo sannarlega sem Kóng Pharao lifir, njósnarmenn.

17. Svo lét hann halda vørd yfir þeim til samans í þrjá daga.

18. En á þeim þridja degi sagdi hann til þeirra: ef viljid þér halda ydar lífi, þá gjørid svo sem eg segi, því ad eg óttumst Gud.

19. Ef þér erud frómir, þá liggi einn af ydar brædrum bundinn í ydar fángelsi, en þér farid heim og flytjid heim þad sem þér hafid keypt ydar húngurs vegna.

20. Og hafid híngad ydar yngsta bródir til mín, þá vil eg trúa ydrum ordum, svo þér skulud ekki deya, og þeir gjørdu svo.

21. Og þeir tøludust vid sín á milli, þetta høfum vér forþénad á bródur vorum, sjáandi ángist hans andar, þá hann grátbændi oss, og vér vildum ekki heyra hann, og þar fyrir kémur nú þessi hørmúng yfir oss.

22. Ruben svaradi þeim og sagdi: hvert sagdi eg ydur ekki þetta? þá eg sagdi: syndgist ekki á sveininum, en þér vildud ekki hlýda mér? nú útheimtist hans blód.

23. En þeir vissu ekki ad Jóseph skildi þad, því hann taladi vid þá fyrir einn túlk.

24. Og hann snéri sér frá þeim og grét. En sem hann snéri sér nú til þeirra aptur, og taladi vid þá, þá tók hann af þeim Simeon, og batt hann fyrir þeirra augum.

25. Og Jóseph baud ad fylla skyldi sekki þeirra med korn, og láta í sekki þeirra aptur sérhvers þeirra peninga, þar med og nesti uppá veginn, og svo gjørdu þeir vid þá.

26. Og þeir løgdu sína vøru uppá sína asna, og fóru í burt þadan.

27. En sem einn þeirra leysti til síns sekks, og vildi gefa sínum asna fódur í herberginu, þá fann hann sína peninga, ad þeir láu ofan á í sekknum.

28. Og hann sagdi til sinna brædra: mínir peníngar eru komnir til mín aptur, sjá! þeir eru hér í mínum sekk. Þá féll þeim hugur, og þeir urdu felms-fullir innbyrdis og søgdu: hverju mun þad sæta, ad Gud hefur gjørt oss þetta?

29. En sem þeir komu nú heim til síns fødurs Jakobs, í þad landid Canaan, kunngjørdu þeir honum allt þad sem yfir þá hafdi gengid, og søgdu:

30. Sá madur sem er herra í því landi, hann taladi hardlega til vor, og hélt oss fyrir landsins njósnara.

31. En þá vér svorudum honum: vér erum ærlegir og vorum aldrei njósnarar.

32. Heldur erum vér tólf brædur vors fødurs synir, og sá einn er ekki meir til, en sá yngsti er enn nú heima hjá vorum fødur í Canaans landi.

33. Þá sagdi landsherrann til vor: þar af vil eg merkja hvert þér erud frómir edur ei, látid einn af ydrum brædrum vera hér eptir hjá mér, en þér takid þad sem þorf gjørist handa ydar húsum og farid af stad.

34. Og hafid svo ydarn yngsta bródur til mín híngad, þad merki eg, ad þér erud ekki njósnarmenn, heldur ærlegir, þá vil eg géfa ydur ydar bródur aptur, og skulud þér mega kaupslaga hér í landi.

35. En sem þeir helltu korninu úr sínum sekkjum, þá fann hver um sig sinn peninga knytilskauta í sínum sekk. Og sem þeir sáu, ad þad voru þeirra peninga knytilskautar, þá urdu þeir felms = fullir, og svo þeirra fadir.

36. Þá sagdi Jakob þeirra fadir til þeirra: þér rænid mig mínum børnum. Jóseph er ekki á døgum, og Simeon er í burtu, Benjamin viljid þér í burt taka, og allt þetta kémur yfir mig.

37. Ruben svaradi sínum fødur og sagdi: ef eg færi þér hann ekki aptur, þá slá þú báda mína sonu í hel, sel þú hann ekki utan í mína hønd, eg vil færa þér hann aptur.

38. Hann sagdi: minn son skal ekki fara ofan þángad med ydur, því hans bródir er andadur, og hann er einn eptir ordinn, ef honum félli nokkur ólukka til á veginum þeim þér farid, þá munud þér leida mínar hærur med hjartans sorg í grøfina.

## 43. Kapítuli.

Synir Jakobs ferdast til Egyptalands og med þeim Benjamin.

Nú sem hallæris tídin þreyngdi þeim fast í landinu.

2. Og er því korni var lokid sem þeir høfdu flutt af Egyptalandi, þá sagdi þeirra fadir til þeirra: farid aptur þángad, og kaupid oss nokkrar fædslur.

3. Þá svaradi Juda honum og sagdi: sá madur lagdi þad streingilega fyrir oss og sagdi: þér skulud ekki sjá mitt andlit, nema því ad eins, ad ydar bródir sé med ydur.

4. Sé þad nú svo, ad þú sendir vorn bródir med oss, þá viljum vér ferdast þángad, og kaupa þér atvinnu.

5. En viljir þú ekki senda hann med oss, þá førum vér ekki ofan þángad, því ad sá madur sagdi til vor: þér skulud ekki sjá mína ásjónu, nema því ad eins, ad ydar bródir sé med ydur.

6. Israel svaradi: hvar fyrir hafid þér gjørt svo illa vid mig, ad þér søgdud honum ad þér ættud enn nú einn bródir?

7. Þeir svørudu: sá madur spurdi oss svo nákvæmlega ad oss og vorri ætt, og sagdi: lifir ydar fadir enn nú? edur egid þér enn nú einn bródur til? þá svørudum vér honum eptir því sem hann oss adspurdi. Eda hverninn mátti oss þad í hug koma, ad hann mundi segja: færir ydarn bródur ofan híngad med ydur?

8. Þá sagdi Juda til Israels síns fødurs: láttu sveininn fara med mér, svo vér megum búa oss til og ferdast, og lifum, og deyum ekki, bædi vér og þú, og vor smábørn.

9. Eg vil vera í borgun fyrir hann, þú skalt krefja hans af mínum høndum. Og ef eg færi þér hann ei aptur, og set hann fyrir þín augu, þá vil eg bera þá skuld alla mína daga.

10. Því hefdum vér ekki tafid, þá værum vér allareidu tvær reisur aptur komnir.

11. Þá sagdi þeirra fadir Israel til þeirra: fyrst þad hlýtur svo ad vera, þá gjørid þad, og takid af þeim besta ávexti landsins í ydar sekki, og færid þeim manni gjafir ofan þángad, nokkud af balsamo, hunángi, og jurtum, og myrrhu, og Dattel, og Mandel.

12. Takid og adra peninga med ydur, og þá peninga sem komnir voru efst ofan á ydar

sekki, hafið aptur með ydur, ské má að villast hafi mátt um.

13. Takið og hér til ydarn bródur, takið ydur upp og farið aptur til þessa manns.

14. En Guð almáttugur géfi ydur miskunsemi fyrir þeim manni, svo hann láti koma þann annann ydarn bródur, og þennann Benjamín, aptur heim með ydur, en eg hlýt nú að vera, svo sem sá að ræntur er sínum börnum.

15. Svo tóku þeir þessar gáfur, og tvöfalda penínga með sér, og Benjamin, tóku sig upp, og fóru í Egyptaland, og gengu fyrir Jóseph.

16. Þá leit Jóseph þá, ásamt með Benjamin, og sagði til síns ráðsmanns: fylg þessum mönnum til herbergis, slátra og reið til, því þeir skulu eta með mér middagsverd.

17. Og madurinn gjörði sem að Jóseph befaladi honum, og fylgdi mönnunum í Jósephs hús.

18. En þeir óttuðust, fyrir því, að þeir voru leiddir inn í Jósephs hús, og sögðu: vér erum látnir hér inn fyrir sökum þeirra penínga sem vér fundum áður í vorum sekkjum, svo að hann beri það að oss, og láti síðan einn dóm gánga yfir oss, svo hann kunni með þessu að taka oss til þræla, með vorum ösnum.

19. Þar fyrir gengu þeir til Jósephs ráðsmanns, og töluðu við hann, fyrir dyrum úti, og sögðu:

20. Minn herra! vér fórum fyrri ofan híngað, að kaupa fædslur.

21. Og þá vér komum til herbergis, og leystum til vorra sekkja, sjá! þá fann hver einn sína penínga, ofan á í sínum sekk, með fullri vigt, og því höfum vér fært þá híngað með oss aptur.

22. Vér höfum og tekið aðra penínga með oss, að kaupa oss fædslur fyrir, en vér vitum ekki, hver lagt mun hafa vora penínga aptur í vora sekki.

23. Þá sagði hann: verið til friðs, óttist ekki, ydar Guð, og ydra fedra Guð, hefur géfið ydur féssjóð í ydra sekki, eg medtók ydra penínga. Og hann leiddi Simeon út til þeirra.

24. Og leiddi þá í Jósephs hús, og gaf þeim vatn, að þvo sínar fætur, svo gaf hann og þeirra ösnum fóður.

25. En þeir tilreiddu sínar gjafir, í móti því, að Jóseph mundi koma um middaginn, því þeir höfðu heyrt, að þeir skyldu fá þar matar.

26. En sem Jóseph gékk nú inn í húsið, báru þeir honum þeirra gáfur í sínum höndum, og féllu niður til jarðar fyrir honum.

27. En hann heilsaði þeim blídlega og sagði: hversu má sá gamli maður, ydar faðir, af hverjum þér sögðuð mér, lifir hann enn nú?

28. Þeir svöruðu: vel má þinn þénari, vor faðir, og hann lifir enn nú. Og þeir lutu og féllu niður fyrir honum.

29. Þá upplypti hann sínum augum, og sá sinn bródur Benjamín, sinnar móður son, og sagði: hvert er það ydar ýngsti bróðir, sá er þér sögðuð mér frá? Og hann sagði frammvegis: Guð miskuni þér minn son.

30. Og Jóseph flýtti sér, því hans hjarta brann af ást til síns bródurs, og hann leitaði eptir hvar hann kynni að gráta, og hann gékk inn í sitt svefnhús, og grét þar.

31. Og sem hann hafði þveigið sitt andlit, gékk hann út, og lét ekki á sér sjá, og sagði: leggið brauð á borðið.

32. Svo báru þénararnir sérílagi fyrir hann og sérílagi fyrir hans brædur, og sérílagi fyrir þá Egyptsku, sem átu með honum, því að ekki kunna Egyptskir að eta með Ebreskum, því það er þeim svívirdulegt.

33. Og þeir voru settir þvert yfir frá honum, sá frumgétni eptir sinni frumgétníngu, og sá hinn ýngsti eptir sínum únga aldri, það undruðust þeir sín í milli.

34. Og matur var settur af hans borði til þeirra, en Benjamín fékk fimmsinnum meira enn hinir aðrir. Og þeir drukku og urðu drukknir með honum.

## 44. Kapituli.

1.) Brædur Jósephs gjörast mjög sorgbitnir; en 2.) Júda talar við Jóseph.

1.) Jóseph bauð sínum ráðsmanni, og sagði:

fyll þú þessara manna sekki með fædslur, svo mikið sem þeir kunna að bera, og legg peninga sérhvers þeirra efst í hvers sekk.

2. Og legg mitt silfurkér efst í þess yngsta sekk, með þeim peningum sem komu fyrir kornið. Hann gjørði sem Jóseph tilsagði honum.

3. Um morguninn, þá ljóst var orðið, létu þeir mennina fara af stað með sínum ösnum.

4. Og er þeir voru skammt burt farnir af staðnum, þá sagði Jóseph til síns ráðsmanns: rís upp! og far eptir þessum mønnum, og þá þú fær þá høndlað, þá seig til þeirra: hvar fyrir hafið þér betalað illt fyrir gott?

5. Er það ekki það sem minn Herra drekkur af, og hvert hann hefur til síns spádóms? þér hafið vondslega gjørt.

6. Og þá hann hafði høndlað þá, þá talaði hann þessi orð við þá.

7. Þeir svørudu honum: því mælir minn herra svoddan orð? fjarlægt sé það þínum þénurum að gjøra slíkt.

8. Sjá! þá peninga sem vér fundum efst í vorum sekkjum, færdum vér þér híngað aptur úr Canaanslandi, og hvernin skyldum vér þá nú stela annaðhvert silfri eða gulli úr þíns Herra húsi?

9. Hjá hverjum sem það finnst, á meðal þinna þénara, hann skal deya, þar til viljum vér og svo vera míns Herra þjónar.

10. Hann sagði: já, það sé svo sem þér hafið mælt, hjá hverjum sem það finnst, hann skal vera minn þræll, en þér skulud vera frí.

11. Þá hrøðuðu þeir sér, og tók hver ofan sínar klyfjar, og løgðu á jørð, og hver einn leysti til síns sekks.

12. Og hann ransakaði, og hóf upp hjá þeim elsta, og til hins yngsta, þá fannst bordkérið í sekk Benjamíns.

13. Þá rifu þeir sín klæði, og sérhver lagði uppá sinn asna, og fóru í borgina aptur.

2.) 14. Og Júda gékk með sínum bræðrum í Jósephs hús, því að hann var þar þá enn. Og þeir féllu framm fyrir honum niður á jørðu.

15. Þá sagði Jóseph til þeirra: því þorðuð þér að gjøra þetta? Vitið þér ekki, að þvílíkur maður sem eg er, kann vissulega uppfýst að gjøra?

16. Júda sagði: hvað skulum vér segja mínum Herra, eða hvað skulum vér tala? eða hvernin kunnum vér að afsaka oss? Guð hefur fundið ránglæti þinna þénara. Sjá! vér og hann sem bordkérið fannst hjá erum míns Herra þjónar.

17. Hann sagði: það sé lángt frá mér að gjøra það. Sá maður hjá hverjum kérið fannst hann skal vera minn þjón. En farið þér í friði upp til yðars føðurs.

18. Þá gékk Júda fram að honum, og sagði: minn Herra! leyf þínum þénara að tala eitt orð fyrir þínum eyrum.

19. Minn Herra! og að þín reiði gremjist ekki yfir þínum þénara, því þú ert sem sjálfur Pharao. Minn Herra spurði sína þénara að, og sagði: hafið þér og einn føður eða bróður?

20. Þá svørudum vér: vér høfum einn gamlann føður, og einn úngann svein, sem hann gat í sinni elli, en hans bróðir er látinn, og þessi er einn eptir, eptir sína móður, og hans faðir elskar hann.

21. Þá sagðir þú til þinna þénara: færið hann híngað ofan til mín, eg vil auðsýna honum náð.

22. Þá svørudum vér mínum Herra: sveinninn má ekki koma frá sínum føður, en ef hann fer frá honum, þá deyr hann.

23. Þá sagðir þú til þinna þénara: komi ekki yðar yngsti bróðir híngað með yður, þá skulud þér ekki sjá mitt andlit framarmeir.

24. Þá fórum vér af stað, upp til þíns þénara míns føðurs, og kunngjørðum honum míns Herra orð.

25. Þá sagði vor faðir: ferðist af stað aptur, og kaupið oss fædslur nokkrar.

26. Þá svørudum vér: ekki kunnum vér að fara ofan þángað, nema því að eins, að vor yngsti bróðir sé með oss, þá viljum vér fara ofan þángað, því vér þorum ekki að sjá þess manns andlit, ef vor yngsti bróðir er ekki með oss.

27. Þá sagði þinn þénari, minn faðir, til vor: þér vitið að mín kvinna hefur fædt mér tvo.

28. Annar þeirra fór heiman frá mér, og

segja menn ad hann hafi verid rifinn í hel, og síðan hef eg ei sjed hann.

29. Og ef þér takid nú þennann og svo frá mér, og kémur honum nokkur ólukka til, þá munud þér leida mínar hærur nidur í grøfina med harmi.

30. Nú ef eg kém heim til þíns þénara, míns fødurs, og sveinninn er ekki med oss, fyrir því, ad hans sál hángir vid sveinsins sál.

31. Þá mun svo fara, nær hann sjer, ad sveinninn er ekki þar, þá mun hann deya, svo færdum vér þá, þínir þénarar, hærur vors fødurs, þíns þénara, med hjartans sorg í grøfina.

32. Því ad eg, þinn þénari, er í borgun fyrir sveininn, vid minn fødur, og eg sagda: ef eg færi hann þér ekki aptur, þá vil eg sekur vera alla mína daga.

33. Lát nú þar fyrir þinn þénara vera eptir í sveinsins stad, ad þjóna mínum Herra, og lát sveininn fara upp med sínum brædrum.

34. Því ad hvernin gjæti eg farid, upp til míns fødurs, ef ad sveinninn er ekki med mér? eg hlyti þá ad sjá uppá þá hørmúng sem koma mundi yfir minn fødur.

## 45. Kapítuli.

Jóseph auglýsir sig fyrir brædrum sínum.

Þá gat Jóseph ekki haldid sér lengur fyrir øllum þeim sem stódu í kríngum hann, og hann kalladi: Látid hvern mann fara út frá mér! og þar stód ekki einn madur eptir hjá honum, þá Jóseph lét sína brædur þekkja sig.

2. Og hann grét med hárri røddu, svo þad heyrdu Egyptskir, og þeir í Pharaonis húsi.

3. Og hann sagdi til sinna brædra: eg er Jóseph, lifir minn fadir enn nú? En hans brædur máttu engu svara honum, svo hræddir voru þeir ordnir fyrir hans augliti.

4. Þá sagdi hann til sinna brædra: komid híngad til mín! og er þeir gengu til hans, þá sagdi hann: eg er Jóseph ydar bródir, hvern þér seldud í Egyptaland.

5. Verid ekki umsorgandi, og hugsid ekki ad eg sé þar fyrir reidur, ad þér seldud mig híngad, því ad ydur til lífs-hjálpar hefur Gud sendt mig híngad fyrir ydur.

6. Því ad tvø ár eru síðan þetta hallæri kom í landid, og þar eru enn nú eptir fimm ár, á hverjum menn skulu hverki plægja né haustyrkju inn-safna.

7. En Gud hefur sendt mig híngad undan ydur, ad hann vill láta ydur haldast vid á jørdunni, og frelsa ydvart líf med stórri frelsan.

8. Og eigi hafid þér sendt mig híngad, heldur Gud, hann hefur sett mig fødur Pharaonis, og einn Herra yfir allt hans hús, og einn høfdíngja yfir allt Egyptaland.

9. Flýtid ydur nú, og farid upp til míns fødurs og segid honum, þetta segir Jóseph þinn son: Gud hefur sett mig til høfdíngja yfir allt Egyptaland, kom ofan til mín, tef þú ekki.

10. Þú skalt búa í landinu Gosen, og vera nærri mér, þú og þín børn, og þín barnabørn, þitt kvikfé smátt og stórt, og allt þad þú hefur.

11. Þar vil eg forsorga þig, því þar standa enn nú fimm hallæris ár eptir, svo ad þú ekki fordjarfist, med þínu húsi, og øllu því þú hefur.

12. Sjáid! ydar augu sjá þad, og míns bródurs Benjamíns augu, ad eg tala munnlega vid ydur.

13. Kunngjørid mínum fødur alla mína vegsemd í Egyptalandi, og allt þad sem þér hafid sjed, farid skyndilega, og komid ofan híngad med mínum fødur.

14. Og hann féll um háls sínum bródur Benjamín, og grét, og Benjamín grét og svo um hans háls.

15. Og hann mynntist vid alla sína brædur, og grét yfir þeim. Eptir þetta tøludu hans brædur vid hann.

16. Þessi tídindi komu í Pharaonis hús, ad Jósephs brædur voru komnir, þad líkadi Pharaoni vel, og øllum hans þénurum.

17. Og Pharao sagdi til Jósephs: seig þú þínum brædrum, gjørid svo, klyfjid ydar dýr, og farid af stad; nær þér komid í Canaansland,

18. Þá takid ydar fødur, og ydart fólk, og komid til mín, eg vil géfa ydur gots í Egyptalandi, ad þér skulud eta merg landsins. Og bjód þeim, gjørid svo.

19. Takid ydur vagna af Egyptalandi, handa ydar børnum og konum, og takid ydarn fødur og komid.

20. Og lítid ekki vid vegna ydar búsbúhluta, a) því audæfi alls Egyptalands skulu vera ydar.

a) Búsbúhluta: Látid ydar búhluti ekki hindra ydur, hvad þér kunnid ekki ad selja í þessu hallæri, þad látid blífa eptir.

21. Og Israels børn gjørdu svo. Og Jóseph fékk þeim vagna, sem Pharao baud, og svo nesti á veginn.

22. Hann gaf og hverjum þeirra einn hátída klædnad. En Benjamin gaf hann þrjú hundrud silfurpenínga, og fimm helgra daga klædi.

23. Og hann sendi sínum fødur þar med tíu asna klifjada med góts af Egyptalandi, og tíu øsnur klifjadar af korni, braudi og vistum handa sínum fødur á veginn.

24. Svo sleppti hann sínum brædrum, og þeir fóru í burtu. Og hann sagdi til þeirra: deilid ekki á veginum.

25. Þeir fóru af Egyptalandi, og komu í Canaanslandi, til síns fødurs Jakobs.

26. Kunngjørdu honum, og søgdu: Jóseph lifir enn nú, og er einn herra yfir øllu Egyptalandi; en hans hjarta hugsadi allt annad, því hann trúdi þeim ekki.

27. Þá søgdu þeir honum øll Jósephs ord, sem hann hafdi sagt til þeirra. Og sem hann sá þá vagna sem Jóseph hafdi sendt honum til flutníngs þángad, þá lifnadi ønd fødurs þeirra Jakobs.

28. Og Israel sagdi: þad er mér nóg ad minn son Jóseph lifir enn nú, eg vil fara og sjá hann, ádur enn eg andast.

## 46. Kapítuli.

Jakob ferdast til sonar síns Jósephs í Egyptalandi.

Israel * fór í burt med øllu því hann átti. Og sem hann kom til Bersaba offradi hann síns fødurs Isaaks Gudi fórnir. * Gb: Post. 7, 15.

2. Og Gud sagdi til hans um nótt, í einni sýn: Jakob! Jakob! hann svaradi: hér er eg.

3. Og hann sagdi: eg er Gud, þíns fødurs Gud, óttast þú ekki ad fara ofan í Egyptaland, því ad þar vil eg gjøra þig ad einni mikilli þjód.

4. Eg vil fara ofan med þér í Egyptaland, og eg vil leida þig upp aptur híngad, og Jóseph skal leggja sínar hendur yfir þín augu.

5. Jakob tók sig upp frá Bersaba, og Israelis synir fluttu þeirra fødur Jakob, med sínum smábørnum og kvinnum, í vøgnum þeim sem Pharao hafdi sendt, ad flytja þá á.

6. Og þeir tóku sitt kvikfé, og alla þá fjárhluti sem þeim hafdi áskotnast í Canaanslandi, og komu í Egyptaland, Jakob og allt hans sædi med honum.

7. Hans synir og hans sonarsynir med honum, hans dætur og hans barna dætur, og allt hans sædi flutti hann med sér til Egyptalands.

8. Þessi eru Israels barna nøfn, sem komu í Egyptaland: Jakob og hans synir. Ruben Jakobs frumgétinn son.

9. Rubens børn, Hanoch, Pallu, Hezron, og Charmi.

10. Simeons børn, Jemuel, Jamin, Ohad, Jachin, Zohar og Saul, sonur þeirrar Canversku kvinnu.

11. Levi børn, Gerson, Cahath, og Merari.

12. Juda børn, Ger, Onan, Sela, Perez, og Serah. En Ger og Onan deydu í landi Canaan. En Perez børn, Hezron og Hamul.

13. Isaschar børn, Thola, Phua, Job og Semron.

14. Sebulons børn, Sered, Elon, og Jahleel.

15. Þessi eru børn komin af Lea, sem hún fæddi Jakob í Mesopotamia med sinni dóttur Dina, þessar allar sálir voru ad tølu þrátíu og þrír med sonum og dætrum.

16. Børn Gads, Ziphion, Haggi, Suni, Ezbon, Eri, Arodi og Areli.

17. Børn Asser, Jemna, Jesua, Jesui, Briah, og Sera þeirra systir. En børn Briah, Heber og Malchiel.

18. Þessi eru þau børn Silpa, sem Laban gaf sinni dóttur Lea, og hún fæddi Jakob þessar sextán sálir.

19. Børn Rachelar Jakobs kvinnu, Jóseph og Benjamín.

20. Og Jósepþ gat í Egyptalandi Manaßse og Ephraim, sem Aſnath Potiphars dóttir kénnimaunsins í On, fæddi honum.

21. Benjamíns børn, Bela, Becher, Asbel, Gera, Naaman, Ehi, Ros, Mupim, Hupim og Ard.

22. Þeßi eru þau børn af Rachel sem hún fæddi Jakob, allir saman fjórtán sálir.

23. Børn Dan, Husim.

24. Børn Nephtahli, Jahzeel, Guni, Jesser og Sillem.

25. Þeßi eru børn komin af Bilha, sem Laban gaf sinni dóttur Rachel, og hún fæddi Jakob þeßar sjø sálir.

26. Allar sálir sem komu med Jakob í Egyptaland, og komnar voru af hans lendum (ad undanteknum hans sonarkonum) eru allar saman sex og sextíu sálir.

27. En Jósephs synir sem fæddir eru í Egyptalandi, eru tvær sálir. Svo ad allar sálir sem komu í Egyptaland, af Jakobs húsi, voru sjøtíu.

28. Og hann sendi Juda undan sér til fundar vid Jóseph, ad hann vísadi sér til Gosen, og þeir komu inn í landid Gosen.

29. Þá lét Jóseph spanna fyrir sinn vagn, og dró til fundar vid fødur sinn Israel, upp til Gosen, og sem hann sá hann, féll hann um hans háls, og grét lengi um hans háls.

30. Þá sagdi Israel til Jósephs: gjarnan vil eg nú deya, fyrst þad eg hefi sjed þitt andlit, ad þú enn nú lifir.

31. Jóseph sagdi til sinna brædra, og til síns fødurs húss: eg vil fara upp, kunngjøra Pharaoni, og segja til hans: Mínir brædur, og mitt fødur-hús er komid til mín af landi Canaan.

32. Og eru fjárhyrdarar, því þeir eru menn, sem umgengist hafa med fé, þeirra kvikfé smátt og stórt, og allt þad þeir eiga, hafa þeir haft híngad med sér.

33. Þá Pharao kallar ydur nú fyrir sig og segir: hvad er ydar ydja, af hverri þér ærid ydur?

34. Þá skulud þér segja: þínir þénarar eru þeir menn sem umgángast med kvikfé, frá vorum úngdómi allt til þeßa, bædi vér og vorir forfedur, svo þér megid búa í landi Gosen. Þvíad þeir egyptsku hafa andstygd á øllum fjárhyrdurum.

## 47. Kapituli.

1.) Jakob býr í landinu Gosen; 2.) J Egyptalandi er mikil dýrtíd. 3.) Jakob vill ekki láta jarda sig í Egyptalandi.

1.) Þá kom Jóseph, og taladi vid Pharaonem, og sagdi: minn fadir og mínir brædur, þeirra kvikfé smátt og stórt, og allt þad þeir eiga er komid af Canaanslandi, og sjá! þeir eru í landi Gosen.

2. Og hann tók fimm af sínum yngstum brædrum, og skikkadi þá inn fyrir Pharaonem.

3. Þá taladi Pharao til hans brædra: hver er ydar næringar-ydja? þeir svørudu: þínir þénarar eru fjárhyrdarar, vér og vorir forfedur.

4. Og søgdu framvegis til Pharao: vér erum komnir til ad búa hjá ydur hér í landi, því þínir þénarar hafa aungva fædu til síns kvikfénadar, svo stórlega þreingir hallæri Canaans land. Þar fyrir leyf nú þínum þénurum ad búa í landi Gosen.

5. Pharao sagdi til Jósephs: þad er þinn fadir og þínir brædur sem eru komnir til þín.

6. Egyptaland stendur opid fyrir þér, lát þá búa í því besta plátsi landsins, a) búi þeir í landi Gosen. Og ef þú veitst nokkra dugnadar menn vera á medal þeirra, þá set þá yfir mínar hjardir.

a) Búi: veri géstir og inntokumenn, framandi en ekki innbyggendur, edur heimilis menn í veroldunni.

7. Jóseph leiddi og svo sinn fødur Jakob til fundar vid Pharaonem, og skikkadi hann framm fyrir hann. Og Jakob bleßadi Pharaonem.

8. En Pharao spurdi Jakob ad: hvad gamall ert þú?

(Jakob er 130 ára gamall þá hann kémur í Egyptaland, og hefur þeßi reisa til Egyptalands skéd 215 árum eptir þad Abraham var kalladur burt frá Haran.)

9. Jakob sagdi til Pharaonem: minn útlendíngskapar-tími er hundrad og þrjátíu ár, fáir og illir eru mínir lífdagar, og ná ekki tíma minna forfedra, í þeirra útlendíngskap.

10. Og Jakob blessadi Pharaonem, og gékk út frá honum.

11. En Jóseph skikkadi sínum fødur og sínum brædrum bústadi, og gaf þeim eignir í Egyptalandi, þar bestir voru landskostir, sem var í landi Rameses, svo sem Pharaó hafdi bodid.

12. Og Jóseph forsorgadi sinn fødur, og sína brædur, og allt sitt fødurs hús, sérhvern eptir því sem hann hafdi børn til.

2.) 13. En þar var ekkért braud í øllum løndum, því ad hallærid var mjøg þúngt, svo ad Egyptaland og Canaan vanmegnadist af því hallæri.

14. Og Jóseph safnadi øllum peníngum til samans sem fundust í Egyptalandi og Canaan, fyrir þad korn sem þeir keyptu, og hann lét þá alla penínga í Pharaónis hús.

15. Nú sem þá þraut penínga í Egyptalandi og Canaan, þá komu allir Egyptskir til Jósephs, og søgdu: géf oss braud, því lætur þú oss deya fyrir þér, þó ad vér høfum ei penínga?

16. Jóseph svaradi: hafid híngad ydar kvikfé, svo vil eg géfa ydur fyrir kvikféd, fyrst ad þér hafid ekki til penínga.

17. Svo færdu þeir Jóseph sitt kvikfé. Og hann gaf þeim korn fyrir þeirra hesta, saudi, uxa og asna. Svo hjálpadi hann þeim med braud, þad ár í gégnum fyrir allt þeirra kvikfé.

18. En sem þad árid var úti, komu þeir þad annad ár til hans og søgdu honum: vér viljum ekki dylja þess fyrir herra vorum, ad ei alleinasta peníngar heldur og svo kvikféd er í burt, og komid til vors herra, og vér høfum ekki meira eptir, handa vorum herra, utan vora líkami og vorar jardir.

19. Því lætur þú oss deya, og vora akra verda í eydi? kaup þú oss og vorar jardir fyrir braud, ad vér med voru lífi og jarda gótsi, verdum Pharaónis eign, géf oss sædi, svo vér meigum lifa og ekki deya, og ad akrarnir ekki eydist.

20. Svo keypti Jóseph allt Egyptaland, til handa Pharaóni, því þeir Egyptsku seldu hver sínar jardir, því ad húngrid lá svo stridt á þeim, og med þessu vard landid Pharaonis eign.

21. Og hann útskipti fólkinu um borgirnar, frá þeim einum Egyptalands enda til annars.

22. Ad undanteknum prestanna jørdum, þær keypti hann ekki, því ad Pharaó hafdi skikkad prestunum, hvar af þeir skyldu næra sig, og var ánafnad þad sem hann hafdi géfid þeim, þar fyrir þurftu þeir ekki ad selja sínar jardir.

23. Þá sagdi Jóseph til fólksins: sjá! eg hefi í dag keypt ydur og ydar akra, Pharaóni til eignar.

24. Sjá! þar hafid þér korn til ad sá jørdina. En af korninu skulud þér géfa Pharaóni fimmtúng, þeir fjórir hlutir skulu vera ydar, til sáds og fædslu, fyrir ydar hús og børn.

25. Þeir søgdu: lát oss ad eins lifa, og finna nád fyrir þér vorum Herra, vér viljum gjarnan vera Pharaónis þrælar.

26. Svo skikkadi Jóseph þeim ein løg, inn til þessa dags, yfir allt Egyptaland, ad hver madur skyldi géfa Pharaóni þann fimmta hlut, undanteknum prestanna jørdum, sem ekki komu undir Pharaónem.

3.) 27. Svo var Israel búandi í Egyptalandi, í landi Gosen, og héldu sig þar. Og þeir uxu og margføldudust mjøg.

28. Og Jakob lifdi seitján ár í Egyptalandi, svo ad hans allur aldur vard hundrad, sjø og fjørutíu ár.

29. Nú sem nálgadist andláts tíd Israels, þá kalladi hann sinn son Jóseph, og sagdi til hans: hafi eg fundid nád fyrir þér, þá legg þína hønd undir mínar lendar, ad þú viljir sýna mér kjærleika og trú, og jarda mig ekki í Egyptalandi.

30. Heldur vil eg liggja hjá mínum forfedrum, og þú skalt flytja mig af Egyptalandi, og jarda mig í þeirra grøf. Hann sagdi: eg vil gjøra svo sem þú hefur sagt.

31. En hann sagdi: svo sver mér þar eid uppá. Og hann sór honum, þá b) hneigdi Israel sig í sænginni ad høfdalaginu.

b) Hneigdi: hann lá sjúkur í sænginni, þó reisti hann sig upp og hneigdi sig til høfdalagsins, tilbad Gud og þakkadi honum, undir eins vann Jóseph eidinn.

## 48. Kapítuli.

Jakobs Testament um Ephraim og Manasse.

Þar eptir var Jóseph sagt: sjá! þinn fadir er sjúkur. Þá tók hann sína báda sonu, Manasse og Ephraim med sér.

2. Þá var sagt Jakob: sjá! þinn sonur Jóseph kémur til þín.

3. Þá hreysti Jakob sig, og settist upp í sænginni, og sagdi til Jósephs: Almáttugur Gud birtist mér í Lus í landi Canaan, og blessadi mig.

4. Og sagdi til mín: sjá! eg vil láta þig vara og margfaldast, og gjøra þig ad fjølda fólks, og eg vil géfa þínu sædi eptir þig þetta land til æfinlegrar eignar.

5. Svo skulu nú þínir tveir synir Ephraim og Manasses, sem þér eru fæddir í Egyptalandi, ádur enn eg kom híngad til þín, vera mínir, líka sem Rúben og Símeon.

6. En þeir sem þú átt hér eptir, þeir skulu vera þínir, og kallast sem þeirra brædur, í þeirra arfskipti.

7. Og þá eg kom af Mesopotamía, andadist Rachel fyrir mér, í því landi Canaan, á þeim veigi þá eg var enn skammt eitt frá Ephrath, og eg gróf hana þar í þeim sama stad á veiginum til Ephrath, sem nú kallast Bethlehem.

8. Og Israel sá Jósephs sonu, og sagdi: hverjir eru þessir? Jóseph svaradi sínum fødur:

9. Þessir eru mínir synir sem Gud hefur hér géfid mér. Hann sagdi: leid þá híngad til mín, svo ad eg blessi þá.

10. Því ad Israel glaptist sýn af elli, svo hann gat ekki vel sjed. Og hann leiddi þá til hans, en hann kyssti þá, og tók þá í fáng sér.

11. Og sagdi til Jósephs: sjá! eg hefi sjed þitt andlit, hvad eg hafdi ekki þeinkt, og sjá! Gud hefur ad auk þess, látid mig og sjá þitt sád.

12. Og Jóseph tók þá af hans fadmi og hneigdi sig til jardar móti hans augliti.

13. Svo tók Jóseph þá báda, Ephraim sér til hægri handar, mót Israels vinstri hønd, en Manasse til vinstri handar, mót Israels hægri hønd, og leiddi þá til hans.

14. En Israel rétti sína hægri hønd út, og lagdi hana á Ephraims høfud sem var ýngri, og sína vinstri hønd á Manasses høfud, og hagadi viljandi svo sínum høndum, því Manasses var sá hinn frumgétni.

15. Og hann blessadi Jóseph, og sagdi: Gud, í hvers augliti mínir forfedur Abraham og Isaak geingu, sá Gud sem ad forsorgadi mig mína lífs tíd inn til þessa dags.

16. Sá Eingill sem mig hefur frelst frá øllu vondu * hann blessi þessa sveina, ad þeir kallist a) eptir mínu nafni, og eptir minna forfedra Abrahams og Isaaks nafni, og þeir vaxi og verdi margir á jørdunni. * Ebr. 11, 21.

a) Eptir: þad er, þeir skulu kallast mínir synir.

17. En sem Jóseph sá þad, ad fadir hans lagdi sína hægri hønd uppá Ephraims høfud, þá mislíkadi þad honum. Og hann tók um síns fødurs hønd af høfdi Ephraim, og vildi hafa vikid henni frá Ephraims høfdi, og uppá høfud Manasses.

18. Og sagdi til hans: ekki svo, minn fadir! þessi er sá hinn frumgétni, legg þína hægri hønd uppá hans høfud.

19. En hans fadir neitadi því, og sagdi: eg veit þad vel, minn son!, eg veit þad vel. Þessi skal og verda ad fólki, og margfaldast, en hans ýngri bródir skal verda meiri enn hann, og hans sædi skal verda eitt mikid fólk.

20. Svo blessadi hann þá þann sama dag, og sagdi: hver sem vill blessa nokkurn í Israel, hann skal segja: Gud setji þig líka sem Ephraim og Manasse. Og setti svo Ephraim fyrir Manasse.

21. Og Israel sagdi til Jósephs: sjá! eg andast, og Gud mun vera med ydur, og leida ydur aptur í ydart fødurland.

22. Eg hefi géfid þér einn b) hluta landsins, framm yfir þína brædur, hvern eg tók af Amoríta hendi, med mínu sverdi og boga.

b) Hluta: hluti kallast á Ebresku Sichem, og þann sama stad meinar hann hér. Jós. 13. 7.

## 49. Kapítuli.

1.) Jakobs spádómur, og 2.) Daudi.

1.) Jakob kalladi sína sonu fyrir sig og sagdi:

2. Safnid ydur til samans, svo eg megi kunngjøra ydur, hvad yfir ydur mun koma, á eptirkomandi tímum, heimtist saman, og hlýdid til, þér Jakobs børn, og heyrid ydarn Fødur Ísrael.

3. a) Rúben minn fyrsti son, þú ert minn kraptur, og mín fyrsta makt, ypparstur í offri, og ypparstur í ríkinu.

a) Rúben: hann skyldi hafa haft frumgétíngarinnar virdíng, sem var kénnidóminn og Kóngdóminn, en nú er hverutveggja frá honum, og kénnimannskapurinn géfinn Leví, en Kóngdómurinn Júda. Hér skilst Synagoga, er saurgar Jakobs sæng, þad er Ritnínguna, og misti því bædi kénnimannskapinn og Kóngdóminn.

4. Hann rann lauslega burt sem vatn, þú skalt ekki vera ædstur, því ad þú fórst uppí þíns fødurs sæng, og saurgadir mína sæng med þinni uppfør.

5. Þeir brædur Símeon og Leví, þeirra sverd eru mordíngja vopn.

6. Mín sál skal ekki koma í þeirra rád, og mín æra skal ekki vera í þeirra samkundu, því þeir myrdtu manninn í sinni reidi, og med sínum eginn vilja hafa þeir urann fordjarfad.

7. Bølvud verdi þeirra reidi, því hún er svo straung, og þeirra grimd, ad hún er svo hørd. Eg vil skipta þeim í Jakob, og tvístra þeim í sundur medal Ísrael.

8. Júda, þú ert þann, þig skulu þínir brædur prísa, þín hønd skal vera á þinna óvina hálsi, þér skulu børn þíns fødurs lúta.

9. Júda er eitt úngt Leon, þú ert háttkominn, minn son, fyrir stórann sigur, hann kraup nidur, og lagdi sig svo sem Leon, og svo sem Leon-inna, hver vill uppreisa sig í móti honum?

10. Sú konúnglega b) spíra skal ekki burt takast frá Júda, né heldur lærimeistarinn frá hans fótum, fyrr enn Schilo kémur, og til hans munu þjódirnar sér halda.

b) Spíra: hér birjast blessun sú er hlýdir uppá Kristum, sem fædast átti af Júda, og kallast hann Schilo, þad er lukkugéfinn, sá sér skyldi þreyngja í gégnum med anda og trú, hvad ádur var fyrir verkin súrt og vesælt, því kallast Schilo einn kappi.

11. Hann mun binda sinn fola vid víntréd, og sinnar asnainnu son, vid þann edla vínkvistinn. Hann mun þvo sinn klædnad í víni, og sinn møttul í vínberjá blódi.

12. Hans augu eru raudari enn vín, og hans tennur hvítari enn mjólk.

13. Sebúlon skal búa hjá høfninni vid sjóinn, og þar sem skipalagin eru, og hans landamerki ná ad Zidon.

14. Ísaschar skal vera einn bein-asni, og hann skal leggja sig á milli landamerkjanna.

15. Og hann sá ad hvíldin er gód, og ad landid er lystilegt, en hann hefur beygt sínar herdar til byrdar, og er ordinn einn skattgildur þénari.

16. Dan skal vera dómari yfir sínu fólki, svo sem ein ønnur ættkvísl í Ísrael.

17. Dan skal vera einn Høggormur á veigi, og ein Nadra á gotunni, bítandi í hestsins hæl, svo ad sá ed rídur falli á bak aptur.

18. Drottinn! eg bíd eptir þínu hjálprædi.

19. Gad herklæddur, skal fæi a stríds herinn framm, og til baka aptur.

20. Af Asser kémur þad feita braud, og hann mun gjøra Kóngunum til vilja.

21. Nephtali er einn snar hjørtur, og géfur snillna rædu.

22. c) JósepH mun vaxa, hann mun vaxa svo sem hjá einum uppsprettubrunni, dæturnar gánga framm med valdstjórninni.

c) Jósephs blessan hlýdir uppá Israels Kónga ríki, og er alltsaman sagt um veraldlegt veldi, ad dæturnar; þad eru stadirnir í landinu, mundi hafa góda stjórn tímanlega, og hafa marga spámenn og ypparlega menn til hyrníngar steina, og þó opt væri stjakad vid þeim, þá unnu þeir þó, og þetta Kóngaríki var í Ephraims kynkvísl, svo bleif sú andlega blessunin, og ríkid, hjá Júda, og þad líkamlega ríkid hja Ephraim.

23. Og þó ad skotmennirnir reiti hann til reidi, og strídi í móti honum, og ofsæki hann.

24. Svo verdur þó hans bogi fastur, og armleggur hans handa sterkur, fyrir hendur þess hins mektuga í Jakob. Af honum eru komnir hyrdarar og steinar í Ísrael.

25. Af þíns Fødurs Gudi ertu hólpinn, og blessadur ert þú af þeim almáttuga, med blessan af himnum ofan, med blessan af undir-

djúpinu, sem hér undir liggur, með blessan af brjóstinu og kvidnum.

26. Þíns Föðurs blessanir eru sterkari, enn minna foreldra blessanir (eptir ósk þeirra ypparlegu í heiminum) og þær munu koma yfir Jósephs höfuð, og yfir hvirfil á þeim Nazarenis á medal hans bræðra.

27. Benjamín d) er einn glefsandi úlfur, að morgni mun hann eta herfáng, en að kvöldi skal hann herfánginu út skipta.

*d) Benjamíns blessan hefur Kóng Saul, og þeir borgarar í Gibea fullkomnað, Júdic. 20, 25.*

2.) 28. Þessir eru þeir tólf kynþættir Ísraels, og þetta er það sem þeirra faðir mælti við þá, þá hann blessaði þá, sérhvern þeirra með einni sérlegri blessan.

29. Og hann bauð þeim og sagði til þeirra: eg safnast til míns fólks, grafið mig hjá mínum forfeðrum, í þeirri gröf á Ephrons Hethiters akri, í þeim tvöfalda hellir sem liggur gégnt Mamre í landi Canaan, hvern Abraham keypti með akrinum af Ephron Hethíta til erfðagreptrunar.

30. Þar hafa þeir grafið Abraham, og hans kvinnu Sara.

31. Þar hafa þeir og grafið Ísaak og Rebekku hans kvinnu. Þar í sama stað hef eg og svo grafið Lea, í þeim akri og í þeim hellir sem keyptur var af Heths börnum.

32. Þá Jakob hafði endað þessar skipanir, til sinna barna, lagði hann sínar fætur til samans í sænginni, og uppgaf sína önd, og varð safnaður til síns fólks.

(Jakob andast þá hann var 147 ára; 2255 árum eptir heimsins upphaf, 1706 árum fyrir Krists Fæðíng.)

## 50. Kapítuli.

1.) Jakob er jarðaður; 2.) Jóseph andast.

1.) 1. Þá féll Jóseph yfir síns föðurs andlit, og grét yfir honum, og myntist við hann.

2. Og Jóseph bauð sínum þénurum, sem voru læknarar, að smyrja sinn föður.

3. Og læknararnir smurðu Ísrael í fjörutíu daga, því að svo lengi stóðu yfir smurníngs dagarnir, og Egyptskir menn grétu hann í sjötíu daga.

4. En sem sorgar dagarnir voru nú endaðir, þá talaði Jóseph við Pharaonis þénara, og sagði: hafi eg nú fundið náð hjá yður, þá talið við Pharaónem, og segið:

5. Minn faðir tók einn eið af mér, og sagði: sjá! eg andast, jarða þú mig í minni eigin gröf, hverja eg lét grafa mér í landi Canaan. Svo vil eg nú fara upp, og greptra minn föður, og koma aptur.

6. Pharaó svaraði: far þar upp og jarða þú þinn föður, svo sem þú hefir svarið honum.

7. Svo fór Jóseph upp, að greptra sinn föður, og allir Pharaónis þénarar, og allir enu ellstu af hans húsi, og allir enu ellstu af Egyptalandi fóru með honum.

8. Þar að auk allir af Jósephs húsi, og hans bræður, hans föðurs fólk, alleina sín börn, sauði og fénað létu þeir eptir verða í landi Gosen.

9. Þar voru og í ferð með honum vagnar, og reiðmenn, svo að þetta varð einn stórmikill her.

10. En er þeir komu nú til þeirrar gyrðíngar Atað, sem liggur hinumegin Jórdanar, þar höfðu þeir einn mjög stórann og bitrann harm, og hann sorgaði yfir sínum föður í sjö daga.

11. Og sem fólkið landsins, þeir Cananei sáu þann grát hjá þeirri hlöðu Atað, þá sögðu þeir: þeir Egyptskir hafa þar stórann harm. Þar fyrir kallast sá sami staður, sem liggur hinumeigin Jórdanar, Egyptskra harmur.

12. Og hans börn gjörðu svo sem hann hafði boðið þeim.

13. Og fluttu hann í land Canaan, og jörðuðu hann í þeim tvöfalda hellir þess akurs sem Abraham hafði keypt með þeim akri, til erfða-greptrunar af Ephron Hethiter, þvert yfir frá Mamre.

14. Og sem þeir höfðu nú jarðað hann, þá fór Jóseph til baka aptur í Egyptaland, með sínum bræðrum, og með öllum þeim sem voru farnir upp með honum, til að jarða hans föður.

15. En Jósephs bræður urðu hræddir þá þeirra faðir var andaður, og sögðu: ské má að

Jóseph sé reidur vid oss, og endurgjaldi oss allt þad íllt, sem vér höfum gjört honum.

16. Þar fyrir létu þeir segja honum svo: þinn fadir baud oss, ádur enn hann andadist, og sagdi:

17. Svo skulud þér segja til Jósephs: fyrirláttu þínum brædrum þeirra misgjörníng og þeirra synd, ad þeir hafa gjört þér svo íllt. Nú bidjum vér: ad þú fyrirgéfir oss þíns födurs Guds þénurum þann misgjörníng. Þá grét Jóseph, er þeir töludu þetta vid hann.

18. Og hans brædur gengu til hans, og féllu nidur fyrir honum og sögdu: sjá! vér erum þínir þjónar.

19. Jóseph sagdi til þeirra: hrædist ekki! því eg er undir Gudi.

20. Þér hugsudud ad gjöra mér íllt, en Gud þeinkti ad gjöra þad ad gódu, í því hann gjördi, svo sem nú klárlega framm kémur, ad halda mörgu fólki vid lífid.

21. Svo verid nú óhræddir, eg vil forsorga ydur, og ydar börn. Og hann huggadi þá, og taladi blídlega til þeirra.

22. Og Jóseph bjó í Egyptalandi, med síns födurs húsi, og hann lifdi hundrad og tíu ár.

23. Og sá Ephraims börn, allt til þridja lids. Líka einnin börn Machirs, sonar Manassés, fæddu og svo börn á Jósephs skaut.

24. Og * Jóseph sagdi til sinna brædra: eg andast, og Gud mun vitja ydar, og færa ydur af þessu landi, inn í þad land sem hann hefur svarid Abraham, Isaak og Jakob. * Ebr. 11, 22.

25. Þar fyrir tók hann einn eid af Israels sonum, og sagdi: þegar Gud vitjar ydar, þá flytjid mín bein í burtu hédan.

26. Og Jóseph andadist, þá hann var hundrad og tíu ára gamall, og þeir smurdu hann, og lögdu hann í eina kistu í Egyptalandi.

Endir þeirrar fyrstu Móses bókar.

# EXODUS.

## Önnur Bók Mósis.

### 1. Kapítuli.

1.) Þrældómur Israels barna, og 2.) Ánaud í Egyptalandi.

1.) Þessi eru nöfn Israels barna, sem komu í Egyptaland med Jakob, hver med sitt hús.

2. Ruben, Simeon, Levi, Juda.

3. Isaschar, Sebulon, Benjamin.

4. Dan, Nephthali, Gad, Asser.

5. Og allar sálir sem voru komnar af Jakobs lendum, þær voru sjötíu. En Jóseph var ádur fyrir í Egyptalandi.

6. Sem Jóseph var nú andadur, og allir hans brædur, og þeir allir sem lifad höfdu á þeim tíma.

7. * Þá fjölgadi Israels börn, og þau gátu börn og jukust, og urdu mjög mörg, svo ad landid vard fullt af þeim. * Gjörn: Post: 7, 17.

8. Svo kom nýr Kóngur í Egyptaland, hann vissi eingin deili á Jóseph.

9. Og hann sagdi til síns fólks: sjáid! lýdur Israels barna er margur, og fleiri enn vér.

10. Nú vel, vér viljum kéfja þá nidur med kjænsku, svo ad þeir verdi ei svo margir. Þvíad, ef ófridur gjörist, þá mega þeir hlaupa í lid med óvinum vorum, ad berjast í móti oss, og fara svo í burt af landinu.

11. Og þar voru settir hördugir verkstjórar yfir þá, þeir ed þá skyldi þvínga med þúngum þrældómi, þvíad menn voru þá ad byggja

Pharaoni borgirnar Pithou og Raemſes ad leggja inn í hans inntektir.

12. En þeſs meir ſem þeir plágudu fólkid, þeſs meir fjølgadi þad og margfaldadiſt, og þeir héldu Israels børn andſtyggileg.

13. Og þeir Egyptſku þjádu Israels børn ómiſkunſamlega med þrældómi.

14. Og gjørdu þeim þeirra líf leidinlegt, med þúngu erſidi, leireltu og tígulſteina gjørd, og allra handa þrældómi á mørkinni, og med allra handa erſidi, ſem þeir løgdu ómiſkunſamlega á þá.

2.) 15. Og Kongurinn í Egyptalandi mælti til þeirra Ebreſku yfirſetukvenna: ein hét Sephora, en ønnur Phua.

16. Nær þér ſitjid yfir þeim Ebreſku kvinnum, og þér ſjáid á fædíngar ſtólnum ad þad er einn ſonur, þá líflátid hann, en ſé þad dóttir, þá látid hana lifa.

17. En yfirſetukonurnar óttuduſt Gud, og gjørdu ekki ſvo ſem Egyptalands Kóngur hafdi þeim bódid, heldur létu børnin lifa.

18. Þá kalladi Egyptalands Kóngur yfirſetukonurnar fyrir ſig, og ſagdi til þeirra: því gjørid þid þad, ad þid látid børnin lifa?

19. Ljósmædurnar ſvørudu Pharaoni: þær Ebreſku konurnar eru ekki ſvo ſem þær Egyptſku, því þær eru hrauſtar konur, og ádur enn þad yfirſetukonurnar koma til þeirra, þá eru þær búnar ad fæda.

20. Þar fyrir gjørdi Gud yfirſetukonunum gott. Og fólkid jókſt og vard mjøg margt.

21. Og ſøkum þeſs, ad yfirſetukonurnar óttuduſt Gud, þá byggdi hann þeim hús.

22. Þá baud Pharaó øllu ſínu fólki, og ſagdi: kaſtid øllum ſveinbørnum í ána ſem ad fædaſt, og látid øll meybørn lifa.

## 2. Kapítuli.

1.) Um fædíng Móſes; 2.) hans uppfóſtur; 3.) flótti; og 4.) giftíng.

1.) Einn madur af húſi Levi, gékk burt og tók eina af Levi dætrum, og kvinnan vard ólétt, og fæddi * einn a) ſon. * Grb. Poſt: 7, 20.

a) Móſes fædiſt 64 árum eptir andlát Jóſephs, *Anno mundi* 2373. Fyrir Kriſtí híngadburd 1588 ár, af Levi ætt.

2. Og * ſem hún ſá ad þad var eitt vænt barn, geymdi hún hann í þrjá mánudi * Ebr. 11, 23.

3. En þá hún gat eigi lengur leyndt honum, gjørdi hún kiſtilkorn af reyr, og bræddi med leir og biki, og lagdi þar í barnid, og lét kiſtilinn í ſefid út med árbakkanum.

4. En hans ſyſtir ſtód lángt frá, ad hún mætti ſjá hvernin honum mundi gánga.

2.) 5. Og Pharaonis dóttir gékk ofan, ad þvo ſig í ánni, og hennar jómfrúr gengu eptir árbakkanum. En ſem hún ſá kiſtilinn í ſefinu, ſendi hún ſínar ambáttir þángad, og lét færa ſér hann.

6. Og er hún lauk honum upp, ſá hún barnid, og ſjá! barnid grét, þá ſá hún aumur á því og ſagdi: þad er eitt af þeim Ebreſku børnunum.

7. Þá ſagdi hans ſyſtir til Pharaonis dóttur: viltu ad eg fari í burt, og kalli eina af þeim Ebreſku kvinnum, ſem hefur mjólk í brjóſtum, ad hún kunni ad fæda barnid upp?

8. Pharaonis dóttir ſagdi til hennar: far þú. Jómfrúin fór af ſtad, og kalladi á módur barnſins.

9. Þá ſagdi Pharaonis dóttir til hennar: tak þetta barn til þín, og fóſtra mér þad upp, eg mun launa þér. Kvinnan tók barnid, og fóſtradi þad upp.

10. Og þá ſveinninn var vaxinn, leiddi hún hann til Pharaonis dóttur, og hún hélt hann fyrir ſinn ſon, og kalladi hann Móſes, því hún ſagdi: eg hefi tekid hann úr vatni b)

b) Maſa, merkir ad draga, þar af kémur Móſes, dreginn, því hann var dreginn úr vatninu.

3.) 11. Og á þeim tíma, þá Móſes var fulltída, gékk hann út til ſinna brædra, og ſá þeirra þjáníng, og hann ſá einn Egyptſkann ljóſta hans bródur, ſem var einn af þeim Ebreſku.

(Móſes var þá 40 ára gamall.)

12. Þá litadiſt Móſes allt um kríng, og er hann ſá aungvann mann í nánd, vó hann þann hinn Egyptſka, og gróf hann í ſandi.

13. En á ødrum degi gékk hann út aptur,

og sá tvo Ebreska menn þrátta sín á millí, og hann sagdi til hans sem órétt gjørdi, því slær þú þinn náúnga?

14. En hann sagdi: hver hefur sett þig til høfdíngja edur dómara yfir oss, viltu vega mig, sem þú drapst þann Egyptska? þá vard Móses hræddur, og sagdi: hvernin er þad ordid opinbert?

15. Og þad kom fyrir Pharaonem, og hann leitadi eptir ad láta drepa Mósen, en Móses flýdi fyrir Pharaoni, og héllt sig í því landi Madian, og dvaldist hjá einum brunni.

4.) 16. Og þar var einn kénnimadur í Madian, hann átti sjø dætur, þær komu þángad ad ausa upp vatn, og fylltu vatnsrennurnar, ad vatna þeirra fødurs saudum.

17. Þá komu hyrdararnir ad, og ráku þær í burt. En Móses reis upp, og hjálpadi þeim, og vatnadi þeirra saudum.

18. Og þá þær komu heim til síns fødurs Reguel, sagdi hann: því komud þér svo snart aptur í dag?

19. Þær søgdu: einn Egyptskur madur hjálpadi oss frá fjárhyrdurunum, og jós vatnid upp fyrir oss, og vatnadi saudunum.

20. Hann sagdi til sinna dætra: hvar er sá madur? því létu þér hann fara í burt, og budud honum ekki inn ad eta med oss?

21. Og Móses lét sér líka ad vera hjá þeim manni, og hann gaf Móse sína dóttur Zephora.

22. Hún fæddi honum einn son, þann kalladi hann Gersom, því ad hann sagdi: eg er ordin einn útlendíngur í annarlegu landi. Og hún ól enn einn son, þann nefndi hann Elieser, c) og sagdi: míns fødurs Gud er minn hjálpari, og hann frelsti mig af hendi Pharaonis.

c) Gersom: þýdist útlendíngur. Elieser: þýdist Gud minn hjálpari.

23. En laungum tíma þar eptir, andadist Kóngurinn af Egyptalandi. Og Israels børn andvørpudu undir þeirra ánaud, og kølludu, og þeirra kall yfir þeirra þjáníng, kom upp fyrir Gud.

24. Og Gud heyrdi þeirra sárlega kveinan, og minntist á sinn sáttmála (sem hann hafdi gjørt) vid Abraham, Isaak og Jakob,

25. Og hann leit til þeirra, og tók þá ad sér.

## 3. Kapituli.

Móses er kalladur af Gudi til ad leida Israels børn út af Egyptalandi.

Og Móses gjætti sauda Jethro mágs síns, kénnimanns í Madian, og rak fé á bak vid í eydimørkinni, og kom til Guds fjalls Horeb.

2. Og * Eingill Drottins birtist honum, í einum glóandi eldsloga, af einum runni, og hann sá ad runnurinn logadi af eldi, en eyddist þó ekki. * Gb. Post. 7, 30.

3. Þá mælti hann: eg vil fara þángad, ad sjá sýn þá hina miklu, hvar fyrir runnurinn brennur ekki upp.

4. Og sem Drottinn sá ad hann gékk þángad, ad skoda, þá kalladi Gud til hans úr runninum, og sagdi: Móses! Móses! hann svaradi: hér er eg.

5. Hann sagdi: gakk ekki nær híngad; leystu þína skó af þínum fótum, því sá stadur sem þú stendur á er heiløg jørd. Og hann sagdi framar meir:

6. Eg er þíns fødurs Gud, * Gud Abrahams, Gud Isaaks, og Gud Jakobs. Móses byrgdi sitt andlit, því hann þordi ekki ad líta uppá Gud. * Matth. 22, 32. Mark. 12, 26. Lúk. 20, 37.

7. Þá sagdi Drottinn: eg hefi a) sjed eymd míns fólks í Egyptalandi, og heyrt þeirra kall undir þeim sem þá þrælka, og eg veit þeirra harm.

a) Eg hefi sjed: Gud heldur þad hann hefir heirid og bænheyrir sína.

8. Og eg er nú ofan farinn, ad fría þá af hendi Egyptskra, og útleida þá af því landi, í eitt gott og vídt land, og í þad land, sem flýtur í mjólk og húnáng, í þad pláts þar nú búa Cananítar, Hethitar, Amoritar, Pheresitar, Hevitar, og Jebusitar.

9. Þvíad Israels barna kall er nú komid fyrir mig, og eg hefi sjed þeirra þrældóm, med hverjum ad Egyptarnir þreyngja þeim.

10. Svo far nú þángað, eg vil senda þig til Pharaonem, að þú útleiðir mitt fólk, Israels børn, af Egyptalandi.

11. Móses sagði til Guðs: hver em eg, að eg fari til fundar við Pharaonem, og leiði út Israels børn af Egyptalandi?

12. Hann sagði: eg vil vera með þér. Og þetta skaltu hafa til marks, að eg sendi þig, þá þú hefir leidt mitt fólk af Egyptalandi, þá munuð þér færa Guði fórnir á þessu fjalli.

13. Móses sagði til Guðs: sjá! þegar eg kém til Israels barna, og eg segi til þeirra: Guð feðra yðra sendi mig til yðar, og ef þeir segja þá til mín: Hvert er hans nafn? hverju skal eg þá svara?

14. Guð sagði til Mósen: eg mun vera, sá sem eg mun vera. Og sagði svo, svo skaltu segja til Israels barna: eg mun vera, hann sendi mig til yðar.

15. Og Guð sagði framvegis til Mósen, svo skaltu segja til Israels barna: Drottinn yðra feðra Guð, Guð Abrahams, Guð Isaaks, og Guð Jakobs sendi mig til yðar. Þetta er mitt nafn að eilífu, þar með skulu menn nefna mig um aldir og að eilífu.

16. Þar fyrir far nú þángað, og safna saman øldúngum Israels, og mæl við þá: Drottinn Guð yðra feðra, Guð Abrahams, Guð Isaaks, og Guð Jakobs birtist mér, og sagði: eg hefi vitjað yðar, og séð hef eg það yður hefur skéð í Egyptalandi.

17. Og eg hefi sagt: eg vil útleiða yður af Egyptalands ánauð, inn í land þeirra Cananíta, Hethíta, Amoríta, Pheresíta, Heviíta og Jebusíta, í það land þar mjólk og húnáng flýtur í.

18. Og þegar þeir heyra þína raust, þá skaltu, og þeir ellstu af Israel, fara inn fyrir Egyptalands Kóng, og segja svo til hans: Drottinn Guð Ebreskra manna, hefur kallað oss. Svo lát oss nú fara þriggja daga leið á eyðimørk, að vér færum fórnir Drottni Guði vorum.

19. En eg veit, að Egyptalands Kóngur mun ekki láta yður fara, utan fyrir eina styrkva hønd.

20. Því eg mun útrétta mína hønd, og ljósta Egyptaland, með allra handa stórmerkjum, þeim er eg vil gjøra þar inni, síðan mun hann láta yður fara.

21. Og eg vil géfa þessu fólki náð, hjá þeim Egyptsku, að þér skuluð ekki fara snauðir frá þeim, þá þér farið af landinu. Heldur skal hver kvinna fá til láns af sinni grannkonu, og af þeirri sem hún er í húsi með, silfurkér, gullkér, og klæðnað, það skuluð þér leggja uppá yðra sonu og dætur, og ræna því frá Egyptskum.

## 4. Kapítuli.

*Móses verður staðfestur í sinni køllun með þeirri gáfu að gjøra tákn og furðuverk.*

Móses svaraði, og sagði: sjá! ekki munu þeir trúa mér, né heldur hlýða minni raust, heldur munu þeir segja: Guð hefur ekki vitrast þér.

2. Þá sagði Drottinn til hans: hvað er það sem þú hefur í þinni hendi? hann sagði: stafur er það.

3. Hann sagði: kasta þú honum frá þér á jørðina. Og hann kastaði honum frá sér, þá varð hann að einum høggormi. Og Móses flýði undan honum.

4. Þá sagði Drottinn til hans: útréttu þína hønd og gríp um hans hala. Svo rétti hann út hendina og hélt honum, og hann varð að einum staf aptur í hans hendi.

5. Þar fyrir munu þeir trúa að Drottinn Guð þeirra feðra, Guð Abrahams, Guð Isaaks og Guð Jakobs hafi vitrast þér.

6. Og Drottinn sagði enn aptur til hans: stikktu þinni hendi í barm þér. Og hann lét hana í sinn barm, og tók hana út aptur, og sjá! hún var orðin líkþrá sem snjór.

7. Og hann sagði: stikktu henni í barm þér aptur. Og hann stakk henni aptur í barminn, og sjá! þá var hún orðin aptur líka sem annað hans hold.

8. Sé það nú svo, að þeir vilja ei trúa þér, né heyra þína røðd við það eina teikn, þá skulu þeir þó trúa þinni røddu, við það annað teiknið.

9. En ef þeir trúa ekki þessum tveimur jarteiknum, og hlýða ekki þinni røddu, þá tak vatn úr ánni, og aus því upp á þurrt land,

svo skal þad vatn, sem þú tókst úr ánni, verda ad blódi á þurru landi.

10. Þá sagdi Móses til Drottins: æ Drottinn minn! eg hefi ekki hér til dags haft gott ordfæri, sídan þú taladir vid þinn þénara, því eg hefi þúngt málfæri, og þúngfæra túngu.

11. Drottinn sagdi til hans: hver hefur skapad mannsins munn? eda hver hefur gjört þann mállausa og daufa, sjáanda eda þann blinda? hef eg Drottinn ekki gjört þad?

12. Svo far nú hédan, eg vil vera med þínum munni, og kénna þér hvad þú skalt segja.

13. Móses svaradi: minn Drottinn! send þú hvern þú vilt senda.

14. Þá vard Drottinn mjøg reidur Móse, og sagdi: skyldi eg ekki vita, ad þinn bródir Aron af Leví slekkti hann er málsnillinn? og sjá! hann skal fara út í móti þér, og nær hann sier þig, þá mun hann fagna í sínu hjarta.

15. Þú skalt tala til hans, og leggja ordin í hans munn, og eg vil vera med þínum og hans munni, og læra ykkur hvad þér skulud gjøra.

16. Og hann skal tala vegna þín til fólksins. Hann skal vera þinn munnur, og þú munt vera hans Gud.

17. Og þennann staf tak med þér, med hverjum þú skalt jarteiknirnar gjøra.

18. Móses gékk burt, og kom aptur til síns mágs Jethro, og sagdi til hans: kjæri! leyf mér ad fara, svo eg megi koma til minna brædra aptur, sem ad eru í Egyptalandi, og sjá hvert þeir eru enn nú á lífi. Jethro svaradi honum: far þú í fridi.

19. Og Drottinn sagdi til hans í Madian: far hédan, og ferdast aptur í Egyptaland, því þeir eru daudir sem leitudu eptir ad lífláta þig.

20. Móses tók sína kvinnu, og sína sonu, og flutti þau á einum asna, og fór aptur til Egyptalands, berandi Guds staf sér í hendi.

21. Og Drottinn sagdi til Móse: sjá svo til, nær þú kémur aptur í Egyptaland, ad þú gjørir allar þessar jarteiknir fyrir Pharaoni, sem eg hefi géfid þér í þína hønd, en eg vil herda hans hjarta, svo ad hann mun ekki láta fólkid laust.

22. Og þú skalt segja til hans: svo segir Drottinn, Israel er minn frumgétinn sonur.

23. Eg býd þér, ad þú látir minn son fara, svo hann megi þjóna mér, en viljir þú þad ekki, þá skal eg ljósta í hel þinn frumgétna son.

24. En sem Móses kom til herbergis nokkurs á veginum, kom Drottinn í móti honum, og vildi deyda hann.

25. En Zephora tók þá einn stein, og umskar yfirhúdina á sínum syni, snart vid hans fætur og sagdi: þú ert mér einn a) blódbrúdgumi.

*a)* Blódbrúdgumi: þad er ad skilja: hún reiddist og sagdi: þad kostar blód ad þú ert minn madur, eg hlýt ad umskéra mitt barn, hvad hún gjørdi naudung, svo sem adra vanvirdu hjá þeim heidnu, en þetta merkir lögmálsins lýd, hver ed gjarnan vill hafa Gud, en vill þó ei lída krossinn, né láta umskéra þann gamla Adam, þángad til þad hlýtur ad ské.

26. Þá lét hann hann vera, en hún kalladi blódbrúdguma, vegna umskurnarinnar.

27. Og Drottinn sagdi til Arons: far þú á eydimørk til fundar vid Mósen. Og hann fór af stad, og mætti honum hjá Guds fjalli, og kysti hann.

28. Og Móses sagdi Aroni øll ord Drottins þess er hann sendi, og allar þær jarteiknir sem hann baud honum.

29. Þeir fóru burt og søfnudu saman øllum þeim enu ellstu af Israels børnum.

30. Og Aron taladi øll þau ord sem Drottinn hafdi mælt vid Mósen, og gjørdi jarteiknir fyrir fólkinu.

31. Og fólkid trúdi. Og sem þeir heyrdu þad, ad Drottinn hafdi vitjad Israels barna, og sied þeirra eymd, féllu þeir fram og tilbádu hann.

## 5. Kapituli.

1.) Móses er einkis metinn af Pharao; og 2.) Israels born plágast enn hardlegar.

1.) Eptir þetta gékk Móses og Aron inn og tøludu vid Pharaonem: svo segir Drottinn Israels Gud, lát þú minn lýd fara burt og halda mér eina hátíd á eydimørku.

2. Pharao svaradi, hver er sá Drottinn hvers raust eg skuli hlýda, og láta Israel fara? eigi veit eg neitt af þeim Drottni, og ei læt eg Israel fara.

3. Þeir svörudu: Gud ebreskra manna hefir kallad oss, leyf oss nú ad fara þriggja daga leid burt á eydimörku, svo vær megum færa fórnir Drottni vorum Gudi, ad ei komi drepsótt edur sverd yfir oss.

4. Þá sagdi Kóngur Egyptalands til þeirra: þú Móses og Aron, því viljid þid fría fólkid frá sínu erfidi? farid aptur til ydvars erfidis.

2.) 5. Og Pharao sagdi enn framar meir: sjá! fólkid er allareidu ofmargt hér í landi, og þó viljid þér nú ad þad skuli géfa upp ad erfida.

6. Þar fyrir á þeim sama degi, baud Pharao Fógetum og Verkstjórnarmönnum (sem settir voru yfir fólkid) og sagdi:

7. Þér skulud ekki hér eptir safna hálmi handa þessu fólki, svo sem þér hafid hér til gjört, til ad brenna leirhellurnar þar vid, heldur látid þá fara sjálfa, og safna sér stráum.

8. En látid þá þó gjöra jafnmargar leirhellur, sem þeir hafa gjört til þessa dags, og minkid þad ekki par, því þeir gánga ydjulausir, þar fyrir kalla þeir, og segja: vér viljum fara og færa fórnir vorum Gudi.

9. Þjáid fólkid med erfidi svo ad þeir hafi nóg ad gjöra, og géfi sig ekki ad lýgi ordum.

10. Svo gengu Fógetarnir og Verkstjórnarmenn fólksins út, og sögdu til fólksins: svo segir Pharaó, eingin strá skulu ydur géfast.

11. Farid sjálfir og safnid ydur stráum þar þér gétid fundid, en þó skal þad ekki par minka ydvart ákvedid erfidi.

12. Svo dreifdist lýdurinn híngad og þángad út um allt Egyptaland, ad leita sér hálmleggja, svo þeir mætti hafa þá í stadinn stráins.

13. Og Fógetarnir ráku eptir þeim, og sögdu: fullkomnid ydvart dagsverk, svo sem þér gjördud fyrr, þá þér höfdud stráin.

14. Og þeir Verkstjórnarmenn sem Pharaonis höfdíngjar höfdu sett yfir Israels börn, feingu slög, og þar var sagt til þeirra: hvar fyrir hafid þér hverki í dag né heldur í gjær gjört ydvart ákvardad dagsverk, svo sem fyrr?

15. Þá geingu Verkstjórarnir Israelis barna inn, og kölludu til Pharaonem og sögdu: því fer þú svo med þjóna þína?

16. Þar er ekkért strá géfid þínum þénurum, og skulum vér samt þó jafnmargar leirhellur hnoda sem oss er fyrirsett, og sjá! þar ofaná eru þínir þénarar bardir, og þinn lýdur hlýtur ad vera a) syndarar.

a) Syndarar: þad er: þitt veſæla fólk, hlýtur ad liggja undir sökum svo sem þad gjördi órétt, og þar er leitast vid, ad koma skuldu á þitt fólk.

17. Pharao svaradi: þér gángid ydjulausir, já, ydjulausir gángid þér, og því segid þér: vér viljum fara burt og færa fórnir Drottni.

18. Því farid nú í burt og þrælid, eingi nn hálmur skal ydur géfast. En ásett tal tígulsteina skulud þér þó samt afhenda.

19. Þá sáu Verkstjórnarmenn Israelis barna, ad þad vildi verda verr, þvíad sagt var: þér skulud ekki minka ydvart daglegt verk á tígulsteinunum.

20. Og þá þeir gengu út frá Pharaone, mættu þeir Móse og Aroni, og þeir gengu til þeirra.

21. Og sögdu til þeirra: Drottinn sjái ydur, og dæmi um þad, ad þér hafid gjört oss svo illa luktandi fyrir Pharaoni, og hans þénurum, og hafid fengid þeim sverdid í hendur, til ad drepa oss.

22. Og Móses kom til Drottins aptur, og sagdi: Drottinn, því gjörir þú svo illa vid fólk þetta? hvar fyrir sendir þú mig híngad?

23. Þvíad sídan ad eg gékk fyrst inn fyrir Pharaonem, ad tala vid hann í þínu nafni, þá kvelur hann lýdinn meir enn ádur, og þú hefur ekki frelsad þitt fólk.

## 6. Kapítuli.

Móses fær 1.) eina nýa skikkun af Gudi; og 2.) segir frá sinni ætt.

1.) Þá sagdi Drottinn vid Mósen, nú skaltu sjá, hvad eg vil gjöra Pharaoni, því hann mun géfa þá lausa fyrir stirkva hönd, og med stirkri hendi mun hann þó burtreka þá úr sínu landi.

2. Gud taladi vid Mósen, og sagdi til hans: eg er Drottinn!

2. Og eg vitradist Abraham, Isaak, og Jakob, ad eg vildi vera þeirra almáttugur Gud, en mitt nafn, a) Drottinn, er ekki opinberad fyrir þeim.

a) Ekki kunngjört, Patriarcharnir hafa vel þekkt Gud, en svoddan opinber og almennileg prédikun út af Gudi, var ennþá í þeirra tíd ekki uppkomin, svo sem seinna skedi fyrir Mósen og Kristum.

4. Eg hefi og svo uppreist minn sáttmála vid þá, ad eg vil géfa þeim Canaans land, þeirra útlendíngsskapar land, í hverju þeir hafa verid útlendíngar.

5. Líka hef eg heyrt sára kløgun Israels barna, hverja Egyptarnir þvínga med þúngum þrældómi, og eg hefi minnst á minn sáttmála.

6. Þar fyrir segdu svo Israels børnum: eg er Drottinn, og eg vil útleida ydur frá þrældómi Egyptskra manna, og frelsa ydur af ydar þýngslum, og fría ydur med útréttum armlegg, og stórum dómi.

7. Og eg vil taka ydur mér til lýds, og eg vil vera ydar Gud, svo ad þér skulud reyna, ad eg er Drottinn ydar Gud, sem út hefur leidt ydur frá Egyptskra manna þrældómi.

8. Og innfært ydur í þad land, yfir hvert eg b) upphóf mína hønd, ad eg gæfi þad Abraham, Isaak og Jakob, þad vil eg géfa ydur til eignar, eg Drottinn.

b) Upphóf: eg hét med eidi, *ut supra*. Gen. 22, 16.

9. Þetta sagdi Mósés Israels børnum, en þau hlýddu honum ekki, fyrir andvarpan og ángist og þúngu erfidi.

10. Þá taladi Drottinn vid Mósen, og sagdi:

11. Far þú inn, og tala vid Pharaonem Egyptalands Kóng, ad hann láti Israels børn fara af sínu landi.

12. Mósés taladi fyrir Drottni, og sagdi: sjá! Israels børn hlýda mér ekki, hvernin skyldi þá Pharao hlýda mér? þar med er eg med c) óumskornum vørum.

c) Óumskornum: þad er, ómálsnjallur.

13. Svo taladi Drottinn vid Mósen og Aron, og gaf þeim befalníng til Israels barna, og til Pharaonem Kóngsins í Egyptalandi, ad þeir leiddu Israels børn burt úr Egyptalandi.

2.) 14. Þessi eru høfudin í sérhverri ættkvísl fedranna. Børn Rubens, þess frumgétna sonar Israel, eru þessi: Hanoch, Pallu, Hezron, Charmi, þessir eru kynþættir komnir af Ruben.

15. Simeons børn eru þessi: Jemuel, Jamin, Ohad, Jachin, Zohar og Saul sonur þeirrar Canversku kvinnu, þetta er Simeons ættkvísl.

16. Þessi eru nøfn Levi barna, í þeirra ættkvísl: Gerson, Kahath og Merari. En Levi vard hundrad sjø og þrjátíu ára gamall.

17. Børn Gerson eru þessi: Libni, og Simei med sínum ættkvíslum.

18. Þessi eru Kahats børn: Amram, Jezehar, Hebron, Usiel, og Kahat vard hundrad þrjátíu og þriggja ára gamall.

19. Þessi eru Merari børn: Maheli og Musi, þessi eru komin af Levi í þeirra ættkvísl.

20. Og Amram tók sína fødurs systir, Jochebed, sér til eginkvinnu, og hún gat vid honum Aron og Mósés. En Amram vard hundrad sjø og þrátíu ára gamall.

21. Þessi eru Jezeas børn: Korah, Nepheg, Sichri.

22. Usiels børn eru þessi: Misael, Elzaphan, Sithri.

23. Aron átti Eliseba dóttur Aminadabs, systur Nahasons, og hún fæddi honum Nadab, Abihu, Eleasar, Ithamar.

24. Koras børn eru þessi: Assir, Elkana, Abiasaph. Þad er sú Korita ætt.

25. En Eleasar Arons son, hann tók af Putiels dætrum sér eginkvinnu, hún fæddi honum Pinehas. Þessi eru høfudin á medal fedranna, Levitanna ættkvíslar.

26. Þetta eru þeir Aron og Mósés, til hverra Drottinn sagdi: færid Israel sonu af Egyptalandi, med þeirra her.

27. Þessir eru þeir sem tøludu vid Pharaonem Egyptalands Kóng, ad þeir leiddi Israels sonu af Egyptalandi, sem er Mósés og Aron.

28. Og á sama degi taladi Drottinn vid Mósen í Egyptalandi.

29. Og sagdi til hans: eg er Drottinn, tala þú vid Pharao Egyptalands Kóng allt þad sem eg tala vid þig.

30. Og hann svaradi Drottni: sjá! eg er med óumskornum vørum, hvernin skal þá Pharao heyra mig?

## 7. Kápítulí.

Vatnid verdur ad blódi.

Og Drottinn sagdi til Mósen: sjá! eg hefi sett þig til eins Guds yfir Pharaonem, og Aron þinn bródir skal vera þinn Propheti.

2. Þú skalt tala allt þad eg býd þér, en Aron þinn bródir skal tala þad fyrir Pharaoni, ad hann láti Israels børn burt af sínu landi.

3. En eg vil forherda Pharaonis hjarta, svo ad eg gjøri mín teikn og mørg stórmerki í Egyptalandi.

4. Og Pharao mun ekki hlýda ykkur, uppá þad eg audsýni mína hønd í Egyptalandi, og leidi minn her, mitt fólk Israels børn, af Egyptalandi, med stórum dómi.

5. Og þeir Egyptsku skulu fá ad vita, ad eg er Drottinn, nær eg nú útrétti mína hønd yfir Egyptaland, og leidi Israelis børn burt frá þeim.

6. Móses og Aron gjørdu svo sem Drottinn hafdi bodid þeim.

7. Og Móses var áttatíu ára gamall, og Aron þriggja og áttatíu ára gamall, þá þeir tøludu vid Pharaonem.

8. Og Drottinn sagdi til Mósen og Aron.

9. Þegar ad Pharao segir til ydar: sýnid ydar teikn, þá skaltu segja til Arons: tak þinn staf, og kasta honum framm fyrir Pharaonem, ad hann verdi ad høggormi.

10. Þá gengu þeir Móses og Aron inn fyrir Pharaonem, og gjørdu svo sem Drottinn hafdi bodid þeim. Og Aron kastadi sínum staf nidur fyrir Pharaone, og fyrir hans þénurum, og hann vard ad einum Høggormi.

11. Þá kalladi Pharao á spekíngana og galdramenn. Og þeir Egyptsku * galdramenn gjørdu einninn svo med sínum særíngum.

* 2 Tim. 3, 8.

12. Og hver einn kastadi sínum staf frá sér, og þar urdu af høggormar, en Arons stafur gleypti þeirra stafi.

13. Svo a) forherdtist Pharaonis hjarta, ad hann hlýddi þeim ekki, svo sem Drottinn hafdi talad.

a) Forherdtist: Gud kann hverki, med plágum edur fyrduverkum, né med heitíngum, ad umsnúa Pharaoni, hann hlýtur ad láta hann drukkna í sjónum.

14. Og Drottinn sagdi til Móses: Pharaonis hjarta er forherdt, ei vill hann leyfa fólkinu burt ad sara.

15. Far þú á morgun á fund Pharaonis, sjá! hann mun gánga hjá vatninu, svo gakk framm á móti honum á árbakkanum, og tak þann staf í þína hønd sem vard ad høggormi.

16. Og seg þú til hans: Drottinn Gud Ebreskra manna sendi mig til þín, og hann lætur segja þér: lát mitt fólk fara, svo ad þad þjóni mér á eydimørku, en þú hefur ekki viljad heyra til þessa.

17. Þar fyrir segir Drottinn svo: þar af þá skaltu merkja ad eg er Drottinn, sjá! eg mun ljósta á vatnid, sem er í ánni, þessum staf, sem eg hefi í minni hendi, og þad skal verda ad blódi.

18. Svo ad fiskarnir í ánni skulu deya, og vatnid skal illa lykkta, svo ad Egyptska skal velgja vid ad drekka af því.

19. Og Drottinn mælti vid Mósen: seg til Arons: tak þinn staf, og rétt þína hønd út yfir vøtnin í Egyptalandi, og yfir alla þeirra læki, strauma og støduvøtn, og yfir alla vatnspytti, ad þeir verdi ad blódi, og þar skal vera blód um allt Egyptaland, bædi í trékérum og í steinkérum.

20. Móses og Aron gjørdu sem Drottinn hafdi bodid þeim, og lyptu upp stafnum, og ljóstudu á vatnid árinnar, ad ásjáanda Pharaoni og hans þénurum. Og allt vatnid árinnar umbreittist í blód.

21. Og fiskarnir í ánni dóu, og vøtnin lykktudu illa, svo ad Egyptskir menn gátu ekki drukkid vatnid úr ánni, og þar vard blód í øllu Egyptalandi.

22. Og þeir Egyptsku tøframenn gjørdu og slíkt hid sama med sínum særíngum. Og Pharaonis hjarta forherdtist, svo ad hann hlýddi þeim ekki, svo sem Drottinn hafdi talad.

23. Og Pharao snéri sér, og gékk heim og lét sér ekki til hjarta gánga.

24. En allir Egyptskir menn grófu sér brunna eptir vatni, kríngum ána, til ad drekka, því

þeir gátu ekki drukkid af því vatni sem í ánni var.

25. Og svo lidu sjø samfeldir dágar, ad Drottinn sló vøtnin.

## 8. Kapítuli.

Pharao er straffadur 1.) med pøddum; 2.) med lúsum; og 3.) med ormum.

1.) Drottinn sagdi til Móse: gakk inn fyrir Pharaonem, og segdu til hans: svo segir Drottinn, lát mitt fólk fara, svo þad megi þjóna mér.

2. En ef þú villt ekki gjøra þad, sjá! þá vil eg plága þitt allt land, frá þeim eina lands enda og til annars, med pøddum.

3. Svo ad fljótid skal vella upp pøddum, og þær skulu skrída upp, og koma í þitt hús, í þitt svefnherbergi, í þína rekkju, og í hús þinna þjónustumanna á medal þins fólks, og í þinn bakstursofn, og í þitt deig.

4. Og pøddurnar skulu skrída uppá þig, og uppá þitt fólk, og uppá alla þína þénara.

5. Og Drottinn mælti vid Mósen: seg þú til Arons, réttu þína hønd út med þínum staf, yfir læki og strauma og støduvøtn, og lát pøddur koma yfir Egyptaland.

6. Og Aron rétti út sína hønd yfir vøtnin í Egyptalandi, og þar komu upp pøddur, svo ad huldist allt Egyptaland.

7. Og tøframennirnir gjørdu slíkt hid sama med sínum særíngum, og létu pøddur koma yfir Egyptaland.

8. Þá kalladi Pharao á Mósen og Aron, og sagdi: bidjid Drottinn fyrir mér, ad hann taki þessar pøddur frá mér, og frá mínu fólki, þá vil eg láta fólkid fara, svo þad megi færa fórnir Drottni.

9. Móses sagdi: hafdu þá æru fyrir mér, og kved á nær eg skuli bidja fyrir þér, og fyrir þínum þénurum, og fyrir þínu fólki, ad pøddurnar verdi útreknar frá þér og þínu húsi, og blífi alleinasta í rennandi vøtnum.

10. Hann sagdi: á morgun; hann sagdi, eptir því sem þú hefur sagt, uppá þad ad þú skalt vita, ad þar er enginn svo sem Drottinn vor Gud.

11. Svo skulu pøddurnar takast frá þér, frá þínu húsi, og frá þínum þjónustumønnum, og frá þínu fólki, og skulu alleinasta vera í rennandi vøtnum.

12. Svo gengu þeir Móses og Aron frá Pharaoni, og Móses kalladi til Drottins, um pøddurnar, sem hann hafdi lofad Pharaoni.

13. Og Drottinn gjørdi svo sem Móses hafdi sagt. Svo dóu pøddurnar í húsunum, í bæunum, og á økrunum.

14. Og þeir søfnudu þeim saman hér og hvar í stórhrúgur, og landid lykktadi þar af.

15. En er Pharao sá ad honum var hvíld gefin, þá vard hans hjarta forherdt, og hann hlýddi þeim ekki, svo sem Drottinn hafdi sagt.

2.) 16. Og Drottinn mælti vid Mósen: seg þú til Arons, réttu þinn staf út, og ljósta í dupt jardarinnar, svo þar verdi lýs yfir allt Egyptaland.

17. Þeir gjørdu svo. Og Aron útrétti sína hønd med sínum staf, og sló í duptid á jørdunni, og komu þegar lýs á menn og fénad, allt dupt í landinu vard ad lúsum, í øllu Egyptalandi.

18. Tøframennirnir gjørdu eins líka med þeirra særíngum, ad þeir kjæmi lúsum upp, en þeir gátu ekki. Og lýsnar voru bædi á mønnunum og á fénadinum.

19. Þá søgdu toframennirnir til Pharaonem: þetta er Guds fíngur. Og Pharaonis hjarta vard forherdt, svo ad hann hlýddi þeim ekki, svo sem Drottinn hafdi sagt.

3.) 20. Og Drottinn mælti vid Mósen: stattu upp á morgun snemma, og far til fundar vid Pharaonem, sjá! hann mun gánga til vatnsins, og segdu svo til hans: svo segir Drottinn, lofadu lýd mínum ad fara, svo hann megi þjóna mér.

21. En ef þú gjørir þad ekki, sjá! þá skal eg láta koma allsháttada illa orma yfir þig, þína þénara, þitt fólk, og þitt hús, svo ad øll hús Egyptalands skulu fyllast af ormum, svo akrarnir og hvad sem á þeim er.

22. En á þeim degi vil eg gjøra sérlegann hlut vid land Gosen, þar sem mitt fólk er, ad þar skulu aungvir ormar vera, svo ad þú vitir, ad eg er Drottinn allstadar á jørdunni.

23. Og eg vil setja eina frelsan á millum míns fólks og þíns lýds, á morgun skal þad tákn ské.

24. Og Drottinn gjørdi svo. Og þar kom fjøldi orma í Pharaonis hús, í hans þénara hús, og svo yfir allt Egyptaland, svo ad landid spilltist af ormunum.

25. Þá lét Pharao kalla Mósen og Aron, og sagdi: farid og fórnfærid ydar Gudi hér í landi.

26. Móses svaradi: ei má svo vera, ad vér gjørum svo. Því vér mundum þá í fórnir færa Egyptskra manna andstyggdir Drottni Gudi vorum, sjá! ef vér offrudum Egyptskra andstyggdum, fyrir þeirra augum, mundu þeir þá ekki lemja oss í hel med grjóti?

27. Vér viljum gánga þriggja daga leid í burt hédan á eydimørk, og færa fórnir Drottni vorum Gudi, svo sem hann hefur bodid oss.

28. Þá sagdi Pharao: eg vil láta ydur fara, svo þér fórnfærid til Drottins ydars Guds á eydimørku, þó med því móti, ad þér ferdist ei lengra í burt, og bidjid fyrir mér.

29. Móses svaradi: sjá! þegar eg kém út frá þér, þá vil eg bidja Drottinn ad þessir ormar skulu takast frá Pharaoni og hans þénurum, og hans fólki, á morgun, en pretta mig ekki optar, svo þú látir ekki fólkid fara, og gjøra Drottni offur.

30. Og Móses gékk út frá Pharaoni, og bad til Drottins.

31. Drottinn veitti þad sem Móses bad, og tók ormana í burt frá Pharaoni, frá hans þénurum, frá hans fólki, svo þar var ekki einn eptir.

32. En Pharao forherdti sitt hjarta þá enn, og lét ekki fólkid fara.

## 9. Kapítuli.

Egyptaland er straffad 1.) med drepsótt; 2.) med svörtum blødrum; og 3.) med hagli.

1.) Drottinn mælti vid Mósen: gakk burt inn fyrir Pharaonem og segdu til hans: svo segir Drottinn Ebreskra manna Gud, leyfdu minu fólki ad fara og þjóna mér.

2. En ef þú neitar ad láta þá burt fara og hamlar þeim framvegis.

3. Sjá! þá skal hønd Drottins koma yfir þitt fé á mørkinni, yfir hesta, yfir asna, yfir úlfalda, yfir uxa, yfir saudi, med einnri hardla þúngri drepsóttu.

4. Og Drottinn mun gjøra furdanlegann hlut, millum Israelis hjardar og Egyptaranna. Og þar skal ekkért deya af øllu því sem Israelis børn eiga.

5. Og Drottinn setti tímann til og sagdi: á morgun mun Drottinn gjøra þetta á jørdunni.

6. Og Drottinn gjørdi þad ad morgni, ad allur Egyptalands fénadur dó, en þar dó ekki eitt af fé Israelis barna.

7. Og Pharao sendi þar eptir, og sjá! þá var þar ekkért daudt af Israelis fé. En Pharaonis hjarta var forhardnad, svo hann gaf ekki fólkinu burtfararleyfi.

2.) 8. Þá mælti Drottinn vid Mósen og Aron: takid ykkar hendur fullar med øsku af ofninum, og Móses skal dreyfa henni í lopt upp fyrir Pharao.

9. Ad þar falli dupt yfir allt Egyptaland, og ad þar komi svartar íllsku blødrur, bædi á menn og fénad, yfir allt Egyptaland.

10. Og þeir tóku øsku af ofninum, og gengu fyrir Pharaonem. Og Móses dreyfdi øskunni í lopt upp, þá komu svartar íllsku blødrur, bædi á menn og svo fénad.

11. Svo ad tøframennirnir gátu ekki stadid fyrir Móse, søkum þeirra vondra kauna, því ad þessi íllsku kaun voru svo vel á galdramønnunum, svo sem á øllum ødrum Egyptskum mønnum.

12. En Drottinn forherdti hjarta Pharaonis, svo ad hann hlýddi þeim ekki, svo sem Drottinn hafdi sagt Móse.

13. Þá mælti Drottinn vid Mósen: á morgun snemma skaltu upp rísa, og gakk fyrir Pharaonem og segdu til hans: svo segir Drottinn Ebreskra manna Gud, láttu mitt fólk fara í burt, og þjóna mér.

14. Ellegar vil eg í þessu sinni senda allar mínar plágur yfir sjálfann þig, yfir þína þjóna, og yfir þitt fólk, svo ad þú skalt fá ad vita, ad minn líki er enginn í øllum løndum.

15. Því ad eg vil útrétta mína hønd, og ljósta þig og þitt fólk med drepsótt, svo þú verdir afmádur af jørdunni.

16. Og * ad vísu hef eg þar fyrir uppvakid

þig, ad eg vil sýna minn krapt á þér, svo ad útberist mitt nafn um alla veröld. * Róm. 9, 17.

3.) 17. Þú tredur enn nú mitt fólk undir þér, og vilt ei leyfa því búrt ad fara.

18. Sjá! eg vil á morgun í þetta mund láta rigna eitt yfrid stórt hagl, svo aldrei mun jafnstórt komid hafa sídan Egyptaland var fyrst grundvallad, inn til þessa dags.

19. Því send nú út og tak í vakt þinn fénad, og allt þad þú hefur á akri. Því ad allt þad úti verdur stadt, og ekki er í hús innlátid, menn og fénadur, þad mun drepast ef ad haglid fellur yfir þá.

20. Hver sem óttadist Drottins ord af Pharaonis þénurum, hann lét sína þénara og sinn fénad flýa í hús.

21. En þeir sem ekki létu Drottins ord falla sér til hjarta, þeir létu þénara sína og kvikfé vera á akri.

22. Þá mælti Drottinn vid Mósen: rétt þína hönd upp í móti himninum, svo ad hagl drífi yfir allt Egyptaland, yfir menn, yfir fénad, og yfir allar jurtirnar á mörkinni í Egyptalandi.

23. Og Móses upprétti sinn staf á móti himninum, og Drottinn lét þegar reidarþrumur koma og hagl rigna, svo ad eldi lysti nidur á jördina. Svo lét Drottinn rigna hagl yfir Egyptaland.

24. Svo ad hagl og eldur fór svo grimmlega til samans, ad svoddan hafdi aldrei fyrr skéd í öllu Egyptalandi, sídan þad var fyrst byggt.

25. Þetta hagl sló nidur allt þad sem var á akrinum, bædi menn og fénad, og jurtir akursins, svo ad brotnudu öll tré nidur á mörkinni í öllu Egyptalandi.

26. En í landinu Gosen kom ekkért hagl þar sem Israels börn bjuggu.

27. Þá sendi Pharao bod út, og lét kalla til sín Mósen og Aron, og sagdi til þeirra: eg hefi enn nú ad þessu sinni syndgast, Drottinn er réttlátur, en eg og mitt fólk erum ógudlegir.

28. Bidjid Drottinn, ad svoddan Guds hagli og reidarþrumum linni, þá vil eg láta ydur burt fara, svo ad þér skulud ekki vera hér lengur.

29. Móses sagdi til hans: þegar eg fer út af borginni, þá vil eg rétta mínar hendur upp til Drottins, þá mun linna bædi hagli og reidarþrumum, svo þú skalt vita, ad jördin er Drottins.

30. En vel veit eg, ad þú og þínir þénarar óttist ekki fyrir Gudi sem er Drottinn.

31. Svo slóust nidur bædi lín-akrar og bygg-akrar, því byggid var varid til axa, og hörinn hafdi knappana fengid.

32. En hveiti og rúgur var ekki nidur slegid, því ad þau voru seint sád.

33. Móses gékk frá Pharaoni út af stadnum, og upprétti sínar hendur til Drottins, svo linnti reidarþrumunum og haglinu, og regnid draup ekki lengur á jördina.

34. Og sem Pharao fornam, ad regninu, reidarþrumunum, og haglinu linnti, þá syndgadist hann enn meir, og hann forherdti sitt hjarta, hann og hans þénarar.

35. Svo vard Pharaonis hjarta forherdt, ad hann lét ekki Israels börn fara, svo sem Drottinn sagdi fyrir Mósen.

## 10. Kapítuli.

Egyptaland verdur straffad 1.) med Engisprettum; 2.) med mirkri.

1.) Og Drottinn mælti vid Mósen: far inn fyrir Pharaonem, þvi eg hefi forherdt hans hjarta, og svo hans þénara, ad eg gjöri þessi mín tákn á medal þeirra.

2. Svo þú megir kunngjöra þad fyrir eyrum þinna barna og barna-barna, hvad eg hefi framkvæmt í Egyptalandi, og hvernin eg hafi audsýnt mín teikn á medal þeirra, ad þér skulud vita ad eg er Drottinn.

3. Svo gengu nú Móses og Aron fyrir Pharaonem, og sögdu til hans: svo segir Drottinn Ebreskra manna Gud, hversu leingi viltu standa í móti ad audmýkja þig fyrir mér, lát mitt fólk fara og þjóna mér?

4. En viljir þú ekki láta mitt fólk fara, sjá! þá vil eg á morgun láta Engisprettur koma allstadar.

5. Svo þær hylji landid, svo menn skulu eigi mega sjá jördina. Og þær skulu uppeta allt þad sem eptir var og bjargad vard fyrir hagl-

inu, og þær skulu eta øll ydar grænu tré á mørkinni.

6. Og þær skulu uppfylla hús þín, allra þinna þénara hús, og allra Egyptskra manna hús, svo ad hverki þínir fedur né forfedur skulu svoddan sjeð hafa, frá þeim tíma þeir fæddust á jørdina, og inn til þessa dags. Og hann snéri sér í burt, og gékk út frá Pharaoni.

7. Þá søgdu Pharaonis þénarar til hans: hversu lengi skulum vér vera hér med plágadir? lát þetta fólk fara, svo þad megi þjóna Drottni sínum Gudi, eda viltu ádur svo lengi reyna þetta, þar til ad Egyptaland er fordjarfad?

8. Og Móses og Aron voru kalladir til baka aptur, inn fyrir Pharaonem, þá sagdi hann til þeirra: farid af stad, og þjónid Drottni ydrum Gudi. En hverjir eru þeir sem burt skulu fara?

9. Móses sagdi: vér viljum fara med úngum og gømlum, med sonum og dætrum, nautum og saudum, þvíad vér egum ad halda Drottni eina hátíd.

10. Þá sagdi hann til þeirra: ójá! sé svo Drottinn med ydur, skylda eg leyfa ydur og þar til ydar børnum í burt ad fara? sjáid þar, hvert þér hafid ekki vondt í sinni?

11. Ekki svo, heldur þér karlmenn, farid þér, og þjónid Drottni, þvíad þar um hafid þér bedid. Og þeir voru útreknir frá Pharaoni.

12. Þá mælti Drottinn vid Mósen: réttu þína hønd yfir Egyptaland, eptir eingisprettum, ad þær komi yfir Egyptaland og uppeti allt aldini í landinu, med øllu því sem eptir var undan haglinu.

13. Svo rétti Móses sinn staf yfir Egyptaland, og Drottinn lét koma austanvind allann þann dag, og alla þá nótt uppá landid, og ad morgni færdi þessi austanvindur a) Eingispretturnar fram.

14. Og þær komu yfir allt Egyptaland, og féllu nidur í øllum áttum Egyptalands, svo mjøg margar, ad slíkt hafdi þar aldrei fyrr skéd, og ei heldur mun ské.

15. Því þær huldu landid, og þad sortnadi af þeim, og þær upp átu allt gras í landinu, og allan ávøxt trjánna, sem ad stódu eptir haglid, og þar var ekkert grænt eptir á trjánum, eda grasinu á akrinum, yfir allt Egyptaland.

16. Þá kalladi Pharao Mósen og Aron fljótlega til sín, og sagdi: eg hefi syndgast í móti Drottni ydrum Gudi, og svo ydur.

17. Fyrirlátid mér mín misverk, líka nú í þessu sinni, og bidjid Drottinn ydar Gud, ad hann vilji nú ad eins taka þennan dauda frá mér.

18. Hann gékk út frá Pharaoni, og bad til Drottins.

19. Þá snéri Drottinn vindinum, til eins sterks vestanvindar, hann upptók engispretturnar, og kastadi þeim í þad Rauda haf, svo þar var ekki ein eptir neinstadar í øllu Egyptalandi.

20. En Drottinn forherdti Pharaonis hjarta, svo hann leyfdi ekki Israels børnum burtu ad fara.

2.) 21. Og Drottinn mælti vid Mósen: réttu þína hønd til himins, ad þar verdi svo mikid mirkur í øllu Egyptalandi, ad menn megi þreyfa á því.

22. Og Móses upprétti sína hønd til himins, þá vard þar svo svart mirkur í þrjá daga, um allt Egyptaland.

23. Ad enginn sá þar annann, og ei heldur stód nokkur upp af þeim stad, sem hann var staddur í þrjá daga, en hjá øllum Israels børnum, þar þau bjuggu, var bjart.

24. Þá kalladi Pharao Mósen, og sagdi: farid hédan og þjónid Drottni, en látid aleinasta ydar naut og saudi vera eptir, ydar børn mega fara med ydur.

25. Móses sagdi: þú mátt og géfa oss offur, og brenni-fórn, ad gjøra Drottni Gudi vorum.

26. Vort kvikfé skal fara med oss, og ekki verda ein klauf eptir, því vér munum taka af vorri eign, sem þørf gjørist til Drottins vors Guds þjónustu. Því vér vitum ekki, med hverju vér skulum þjóna Drottni, fyrr enn vér komum til þess stadar.

a) Eingisprettur nefnast hér ekki *Hagab* á ebresku, svo sem sumstadar verdur fundid, heldur *Arbe*, sem eru ferfættar fljúgandi kindur, og hreinar ad eta, svo sem *Hagab*. Levit. 11, 22. En þær eru oss ókunnugar, utan þær eru ápekt og Eingisprettur, Psálm. 105, 34.

27. En Drottinn forherdti Pharaonis hjarta, svo ad hann vildi ekki leyfa þeim burt ad fara.

28. Og Pharao sagdi til hans: far frá mér, og varast ad koma hér eptir fyrir mín augu, þvíad á hverjum þeim degi, sem þú kémur í augsýn mér, þá skaltu deya.

29. Móses svaradi: sem þú mæltir, eg vil ekki framar meir koma fyrir þín augu.

## 11. Kapítuli.

Israels born fá silfur- og gull-kér ad láni hjá þeim Egyptsku.

Og Drottinn mælti vid Mósen: eg vil enn nú láta eina plágu koma yfir Pharaonem og Egyptaland, eptir þad mun hann leyfa ydur burt ad fara, og hann mun ekki alleinasta láta ydur fara, heldur mun hann reka ydur í burt.

2. Þar fyrir seg þu nú fólkinu, ad hver karlmadur bidji sinn nábúa, og hver kvinna sína grannkonu um silfurkér og gullkér.

3. Þvíad Drottinn mun géfa fólkinu nád fyrir Egyptskum. Og Móses var mjøg a) mikilsháttar madur í Egyptalandi, fyrir Pharaonis þénurum og fyrir fólkinu.

a) Mikilsháttar madur. Þad segir hann undir þá grein, ad furda er, hversu Móses var ekki sleginn í hel af þeim Egyptsku, og mega þeir víst hafa kvídid fyrir miklu verra, og upphlaupi.

4. Og Móses sagdi: svo segir Drottinn: um midja nótt vil eg gánga út í Egyptalandi.

5. Og allir frumburdir í Egyptalandi skulu deya, frá Pharaonis frumgétna syni, sem situr á hans stóli, og til frumgétins sonar ambáttarinnar, sem er á bak vid kvørnina, og allur frumgétnadur fénadarins.

6. Og þar skal koma eitt mikid óp í øllu Egyptalandi, hvers líki aldrei hefur verid og ei skal vera.

7. En á medal allra Israels barna skal ekki einn hundur deya, hverki hjá mønnum né fénadi, svo þér vitid hverja grein Drottinn gjørir á millum Egyptskra manna, og Israels.

8. Þá skulu allir þessir þínir þénarar koma ofan til mín, og falla mér til fóta, og segja: far þú burt, og allt þad fólk sem þér er undirgéfid, eptir þad vil eg í burtu fara. Og hann gékk mjøg reidur burt frá Pharaoni.

9. Og Drottinn mælti vid Mósen: Pharao hlýdir ydur ekki, uppá þad, ad mørg tákn skuli ské í Egyptalandi.

10. Og Móses og Aron gjørdi øll þessi tákn fyrir Pharaoni. En Drottinn forherdti hans hjarta, svo ad hann vildi ekki leyfa Israels børnum burt ad fara af sínu landi.

## 12. Kapítuli.

1.) Páskalambid; 2.) Allir frumburdir eru slegnir í hel. 3.) Pharao skipar ad láta Israels lýd fara burt af Egyptalandi.

1.) Drottinn mælti vid Mósen og Aron í Egyptalandi, og sagdi:

2. Þessi mánudur skal vera hinn fyrsti mánudur á medal ydar, og á honum skulud þér uppbyrja mánudi ársins.

3. Talid til alls almúgans af Israel, og segid: á tíunda degi þessa mánadar, skal hver húsbóndi taka eitt lamb fyrir sitt hús, já eitt lamb fyrir hvert hús.

4. En ef þeir eru ekki svo margir í húsi, ad þeir géti yppetid lambid, þá skal hann taka sinn næsta nágranna til sín, þar til ad þeir eru svo margir, ad þeir géti upp etid lambid.

5. En þér skulud taka þad lamb sem engin lýti hefur, eitt hrútlamb, árs gamalt, þad skulud þér taka af lømbunum og af kidunum.

6. Og þad skulud þér geyma til fjórtánda dags í þeim mánudi, og hver hópur í øllum Israel skal slátra því á millum tveggja aptna.

7. Og þeir skulu taka af blódinu, og rída því á báda dyrustafina, og á þad efsta dyratréd þess hússins þar þeir eta þad inni.

8. Og þá sømu nótt skulud þér eta þad kjøt sem steikt er vid eld, og ósýrt braud med beisku salti.

9. Þér skulud ekki eta þad hrátt, og ekki sodid í vatni, heldur steikt vid eld, med þess høfdi og fótum og innislum.

10. Ekki skulud þér leyfa nokkud þar af til morguns, en ef nokkud gengur af til morguns, þad skulud þér uppbrenna í eldi.

11. Og svo skulud þér þess neyta: þér skulud vera gyrdtir um lendar ydar, og hafa skó á ydrum fótum, og staf í ydrum höndum, og þér skulud eta það, svo sem þeir ed skjótlega vilja ferdast, því það er Drottins Paskah.

12. Því ad eg vil fara í gégnum Egyptaland, þessa sömu nótt, og dreva allann frumburd í Egyptalandi, bædi á medal manna og fénadar. Og eg vil audsýna mína refsíng á öllum skúrgodum Egyptskra manna, eg sem er Drottinn.

13. Og það blód skal vera ydur til teikns, á þeim húsum þar sem þér inni erud, ad þegar eg sje blódid, þá vil eg gánga fram hjá ydur, og þar skal eingin plága koma á ydur, sem ydur fordjarfi, nær eg slæ Egyptaland.

14. Og þann dag skulud þér halda til minníngar, og hann skulud þér halda Drottni helgann, til einnrar hátídar, þér og allir ydrir eptirkomendur til æfinlegrar venju.

15. Osýrt braud skulud þér eta í sjö daga, sem er, þann fyrsta dag skal ekki vera sýrt braud í ydrum húsum. Hver sem etur súrt braud, frá þeim fyrsta degi, allt til þess sjöunda, hans sál skal uppræetast af Israel.

16. Sá fyrsti dagur skal vera helgur, ad þér a) komid þá til samans, sá sjöundi skal og vera helgur ad þér komid þá til samans, ekkért erfidi skulud þér fremja á þeim dögum, utan það sem til matgjörda heyrir, handa allsháttudum sálum, það megid þér ad eins gjöra fyrir ydur.

a) Komid til samans: það er: þeir skyldu prédika *Benedicite*, og lesa *Gratias* fyrir Paskah, og útlausn af Egyptalandi, þar fyrir kémur hann fram med þetta ord, *Kara*, það er: ad prédika edur lesa í söfnudinum.

17. Og þér skulud halda ósýrdra brauda (dag) því rétt á þann sama dag færda eg ydar her af Egyptalandi, þar fyrir skulud þér, og allir ydar eptirkomendur halda þennann dag til einnar æfinlegrar skikkanar.

18. Þann fjórtánda dag í mánudinum, ad kvöldi, skulud þér ósýrd braud eta, og til þess tuttugasta og fyrsta dags í sama mánudi ad aptni.

19. Svo ad ekki finnist sýrd braud í ydrum húsum á þeim sjö dögum. Því hver sem etur sýrd braud, hans sál skal uppræetast frá Israelis samkundu, hvert hann er heldur útlendur edur innbyggjari í landinu.

20. Þar fyrir etid aldeilis ekkért sýrt braud, heldur eins-kostar ósýrt braud, í öllum ydar hýbýlum.

21. Þá * kalladi Móses alla þá ellstu af Israel til samans, og sagdi til þeirra: útveljid og takid saudi, sérhver til síns heimkynnis, og slátrid b) Paskah. * Ebr. 11, 18.

b) Paskah: þýdir gáng, því ad Drottinn gékk á þeirri nótt í gégnum Egyptaland, og sló alla frumburdi í hel, en þetta þýdir Kristí dauda og upprisu, fyrir hvern hann gékk frá þessari veröldu, og í sömu gaungu sló í hel syndina, daudann og Djöfulinn, og flutti oss burt af því rétta Egyptalandi, til síns födurs, það er vort Paskah edur páskar.

22. Og takid eitt bindini med ýsop, og drepid því í blódid, það sem er í munnlauginni, og ridid því framan á dyratréd, og svo á báda dyrastólpana, og engin manneskja skal fara út fyrir dyrnar á sínu húsi fyrr enn ad morgni.

23. Því ad Drottinn vill fara um kríng, og plága þá Egyptsku. Og þar hann sjer blódid uppá dyratrénu, og á bádum dyrastólpunum, þá mun hann gánga framm hjá þeim dyrum, og láta ekki fordjarfarann koma í ydar hús, ad plága (ydur).

24. Þar fyrir haldt þessa skikkan, fyrir þig, og þín börn æfinlega.

25. Og þegar þér komid í það land, sem Drottinn mun géfa ydur, svo sem hann hefur sagt, þá haldid þessa þjónustu.

26. Og þá ydar börn segja til ydar: hvad er þetta fyrir þjónustugjörd?

27. Þá skulud þér segja: það er Drottins páska-offur, sem gékk framm hjá Israelis fólki í Egyptalandi, þá hann plágadi Egyptarana, en frelsadi vor hús. Þá hneigdi fólkid sig, og gjördi lotníng.

28. Og Israelis börn gengu í burt, og gjördu svo sem Drottinn hafdi bodid Móse og Aron.

2.) 29. Og um midnáttar tíma, sló Drottinn allann frumburd í Egyptalandi, frá Pharaonis frumgétna syni, sem sat á hans stóli, allt til frumgétnings þess hins fángada sem sat í mirkvastofu, og allann frumburd fénadarins.
3.) 30. Þá stód Pharao upp þá sømu nótt, og allir hans þénarar, og allir Egyptskir, og þar gjørdist eitt mikid hróp í Egyptalandi; því ad þar var ekki eitt hús, ad ei væri daudur madur inni.
31. Og hann kalladi á Mósen og Aron um nóttina, og sagdi: takid ydur upp, og farid burt frá mínu fólki, þér og Israels børn, farid og þjónid Drottni, líka sem þér hafid sagt.
32. Takid med ydur ydar saudi og naut, svo sem þér hafid talad. Farid af stad og blessid mig líka.
33. Og þeir Egyptsku þreyngdu fólkinu, og ráku þad hastarlega af landinu, því þeir søgdu: vér munum allir deya.
34. Og fólkid bar med sér hrátt deig sér til fædslu, ádur enn þad gat súrnad, og bundu þad í sínum klædum, og báru þad á øxlum sér.
35. Og Israels synir høfdu gjørt sem Móses sagdi, og bedid af Egyptskum um silfurkér, og gullkér, og klædi.
36. Drottinn hafdi og géfid fólkinu nád fyrir þeim Egyptsku, svo ad þeir lánudu þeim þetta, og þeir gjørdu þá Egyptsku vidskila þar vid.
37. Svo ferduđust Israelssynir frá Ramseses og til Suchoth, sex hundrud þúsund manna, fótgaungulids, ad auk børn.
(Þessi reisa skédi eptir veraldarinnar upphaf 2453 árum, fyrir Kristi Fædíng, 1508.
38. Og margt annad almúga-fólk sem ad fylgdi þeim, svo og saudir og naut, og mjøg mikid kvikfé.
39. Og þeir bøkudu ósýrdar køkur, af því hráu deigi, sem þeir báru af Egyptalandi, því þad var ekki súrnad, søkum þess ad þeir voru svo fljótlega reknir af Egyptalandi, og máttu þar ekki lengur tefja, og þeir høfdu ekkért annad tilbúid sér til nestis.
40. Israels børn høfdu þá * búid í Egyptalandi fjøgur hundrud og þrjátíu ár. * Gjørn: 6: Post: 7, 6.
41. Og þá þessi ár voru lidin, þá gékk allur Drottins her af Egyptalandi, á einum degi.
42. Þar fyrir halda menn Drottni þá nótt, því ad hann leiddi þá af Egyptalandi, þá nótt skulu Israelis børn Drottni halda, þeir og þeirra eptirkomendur.
43. Og Drottinn mælti vid Mósen og Aron: þessi er vísa páskhaldsins: enginn útlendíngur skal eta þar af.
44. En sé þar nokkur þræll, sá sem keyptur er, láti hann sig umskéra, svo má hann eta þar af.
45. Enginn útlendíngur, sá sem innleiksa er ordinn í landinu, né verkseljari, skal eta þar af.
46. Menn skulu eta þad í einu húsi, þér skulud ekkért bera af kjøtinu út af húsinu, þér * skulud og ekkért þess bein í sundur brjóta. * Jóh. 19, 36.
47. Øll Israelis samkunda skal þetta svo gjøra.
48. Sé þad svo, ad þar búi nokkur útlendíngur hjá þér, og vilji halda Herrans páska, þá skal hann umskéra allt karlkyns, og þá má hann koma og gjøra þad. Og skal hann þá vera svo sem einn annar innlendur í landinu, því ad enginn óumskorinn skal eta þar af.
49. Þessi løg skulu eins vera fyrir þá sem ódalbornir eru í landinu, svo sem fyrir þá framandi sem búa á medal ydar.
50. Og øll Israels børn gjørdu svo sem Drottinn hafdi bodid Móse og Aron.
51. Svo leiddi Drottinn Israelis børn af Egyptalandi á þeim sama degi med þeirra her.

## 13. Kapítuli.

1.) Allir frumburdir skyldu helgast Drottni; 2.) Utfør Israels barna af Egyptalandi.

1.) Og Drottinn mælti vid Mósen, og sagdi:
2. * Helgid mér allann frumburd sem fyrst opnar allsháttar módurlíf, á medal Israels barna, bædi af mønnum og fénadi, því ad þad heyrir mér til. * Lúc. 2, 23.
3. Og Móses sagdi til fólksins: verid minnugir þess dags, á hverjum þér gengud út af Egyptalandi, úr þrældómsins húsi, ad Drott-

inn leiddi ydur út þadan med stirkri hendi,¦ þar fyrir skaltu ekki eta súrdeig.

4. Í dag erud þér útgengnir, í þeim mánudi a) Abib.

a) Abib: er Apríls.

5. Og nú þegar Drottinn hefur innleidt þig í land þeirra Cananita, Hethita, Amorita, Hevita, Jebusita, hvert hann sór þínum forfedrum, ad géfa þér, þad land sem mjólk og hunáng flýtur í, þá skaltu halda þessa þjónustugjørd, í þessum mánudi.

6. Sjø daga skaltu eta ósýrt braud, og á þeim sjøunda degi er Drottins hátíd.

7. Þar fyrir skaltu eta ósýrd braud, í sjø daga, svo ad ekkért súrdeig né súrt braud sjáist hjá þér, í øllum þínum landsálfum.

8. Og þér skulud segja þetta fyrir ydrum sonum, á þeim sama degi: þetta høldum vér þess vegna sem Drottinn gjørdi oss, þá vér fórum af Egyptalandi.

9. Þar fyrir skal þetta vera þér eitt teikn í þinni hendi, og ein minníng fyrir þínum augum, svo ad Drottins løgmál sé í þínum munni, ad Drottinn úrleiddi þig af Egyptalandi, med einni stirkri hønd.

10. Þar fyrir haldid þessa skikkan, á sínum tíma árlega.

11. Og þá Drottinn hefur innleidt þig í Cananita land, sem hann sór þér og þínum forfedrum, og þá hann hefur géfid þér þad.

12. Þá skaltu fráskilja Drottni til handa allt þad sem opnar sinnar módur kvid, og þann fyrsta frumburd af fénadinum, sem karlkyns er.

13. Frumburd asnans skaltu leysa med einum saud, en leysir þú hann ekki, þá brjót hann úr hálslidunum; en allann mannlegann frumgétnad medal þinna barna, þá skaltu leysa.

14. Og þá þitt barn spyr þig ad í dag eda á morgun, hvad er þad? þá svara þú honum svo: Drottinn leiddi oss af Egyptalandi, frá því þrældóms húsi, med einni stirkri hendi.

15. Því ad þá Pharao var forherdtur, til ad láta oss lausa, þá sló Drottinn í hel alla frumburdi í Egyptalandi, frá mannanna frumburdi, og allt til fénadarins frumburdar. Þar fyrir offra eg Drottni allt þad sem fyrst opnar sinnar módur kvid, þad sem er karlkyns, og eg leysi frumburd minna barna.

16. Og þetta skal vera þér eitt merki í þinni hendi, og til einnar minníngar fyrir þínum augum, þad Drottinn hefur leidt oss af Egyptalandi, med einni sterkri hendi.

2.) 17. Sem Pharao hafdi látid fólkid burt fara, þá leiddi Gud þá ekki á þann veg, sem liggur í gégnum landid Philistinorum, sem þeim var nálægastur, því Gud hugsadi: ské má ad fólkid megi ydrast, þá þad sjer bardagann, og snúi sér um aptur í Egyptaland.

18. Þar fyrir leiddi hann fólkid í kríng á þann veg í gégnum eydimørkina út med b) því rauda hafi. Og Ísraels børn fóru vopnud af Egyptalandi.

b) Rauda haf: Grískir kalla þad: Þad rauda haf, af þeim rauda sandi og grunni, sem þar er, en þeir Ebresku kalla þad sefs sjó, vegna þess sefs sem þar vex.

19. Og Móses tók Jósephs bein út med sér, því ad hann hafdi tekid einn eid þar uppá af Ísraels børnum, og sagt: Gud mun vitja ydar, því færid mín bein burt med ydur.

20. Svo reistu þeir út frá Suchoth og settu sínar herbúdir í Etham, fremst í eydimørkinni.

21. Og Drottinn gékk fyrir þeim á deginum í * einum skýstólpa, og leiddi þá réttleidis, og á nóttunni í einum eldstólpa, og lýsti þeim ad reisa bædi dag og nótt. * 1 Cor. 10, 1.

22. Sá skýstólpi veik ekki frá fólkinu á deginum, ei heldur eldstólpinn á nóttunni.

## 14. Kapituli.

1.) Ísraels børn ferdast til hafsins rauda; 2.) Þeir Egyptsku fyrirfarast í hafinu.

1.) Og Drottinn mælti vid Mósen, og sagdi:

2. Tala þú til Ísraels barna, og seg þú þeim ad þeir snúi aptur, og setji sínar herbúdir hjá þeim dal Hiroth, sem liggur millum Migdol og sjáfarins, gégnt Baal-zephon, og setji sínar herbúdir þar þvert yfir frá, hjá sjónum.

3. Því Pharao mun segja um Ísraels

børn: þeir fara villt í landinu, eydimørkin hefur ínnibyrgt þá.

4. Og eg vil forherda hans hjarta, svo ad hann skal eptirfør veita þeim. Og eg vil vinna prís á Pharaoni, og á allri hans makt. Og Egyptskir skulu reyna, ad eg er Drottinn. Og þeir gjørdu svo.

5. Og sem Kóngur Egyptalands frétti þad ad fólkid var burt flúid, þá umsnérist hjarta hans og hans þénara, vid fólkid, og søgdu: því høfum vér þad gjørt, ad vér leyfdum Ísrael ad fara í burt, svo ad þeir þjóni oss ekki?

6. Og hann lét spenna fyrir sína vagna, og tók sitt fólk med sér.

7. Hann tók sex hundrud útvaldra vagna, og hvad annad af vøgnum var í Egyptalandi, og hershøfdíngjana yfir allann sinn her.

8. Því Drottinn herdti Pharaonis hjarta, Kóngsins af Egyptalandi, svo ad hann sókti eptir Ísraels børnum. En Ísraels børn voru útgengin med upprèttri hendi.

9. Svo sóktu nú þeir Egyptsku eptir þeim, med hestum, vøgnum, og riddaralidi, og med allann Pharaonis her, og nádu þeim vid hafid, þar sem þeir høfdu sett sínar herbúdir, í dalnum Hiroth, gégnt Baal-zephon.

10. Og þá Pharao nálgadist þá, þá upphófu Ísraels børn sín augu, og sjá! þá komu þeir Egyptsku, sækjandi eptir þeim. Og þeir óttudust hardla mjøg, og kølludu til Drottins.

11. Og søgdu til Mósen: voru þar ekki grafir í Egyptalandi, ad þú þurftir leida oss burt til þess ad deya hér í eydimørku? Því gjørdir þú oss þetta, ad þú leiddir oss af Egyptalandi?

12. Er þad ekki þad sem vér søgdum til þín í Egyptalandi: lát oss vera kyrra, og þjóna heldur Egyptskum, þvíad betra er vær þjónum þeim, enn ad vér deyum í eydimørku?

13. Þá sagdi Móses til lýdsins: óttist ekki, standid stødugir, og sjáid hvílíkt frelsi Drottinn mun láta í dag vid ydur framm koma. Þvíad Egyptska menn þessa sem þér sjáid í dag, þá munud þér ekki sjá meir ad eilífu.

14. Drottinn mun berjast fyrir ydur, þér skulud vera kyrrir.

15. Drottinn mælti vid Mósen: því a) kallar þú til mín? seg þú til Ísraels barna, þeir ferdist áfram.

a) Kallar þú: sérlegt dæmi, hvernig trúin strídir, kveinar og hrópar í neyd og voda, og hvernig hún heldur sig einúngis til Guds ords, og fær huggun af Gudi, og yfirvinnur.

16. En upphef þú þinn staf, og rétt hønd þína yfir sjóinn, og skiptu honum í sundur, svo ad Ísraels børn megi gánga þar í gégnum á þurru.

17. Sjá! eg vil forherda hjarta Egyptskra manna, svo ad þeir skulu fara eptir ydur, svo vil eg vinna prís á Pharaoni, og á allri hans makt, vøgnum, og riddaralidi.

18. Svo ad Egyptskir skulu reyna, ad eg er Drottinn, nær eg hefi unnid prís á Pharaoni, og hans vøgnum, og riddaralidi.

19. Þá upptók sig Guds Eingill, sá sem gékk undan Ísraels her, og hann fór til baka vid þá, og sá skýstólpi tók sig og svo frá þeirra augliti, og gékk á bak vid þá.

20. Og kom í millum herlids þeirra Egyptsku, og Ísraels hers. En þad var eitt myrkt ský upplýsandi nóttina, svo þessir og hinir kunnu ei ad komast til samans alla þá nótt.

2.) 21. Nú sem Móses útrétti sína hønd yfir hafid, þá lét Drottinn þad í burt hverfa fyrir einn sterkann austanvind, alla þá nótt, og gjørdi sjóinn þurrann, og vatnid brast í sundur.

22. Og Ísraels børn * gengu inn midt í hafid á þurru. Og vatnid var þeim sem múrveggur til hægri og vinstri handar. * 1 Cor. 10. 1. Ebr. 11, 29.

23. Þeir Egyptsku sóktu eptir, og gengu inn midt í hafid eptir þeim, allir hestar Pharaonis, vagnar hans, og reidmenn.

24. En þá morgunvakan kom, þá leit Drottinn yfir her Egyptskra, af eldstólpanum og skýinu, og skaut skélk í herlid þeirra.

25. Og lét þeirra vagna gánga af hjólunum og kollkastadi þeim hastarlega. Þá søgdu Egyptskir: flýum frá Ísrael, Drottinn strídir fyrir þá móti Egyptskum.

26. Þá sagdi Drottinn vid Mósen: réttu út þína hønd yfir hafid, svo ad vatnid falli aptur yfir þá Egyptsku, yfir þeirra vagna og riddaralid.

27. Svo útrétti Móses sína hønd yfir sjóinn,
og sjórinn féll aptur í sinn farveg, ádur enn dag-
adi, og kom í mót þeim Egyptsku, þá þeir flýdu.
Svo steypti Drottinn þeim midt í midju hafi.
28. Og vatnid kom aptur, og huldi bædi
vagna og riddara, og alla Pharaonis makt,
sem farid hafdi eptir þeim, í hafid, svo þar
vard ekki einn eptir af þeim.
29. En Israels børn gengu þurrum fótum
midt í gégnum hafid, og vatnid stód þeim sem
múrveggur til hægri og vinstri handar.
30. Svo leysti Drottinn Israel á þeim degi
frá Egyptskra manna hendi. Og þeir sáu þá
Egyptsku liggja dauda í fjørunni.
31. Og þá volduga hønd sem Drottinn hafdi
audsýnt á þeim Egyptsku. Og fólkid óttadist
Drottinn, og trúdi honum og hans þjón Móse.

## 15. Kapituli.

1.) Lofsaungur Móses; 2.) Þad beiska vatn verdur sætt.

1.) Þá saung Móses og Israels børn Drottni
þennann lofsaung, og søgdu: Eg vil lofsýngja
Drottni, því hann hefur gjørt eitt dásemdar verk,
hestum og vøgnum hefur hann í hafid nidur steypt.
2. Drottinn er minn stirkur, og lofsaungur,
og hann er mitt hjálpræði, hann er minn Gud,
hann vil eg prísa, hann er míns fødurs Gud,
hann vil eg upphefja.
3. Drottinn er sá rétti strídsmann, Drott-
inn er hans heiti.
4. Hann kastadi Pharaonis vøgnum, og hans
makt nidur í hafid. Hans útvaldir høfdíngjar
sukku í hafinu rauda.
5. Og undirdjúpid huldi þá, þeir sukku til
botns sem steinar.
6. Drottinn! þín hægri hønd gjørir miklar
dásemdir, Drottinn! þín hægri hønd sló nidur
fjandmennina.
7. Þú kollvarpadir þínum mótstødumønnum,
med þinni mikilli dýrd, því þá þú létst lausa
þína reidi, þá fortærdi hún þeim svo sem stráum.
8. Þá þú blést gaf vatnid sig upp, og vatns-
føllin stódu sem ønnur hrúga, og undirdjúpin
veltu upp vatninu midt í sjónum.
9. Ovinurinn hugsadi: eg vil sækja eptir þeim
og høndla þá, og skipta herfángi, og sedja reidi
mína á þeim. Eg vil rikkja mínu sverdi, og mín
hønd skal fordjarfa þá.
10. Þá létstu þinn vind blása, og sjórinn huldi
þá, og þeir sukku nidur sem blý í miklum
vatnsføllum.
11. Drottinn! hver er þinn líki á medal Gud-
anna? hver er þinn líki, sem svo er máttugur, hei-
lagur, hrædilegur, loflegur, og svo dásamlegur
í sínum verkum sem þú?
12. Þá þú útréttir þína hægri hønd, þá
gleipti jørdin þá.
13. Þú hefur leidt þitt fólk med þinni misk-
unsemd, sem þú hefur endurleyst, og hefur leidt
þá med þínum stirk, til þíns heilaga bústadar.
14. Þá þjódirnar heyrdu þad, þá bifudust
þær, og ángist kom yfir Philisteos.
15. Þá urdu hræddir høfdíngjar Edom, og
þeir voldugu í Moab skulfu, og allir innbygg-
jarar í Canaan urdu duglausir.
16. Lát hrædslu og ótta falla yfir þá, fyr-
ir þinn sterka arm, ad þeir stirdni sem steinar,
þar til þitt fólk, Drottinn! er framm hjá kom-
id, þar til þitt fólk er framm um komid, þad
sem þú hefur útvegad.
17. Leid þá þar inn, og gródurset þá, upp
á þínu erfdafjalli, sem þú, Drottinn! gjordir
þér til eins heimilis, til þíns helgidóms, Drott-
inn! sem þín hønd hefur tilreidt.
18. Drottinn mun Kongur vera, um aldir
og ad eilífu.
19. Því Pharao dró inn í hafid med hest-
um, vøgnum, og riddaralidi, og Drottinn lét
hafid falla aptur yfir þá. En Israels børn
gengu á þurru, midt í gégnum hafid.
20. Og María spákona, systir Arons, tók eina
bumbu í sína hønd, og kvinnurnar allar út ept-
ir henni í dans med bumbum.
21. Og María saung fyrir þeim, látum oss
lofsýngja Drottni, því hann hefur gjørt einn
dýrdlegann gjørníng, og nidurkastadi manni og
hesti í hafid.
2.) 22. Og Móses lét Israels børn ferdast
burt frá hafinu rauda, til þeirrar eydimerkur

Sur, þar gengu þeir þrjá daga í eydimørku, og
fundu ekkért vatn.
23. Þá komu þeir til Mara, en þeir gátu ekki
drukkid af vatninu í Mara, því þad var mjøg
beiskt, þar fyrir kalla menn þann stad Mara.
24. Þá møgladi fólkid mót Móse, og sagdi:
hvad skulum vér drekka?
25. En hann kalladi til Drottins, og Drott-
inn vísadi honum til eins trés, því kastadi hann
í vatnid, og vatnid vard sætt. Þar setti hann
þeimløg og rétt og freistadi þeirra.
26. Og sagdi: ef ad þú hlýdir røddu Drott-
ins Guds þíns, og gjørir þad sem rétt er fyrir
honum, og ef þú lætur hans bodord þér í eyr-
um loda, og heldur allar hans skikkanir, þá vil eg
engann af þeim sjúkdómum leggja upp á þig,
sem eg lagdi á Egyptaland, þvíad eg er Drott-
inn þinn grædari.
27. Og þeir komu til Elim, þar voru tólf
vatnsbrunnar, og sjøtíu pálmvidartré, og þeir
settu þar sínar herbúdir hjá vøtnunum.

## 16. Kapítuli.

1.) Vaktalar. 2.) Himnabraud.

1.) Sídan fóru þeir frá Elim, og allur
mannfjøldi Israels barna, til þeirrar eydimerk-
ur Sin, sem liggur á millum Elim og Sínaí,
á fimmtánda degi í þeim ødrum mánudi, ept-
ir þad þeir voru burtfarnir af Egyptalandi.
2. Og allur søfnudur Israels barna møgl-
adi í mót Móse og Aron, í eydimørkinni.
3. Og søgdu: Gud gjæfi vér hefdum dáid,
fyrir Drottins hønd, í Egyptalandi, þá vér
sátum þar yfir kjøtkøtlum, og høfdum gnægd
brauds ad eta. Því þar fyrir hafid þér leidt
oss út á þessa eydimørk, ad þér vildud láta
allann almúgann deya af sulti.
4. Þá mælti Drottinn vid Mósen: sjá! eg
vil láta rigna braudi af himni til ydar, og
fólkid skal fara út ad safna hvern dag, svo
mikid sem þad þarf til atvinnu á þeim degi,
svo ad eg reyni, hvert þad gengur eptir mínum
bodordum, edur ekki.
5. En á sjøtta degi skulu þeir búa sig til ad
safna tvøfaldt svo mikid þann dag, sem þeir ann-
ars pløgudu saman ad safna daglega.
6. Móses og Aron søgdu til Israels barna:
í kvøld skulud þér vita ad Drottinn hefur útleidt
ydur af Egyptalandi.
7. Og á morgun skulud þér sjá Drottins
dýrd, þvíad hann hefir heyrt ydvarn kur í gégn
Drottni. Hvad érum vid, ad þér møglid í gégn
okkur?
8. Móses sagdi framarmeir: Drottinn skal
gefa ydur kjøt ad eta í kvøld, en nóg braud á
morgun, þvíad Drottinn hefir heyrt ydvart møgl,
sem þér møglad hafid í gégn honum, því hvad
erum vid? þér møglid ekki í gégn okkur, heldur í
gégn Drottni.
9. Og Móses sagdi til Arons: seg til Israels
barna samkundu: komid hér framfyrir Drottinn,
því hann heyrdi ydvart møgl.
10. Og sem Aron taladi þetta til allra Isra-
els barna samkundu, þá snéru þeir sér í móti
eydimørkinni, og sjá! þar sást dýrd Drottins í
einu skýi.
11. Og Gud sagdi til Mósen:
12. Eg hefi heyrt møgl Israels barna, seg
þeim: í kvøld skulud þér fá kjøt ad eta, en á
morgun skulud þér sedjast af braudi, og þér skul-
ud vita ad eg er Drottinn ydar Gud.
2.) 13. Ad aptni komu a) Vaktalar, og huldu
herbúdirnar. En ad morgni lá þar héla allt
umkríng herbúdirnar.

a) Vaktalár: edur *Coturnices*. Þad fugla kyn er
ókénnt med oss.

14. En þegar hélan var burtu, sjá! þá lá
þar á eydimørkinni (nokkud) kringlótt og lítid,
þvílíkast sem hrímfrost á jørdu.
15. En þegar Israels børn sáu þad, sagdi
hver til annars: þad er * Man b), því þeir
vissu ekki hvad þad var. Þá sagdi Móses til
þeirra: þad er þad braud sem Drottinn hefir
géfid ydur ad eta. * Jóh. 6, 31. 1 Cor. 10, 3.

b) Man: þýdir á Ebresku eina gáfu, og merkir
þad, ad Evangelíum verdi oss géfid af himnum
án vorrar forþénustu og þánka, af eintómri nád,
eins og Man var géfid.

16. En þetta er Guds skipan, safni hver þar
af, svo mikid sem hann hefir þørf til ad eta, og

taki einn Gomor fyrir sérhvert höfud, eptir sálnanna tali, sem hann hefir í sinni tjaldbúd.

17. Og Israels börn gjördu svo, og samansöfnudu sumir meira en sumir minna.

18. En þá þad var mælt med Gomor, þá * fékk sá ekkért afhlaups sem meira hafdi safnad, sá og ekki midur sem minna hafdi safnad, heldur hafdi hver safnad svo miklu sem hann þurfti sér til atvinnu. * 2 Cor. 8, 15.

19. Og Móses sagdi til þeirra: enginn skal leifa þar nokkud af til morguns.

20. En þeir hlýddu ekki Móse, sumir dróu af og leifdu til annars dags, en þad vall mödkum, og úldnadi. Þar fyrir vard Móses reidur vid þá.

21. Svo söfnudu þeir hvern morgun þar af, svo mikid sem hver kunni ad eta, en þá sólin skein heitt þá brádnadi þad.

22. Á þeim sjötta degi söfnudu þeir tvöföldu braudi, já! tveimur Gomor fyrir sérhvern einn. Svo geingu allir þeir yppurstu af safnadinum til Mósen, og gjördu honum þad kunnugt.

23. Þá sagdi hann til þeirra: þad er þad sem Drottinn sagdi: á morgun er þad Sabbaths dagur heilagrar hvíldar c) Drottins, hvad þér viljid baka, þad bakid, og hvad þér viljid matgjöra, þad matgjörid, en allt þad sem afgángs er, þad látid vera, svo þad megi geyma til morgunsins.

c) Sabbaths dagur: Sabbath þýdist hvíld, því er þad eitt, Sabbaths dagur, og hvíldar dagur.

24. Svo létu þeir þad vera til morguns, svo sem Móses baud þeim, og þad úldnadi ekki, og eigi madkadi þad.

25. Þá sagdi Móses: etid þad í dag, þvíad í dag er Drottins Sabbath, á þessum degi finnid þér þad ekki á mörkinni.

26. Sex daga skulud þér safna því, en sá sjöundi dagur er Sabbaths dagur, og á þeim degi finnst þad eigi.

27. En á þeim sjöunda degi, gengu nokkrir af fólkinu út, ad safna því saman, en þeir fundu ekkért.

28. Þá sagdi Drottinn vid Mósen: hversu lengi tregdist þér vid ad vardveita mitt lögmál, og mín bodord?

29. Sjá! Drottinn hefir géfid ydur Sabbaths daginn, og þar fyrir géfur hann ydur á þeim sjötta degi tveggja daga fædslu, því skal hver einn vera heima á sínu heimili, og enginn fara út af sínum stad, á þeim sjöunda degi.

30. Svo hélt fólkid þann sjöunda dag.

31. Og Israels hús kalladi þetta Man, og þad var líka sem Coriander fræ, og hvítt, og þess smekkur var svo sem hveitisalla med hunángi.

32. Og Móses sagdi: þetta er þad sem Drottinn baud: fyllid einn Gomor þar af, svo ad þad geymist fram til ydar eptirkomenda, svo ad menn megi sjá þad braud, med hverju eg fæddi ydur á eydimörku, þá eg útleidda ydur af Egyptalandi.

33. Og Móses sagdi til Aron: tak þér eina fötu, og legg einn Gomor fullann af Man þar í, og lát þad vardveitast fyrir Drottni til ydar eptirkomenda.

34. Svo sem Drottinn baud Móse, svo lét Aron þad sama vardveitast, hjá d) vitnisburdinum.

d) Vitnisburdinum: þad er: í þeim stad sem menn offrudu og gjördu bænir sínar, og prédikad var, ádur enn tjaldbúdin var gjörd.

35. Og Israels börn átu Man í fjörutíu ár, þángad til þeir komu í þad land þar sem þeir skyldu búa, þeir átu og Man þar til þeir komu í landamerki Canaanslands.

36. En einn Gomor er tíundi partur Epha.

## 17. Kapituli.

1.) Israels börn drekka vatn af steininum; og 2.) sigra Amalekita.

1.) Og sá allur almúgi Israels barna fór úr eydimörku Sin, þeirra dagleid, sem Drottinn baud þeim, og settu sínar herbúdir í Raphidim, þar fékk fólkid ekkért vatn ad drekka.

2. Og þeir þráttudu vid Mósen og sögdu: géf oss vatn ad drekka. Móses sagdi til þeirra: því þráttid þér svo gégn mér, því freistid þér Drottins?

3. Og þá fólkid þyrsti svo eptir vatninu, þá mögladi þad í gégn Móse og sagdi: hvar fyrir létstu oss fara af Egyptalandi, til þess, ad þú lætur nú vor börn og fénad deya hér af þorsta?

4. Þá kalladi Móses til Drottins, og sagdi:

hvad skal eg gjøra vid þetta fólk? innan skamms munu þeir lemja mig grjóti.

5. Drottinn sagdi til hans: gakk fram undan fólkinu, og tak nokkra af øldúngum Israelis med þér, og tak þinn staf í þína hønd, med hverjum þú slóst á vatnid, og gakk af stad.

6. Sjá! eg vil þar standa fyrir þér, yfir einum steini í Horeb, ljósta þú med stafnum á *) steininn, þá skal renna vatn af honum, svo ad fólkid drekki. Og Móses gjørdi svo, fyrir øldúngum Israelis. *) 1 Cor. 10, 4.

7. Og menn kølludu þann stad Massa og Meriba, a) vegna þráttanar Israelis barna, og þar fyrir, ad þeir høfdu svo *) freistad Drottins, og sagt: hvert mun Drottinn vera á medal vor, eda eigi? *) Ebr. 3, 8. 9.

a) Massa merkir freistíng. Meriba þráttan.

2. 8. Þá kom Amalech, og héllt orustu vid Israel í Raphidim.

9. Og Móses sagdi vid Jósúa: útvel oss lid, far út og berst vid Amalech, en eg vil standa efst uppá fjallinu á morgun, og hafa Guds staf í minni hendi.

10. Og Jósúa gjørdi svo sem Móses sagdi honum, og bardist vid Amalech. En Moses, Aron og Hur geingu efst uppá fjallid.

11. Og alla þá stund sem Móses héllt sínum høndum upp, þá vann Israel, en þá hann lét sínar hendur nidur síga, þá vann Amalech.

12. En Móses hendur voru þúngar, þar fyrir tóku þeir einn stein, og létu undir hann, og hann setti sig þar uppá. En Aron og Hur studdu hans hendur, sinn á hverja hlid, og hans hendur mæddust ekki allt til sólarfalls.

13. Og Jósúa lægdi Amalech, og hans fólk med hvøssu sverdi.

14. Og Drottinn sagdi til Mósis: skrifa þú þetta í bók til minnis, og bjód þad eyrum Jósúa, því ad eg vil svo afmá Amalech undir himninum, ad einginn minnist leingur á hann.

15. Og Móses byggdi þar eitt altari, og kalladi þad Drottins, Nissi b).

b) Nissi: þýdist mitt strídsmerki.

16. Því hann sagdi: þetta er eitt teikn hjá Drottins hásæti, ad Drottinn muni berjast móti Amalech frá barni til barnabarna.

## 18. Kapituli.

*Jethro gefur Móse eitt gott rád.*

Nú sem Jethro kénnimadur af Madian, mágur Mósis, heyrdi allt þad sem Gud hafdi gjørt Móse og sínu fólki Israel, hversu ad Drottinn hafdi útleidt Israel af Egyptalandi.

2. Þá tók hann Zephora Mósis kvinnu, hverja hann hafdi aptur sendt.

3. Og tvo hennar sonu, enn fyrsti hét Gersom, því hann sagdi: eg var einn géstur í framandi landi.

4. Og sá annar Eliesér, því hann sagdi: míns Fødurs Gud hefur verid mín hjálp, og hefur vardveitt mig frá sverdi Pharaonis.

5. Og sem Jethro, mágur Mósis, kom, og hans synir og kvinna, í eydimørkina til hans, þar sem hann hafdi sett sínar herbúdir, hjá Guds fjalli.

6. Þá lét hann segja Móse: eg Jethro, mágur þinn, er kominn til þín, og þín kvinna, og bádir hennar synir med henni.

7. Þá gékk Móses út í móti honum, og laut honum, og mynntist vid hann. Og er þeir høfdu heilsast, þá geingu þeir inn í tjaldbúdina.

8. Móses kunngjørdi sínum mági allt þad sem Drottinn hafdi gjørt Pharaoni, og þeim Egypskum fyrir Israels skuld, og svo allt þad erfidi, sem þeir høfdu haft í ferdinni, og hvernin Drottinn hafdi frelsad þá.

9. Þá gladdist Jethro fyrir alla þessa góda hluti, sem Drottinn hafdi gjørt Israel, og frelsad þá af Egyptskra manna hendi.

10. Og Jethro sagdi: blessadur sé Drottinn, sem ad frelsadi ydur af Egyptskra manna hendi, og af hendi Pharaonis, hann kann ad frelsa sitt fólk af Egyptskra manna hendi.

11. Nú veit eg, ad Drottinn er meiri enn allir adrir gudir, þar fyrir, ad þeir frømdu drambsemi mót þeim.

12. Og Jethro, Mósis mágur, tók brennifórnir, og offradi Gudi. Þá kom Aron, og þeir allir øldúngar Israels, ad eta braud med mági Mósis fyrir Gudi.

13. Og annars dags setti sig Móses til ad dæma fólkid, og fólkid stód fyrir honum, frá morgni til aptans.

14. Þegar hans mágur sá allt það hann gjørði við fólkið, þá sagði hann: hvað er það þú gjørir við fólkið? því situr þú alleina, og allt fólkið stendur fyrir þér frá morgni og til kvølds?

15. Móses svaraði honum: fólkið kémur til mín og leitar Guðs atkvæðis.

16. Því nær nokkur mál gjørast þeirra á milli, þá koma þeir til mín, að eg dæmi um þær sakir sem til falla á milli sérhvers manns, og hans náúnga, og að eg kénni þeim Guðs setnínga, og hans løgmál.

17. Hans mágur mælti til hans: það er ei gott sem þú gjørir.

18. Þetta erfiði gjørir þig þreyttann, og það fólk sem með þér er, sú yðja er þér ofþúng, þú mátt því ekki einsamann af stað koma.

19. Þar fyrir hlýð minni røddu, eg vil leggja þér ráð, og mun Guð vera með þér. Annast þú fólkið í því sem Guði til kémur, og ber framm þeirra málefni fyrir Guð.

20. Set þeim løg og rétt, kénn þeim veginn sem þeir skulu gánga, og þau verk sem þeir skulu gjøra.

21. En sjá þig um á meðal alls fólksins, eptir nokkrum valinkunnum mønnum, sem óttast Guð, og eru sannorðir, og hata ágyrnd, og set þessa yfir þá, suma yfir þúsund, suma yfir hundrað, suma yfir fimmtíu, og suma yfir tíu.

22. Að þeir ætíð dæmi fólkið. En sé þar nokkur stór mál, þá lát þau koma fyrir þig, en lát þá dæma øll ønnur smærri mál, svo verður þér þetta léttbærara, þegar þeir bera með þér.

23. Ef þú vilt nú þetta gjøra, þá kanntu að framkvæma það sem Guð býður þér, svo má og allt þetta fólk koma með friði til sinna heimkynna.

24. Móses hlýddi orðum síns mágs, og gjørði allt það sem hann sagði.

25. Og útvaldi fróma menn af øllum Ísrael, og setti þá til høfðíngja yfir fólkið, suma yfir þúsund, suma yfir hundrað, suma yfir fimmtíu, og suma yfir tíu.

26. Að þeir skyldu alltíð sitja dóma yfir fólkinu. En øllum stór-málum skyldu þeir skjóta til Mósen, en þeir sjálfir skyldu dæma øll smærri mál.

27. Svo lét Móses sinn mág ferðast heim aptur í sitt land.

## 19. Kapítuli.

Undirbúníngur til að heyra Guðs løgmál.

Á þriðja mánuði eptir það sem Ísraels børn voru útgeingin af Egyptalandi, þá komu þeir á þeim degi í eyðimørku Sínaí.

2. Því þeir ferðuðust frá Raphidim, og vildu til eyðimerkur Sínai, og þeir settu sínar herbúðir í sama stað í eyðimørkinni, gégnt fjallinu.

3. En Móses gékk upp til Guðs. Og Drottinn kallaði hann af fjallinu og sagði: svo skaltu segja til Jakobs húss, og kunngjøra Ísraels børnum.

4. Þér hafið séð hvað eg gjørði þeim Egyptsku, og hverninn eg hefi borið yður á arnarvængjum, og tekið yður til mín.

5. Ef þér viljið hlýða minni røddu, og halda minn sáttmála, þá skuluð þér vera mín eigin eign, af øllu fólki, því øll jørðin er mín.

6. Og þér skuluð vera mér eitt *) kénnimannlegt Konúngs ríki, og eitt heilagt fólk. Þessi eru þau orð sem þú skalt segja Ísraels børnum. *) 1 Pét. 2, 9.

7. Móses kom, og kallaði saman øldúnga lýðsins, og lagði framm fyrir þá øll þessi orð, sem Drottinn hafði boðið.

8. Þá svaraði allur lýðurinn undir eins, og sagði: allt það sem Drottinn hefur sagt, það viljum vér gjøra. Og Móses sagði Drottni aptur orð fólksins.

9. Þá sagði Drottinn til Mósis: sjá! eg vil koma til þín í einu þykkvu skýi, uppá það að fólkið megi heyra mín orð, þau sem eg tala við þig, og trúi þér æfinlega síðan. Og Móses sagði Drottni frá orðum lýðsins.

10. Og Drottinn mælti við Mósen: far til fólksins, og helgaðu það í dag og á morgun, að þeir þvoi sín klæði.

11. Og séu búnir á þriðja degi, því að á þeim þriðja degi mun Drottinn ofan stíga yfir Sínaí fjall, fyrir øllu fólki.

12. Settu fólkinu eitt takmark umhverfis fjallid, og seg þú til þeirra: varid ydur, ad þér gángid ekki uppá fjallid, og komid ekki heldur ytst vid þad, því *) hver sem kémur vid fjallid, hann skal dauda deya. *) Ebr. 12, 20.

13. Eingin manns hønd skal snerta hann, heldur skal hann med grjóti lemjast eda med skotum í hel skjótast, hvert þad er heldur madur eda kvikindi, þá skal þad ekki lifa, en þegar blásid er í básúnid, þá skulu þeir fara til fjallsins.

14. Og Móses gékk ofan af fjallinu til fólksins, og helgadi þad, og þeir þvodu sín klædi.

15. Hann sagdi til þeirra: verid búnir á þeim þridja degi, og komid ekki nær kvinnum.

16. Og þegar sá þridji dagur kom, og ljóst var ordid, þá komu reidarþrumur, og eldíngar, og eitt þikkt ský á fjallid, og lúdursins hljód vard ákaflega sterkt, svo allt fólkid vard hrædt, þad sem var í herbúdunum.

17. Og Móses leiddi fólkid út af herbúdunum í móts vid Gud, og þad stód undir fjallinu.

18. En allt Sínaí fjall rauk, þvíad Drottinn fór ofan yfir fjallid med eldi, og einn reykur gékk upp af því, svo sem reykur af ofni, og allt fjallid skalf ógurlega.

19. Og lúdursins hljód vard stærra og stærra. Móses taladi, og Gud svaradi honum hátt.

20. Og sem Drottinn var ofan kominn yfir fjallid Sínaí, á efsta hvirfil fjallsins, kalladi hann Mósen efst uppá fjallid, og Móses gékk upp.

21. Þá sagdi Drottinn til hans: far þú ofan, og vitna fyrir fólkinu, ad þad brjótist ekki híngad til Drottins, ad sjá hann, svo ad eigi falli fjøldi af þeim.

22. En prestarnir sem gánga til Drottins, þeir skulu helga sig, svo ad Drottinn ljósti þá ekki.

23. Og Móses sagdi til Drottins: fólkid mun ekki stíga uppá Sínaí fjall, þvíad þú vottadir fyrir oss, og sagdir: settu eitt takmark umhverfis fjallid, og helga þad.

24. Drottinn sagdi til hans: far, og stíg ofan, þú, og Aron med þér, skulud stíga upp, en kénnimennirnir og fólkid skulu ekki framm brjótast ad stíga upp til Drottins, svo hann ekki skadi þá.

25. Og Móses gékk ofan til fólksins, og bodadi því þetta.

## 20. Kapítuli.

Móses fær þau heilogu tíu-laga bodord Guds.

Og Drottinn taladi øll þessi ord.

2. Eg er Drottinn þinn Gud, sem útleiddi þig af Egyptalandi, af því þrældóms húsi.

3. Þú skalt ekki hafa annarlega Gudi fyrir mér.

4. Þú skalt eingin bílæti gjøra þér, eda nokkra líkíng, eptir því sem er á himnum uppi, eda á jørdu nidri, eda því sem er í vøtnunum undir jørdunni.

5. Þú skalt ekki tilbidja þau, og eigi þjóna þeim, því eg er Drottinn þinn Gud, einn vandlætandi Gud, vitjandi ránglætis fedranna á børnunum, í þridja og fjórda lid, þeirra sem mig hata.

6. En gjørandi miskunsemd á mørgum þúsundum, þeim sem mig elska, og mín bodord vardveita.

7. Þú skalt ekki vanbrúka Drottins þíns Guds nafn, því ekki mun Drottinn óhegndann vera láta þann sem misbrúkar hans nafn.

8. Minnst þú á Sabbats daginn, ad þú helgir hann.

9. Sex daga skaltu erfida, og vinna alla þína a) vinnu.

a) Vinnu: þad er: allt hvad þú hefur ad gjøra.

10. En sá sjøundi dagur er Drottins þíns Guds Sabbats dagur, þá skalt þú ekkért verk vinna, hverki þinn sonur, ei heldur þín dóttir, eigi þinn þræll, eigi þín ambátt, eigi þitt kvikfé, eigi heldur nokkur útlendskur, sem er innan þinna borgarhlida.

11. Því ad á sex døgum gjørdi Drottinn himin og jørd, og sjóinn, og allt þad sem þar inni er, og hann hvíldist þann sjøunda dag, þar fyrir blessadi Drottinn Sabbats daginn, og helgadi hann.

12. *) Þú skalt heidra þinn fødur, og þína módur, svo þú lánglífur verdir í því landi sem

Drottinn Gud þinn gefur þér. *) Matth. 15, 4. Kap. 19, 19. Marc. 7, 10. Lúc. 18, 20. Eph. 6, 2.

13. *) Þú skalt ekki í hel slá. *) Matth. 15, 21. Kap. 19, 18.

14. *) Þú skalt ekki hórdóm drýgja. *) Matth. 5, 27. Kap. 19, 18.

15. *) Þú skalt ekki stela. *) Matth. 19, 18.

16. *) Þú skalt ekki bera falskann vitnisburd móti þínum náúnga. *) Matth. 19, 18.

17. *) Þú skalt ekki gyrnast þíns náúnga hús. Þú skalt ekki gyrnast þíns náúnga kvinnu, eigi hans þræl, eigi hans ambátt, eigi uxa edur asna, eda nokkud það sem hans er. *) Róm. 7, 7. Kap. 13, 19.

18. Og allt fólkid sá reidarþrumur, og eldíngarnar, og hljód lúdursins, og fjallid rjúkanda. *) Og sem þeir sáu þetta, þá b) flýdu þeir, og geingu lángt í burtu. *) Ebr. 12, 19.

b) (Flýdu) lögmálid einúngis hrædir mann og rekur hann frá Gudi.

19. Og sögdu til Mósen: tala þú vid oss, vér viljum vera þér hlýdugir, og lát Gud ekki tala vid oss, annars deyum vér.

20. Móses sagdi til fólksins: óttist ekki, því Gud er kominn til þess, ad hann vildi reyna ydur, og ad hans ótti sé fyrir ydrum augum, svo ad þér syndgist ekki.

21. Og fólkid stód lángt í burtu frá, en Móses gékk til þokunnar, í hverri Gud var.

22. Og Drottinn sagdi til hans: svo skaltu segja til Israels barna, þér hafid sjed, ad eg hefi talad vid ydur af himnum.

23. Þar fyrir skulud þér aungva gudi af silfri eda gulli gjöra ydur fyrir mér.

24. Þú skalt gjöra mér eitt altari af jördu, og þar uppá skaltu offra þinni brennifórn, og þakklætisfórn af þínum nautum og saudum. Því í hverjum stad sem eg skikka ad vera skuli minníng míns nafns, þángad vil eg koma til þín og blessa þig.

25. Viljir þú gjöra mér altari af steinum, þá skaltu ekki byggja það af höggnum steini, því látir þú hníf koma yfir það, þá saurgar þú það.

26. Þú skalt ekki gánga upp tröppur til míns altaris, svo ad þín blygdan opinberist þar ekki.

## 21. Kapituli.

Margskonar veraldleg lög um þjónustufólk, óhlýdin börn, þá sem stela mönnum burt. o. s. fr:

Þetta er sá lagaréttur sem þú skalt leggja fyrir þá.

2. Ef þú kaupir einn Ebreskann þræl, þá skal hann þjóna þér sex ár, en á því sjöunda ári skal hann fara frjáls og laus frá þér.

3. Komi hann ei kvongadur til þín, þá skal hann og ókvæntur fara frá þér.

4. En ef hann kémur kvongadur til þín, þá skal hans kona fara burt med honum. En ef hans herra hefur géfid honum eina konu, og hafi hún fædt sonu eda dætur, þá skal kvinnan og börnin heyra hans herra til, en hann skal fara burtu konulaus.

5. En ef þrællinn segir: eg elska minn herra, og svo mína kvinnu og börn, eg vil ekki vera frjáls.

6. Þá skal hans herra leida hann inn fyrir gudina, og halda honum vid dyrnar, eda vid dyrastafinn, og stínga í gégnum hans eyra med al, sídan skal hann vera hans þræll æfinlega.

7. Ef nokkur selur sína dóttur til ambáttar, þá skal hún ekki fara í burt svo sem þrælar.

8. Þóknist hún ekki sínum herra, og hann vill ekki hjálpa henni til eiginords, þá skal hann láta hana lausa. En ekki skal hann hafa vald til ad selja hana nokkrum útlendum mönnum, því hann forsmádi hana.

9. En ef hann hefur fastnad hana syni sínum, þá gjöri vid hana svo sem sína dóttur.

10. En ef hann giptir honum adra, þá skal hann ekki korta nokkud af hennar kosti, klædnadi og egtaskyldu.

11. En gjöri hann ekki þetta þrennt, þá skal hún med frelsi fara burt fyrir ekkért.

12. Hver hann lýstur mann, svo hann deyr, sá skal og dauda deya.

13. En hafi hann ekki setid um hans líf, heldur hefur Gud látid hann annars óforvarandis falla í hans hendur, þá vil eg setja þér einn stad, þángad sem hann skal flýa.

14. En ef nokkur misgjørir med drambsemi vid sinn náúnga, og vegur hann svikſamlega, þá skaltu taka hann frá mínu altari, svo hann deyi.

15. Sá sem lýstur sinn fødur eda módur, hann skal dauda deya.

16. Sá sem stelur manni, og selur hann, svo þad verdi uppvíst um hann, hann skal dauda deya.

17. * Sá sem bølvar fødur eda módur, hann skal dauda deya. * Matth. 15, 4. Mark. 7, 10.

18. Ef menn þráttast á, og annarhver lýstur annann med steini, eda knefa, og hann deyr þó ekki, heldur leggst í rekkju.

19. Ef hann rís upp, og gengur med staf úti, þá skal sá vera síkn saka sem hann sló, þó skal hann betala honum verkafall, og géfa læknislaun.

20. Ef nokkur lýstir sinn þræl eda ambátt med staf, svo hann deyr undan hans høndum, þá skal hann lída refsíng þar fyrir.

21. En ef hann lifir einn dag eda tvo, þadan af, þá skal hann ekki refsíngum mæta, því (þræll og ambátt) þad er hans peníngur.

22. Ef menn þráttast á, og lýstir nokkur kviduga konu, svo hún skilst vid hennar høfn, þó henni ad skadlausu, þá skal sá straffast med penínga gjaldi, eptir því sem þeirrar kvinnu madur leggur á hann, og dómendur dæma.

23. En hljótist skadi þar af, þá skal hann láta líf fyrir líf.

24. * Auga fyrir auga, tønn fyrir tønn, hønd fyrir hønd, fót fyrir fót. * Matth. 5, 38.

25. Bruna fyrir bruna, sár fyrir sár, bláma fyrir bláma.

26. Ef madur lýstur í auga á sínum þræl eda ambátt, svo þad fordjarfast, þá skal hann géfa honum frelsi fyrir hans auga.

27. Svo og líka, ef hann brýtur tønn úr þræli sínum eda ambátt, þá skal hann géfa honum frelsi fyrir sína tønn.

28. Ef uxi stángar mann edur kvinnu til bana, þá skal uxinn grýtast í hel, og ekki skulu menn eta hann, og þar med er eignarmadur uxans saklaus.

29. En hafi hann fyrr vanur verid ad stánga, og eignarmanninum var þad sagt, og hann lét ekki þadan í frá vardveita hann, og hann stángar mann eda kvinnu til bana, þá skal uxinn grýtast í hel, og hans eignarmadur skal deya.

30. En verdi honum tilsagt ad bæta med fé, þá skal hann géfa svo mikid fyrir sitt líf, sem honum verdur tilsagt.

31. Undir sama dómi skal hann liggja, hvert sem hann stángar son eda dóttur manns til bana.

32. En ef hann stángar nokkurs manns þræl edur ambátt, þá skal sá er á, géfa þeirra húsbónda þrjátíu Siclos silfurs a), og uxinn skal grýtast í hel.

a) Siclos: þad er: 15 aura silfurs.

33. Ef nokkur madur opnar gryfju, eda grefur grøf, og byrgir ei aptur, og fellur þar í uxi eda asni.

34. Þá skal sá sem gryfjuna gjørdi, betala annad aptur med peníngum, þeim er átti, en hafa sjálfur hid dauda.

35. Ef nokkurs manns uxi stángar annars uxa til bana, þá skulu þeir selja þann lifandi uxann, og skipta med sér þeim peníngum, og líka þeim enum dauda.

36. En hafi hann stángad fyrri, og vissi hann þad, og eignarmadur lét ei vardveita hann, þá skal hann gjalda uxa fyrir uxa, en hafa sjálfur þann dauda.

## 22. Kapituli.

*Móses segir framvegis frá veraldlegu løgmáli um þjófa, akur og víngard, etc.*

Ef madur stelur nauti edur saud, og slátrar því, eda selur þad, þá skal hann gjalda aptur fimm uxa fyrir einn, og fjóra saudi fyrir einn saud.

2. Ef þjófur verdur tekinn þá hann brýtst í hús, og verdur hann þar lostinn, svo hann deyr, þá skal enginn blóddómur gánga yfir vegandann.

3. En ef hann gjørir þad ad upprunninni sólu, þá skal blóddómur yfir veganda gánga. Þjófurinn skal skila því aptur, hafi hann ekkert, þá skal hann seljast fyrir sinn stuld.

4. En ef menn finna þad þjófstolna lifandi hjá honum, hvert heldur þad er naut, asni edur saudur, þá skal hann géfa þad tvøfaldt aptur.

5. Ef nokkur spillir akri edur víngardi, og lætur sinn fénad gjøra skada á annars akri, þá skal hann bæta skada aptur, af því bestu sem hann hefur á sínum akri, eda á sínum víngardi.

6. Ef eldur kviknar og kémur í þyrna, og brennir bindini, eda þad korn sem enn stendur á akri, þá skal sá skada bæta sem eldinn kveikti.

7. Ef nokkur selur sínum náúnga peninga edur ønnur þing til vardveitslu, og verdur þad stolid frá honum úr hans húsi, hittist þjófurinn, þá skal tvígjalda þad aptur.

8. En finnist þjófurinn ekki, þá skal húsbóndinn innleidast fyrir a) gudina, hvert hann hefur ekki lagt sína hønd á eign síns náúnga.

a) Gudina: Gudir kallast dómendur, þar fyrir, ad þeir í Guds stad, eptir Guds løgmáli og ordi, en ei eptir sínum þótta, dæma eiga, og drottna, svo sem Kristur ávísar, Jóh. 10, 35.

9. Ef nokkur géfur ødrum søk, fyrir nokkurskonar órétt, sé þad fyrir uxa eda asna, edur saud, eda klædi, eda fyrir nokkurn annann hlut, þann er horfid hefur, þá skal beggja þeirra málefni koma inn fyrir gudina, og hvern sem gudirnir dæma sakadann, sá skal tvígjalda þad aptur sínum náúnga.

10. Ef nokkur selur sínum náúnga til vardveitslu, annadhvert asna, uxa, saud, edur nokkud annad kvikfé, og þad deyr fyrir honum, eda lestist, eda hverfur burt frá honum, svo ad enginn sjer þad.

11. Þá skal þad koma til eins eids, fyrir Drottni, þeirra á millum, ad hann hafi ekki lagt sína hønd á eign náúnga síns, og þann eid skal eignarmadurinn taka, og sá annar skal ekki betala þad.

12. En ef þad er stolid í burt frá honum, þá skal hann betala eignarmanninum skadann.

13. En ef dýr bítur í hel, þá skal hann koma þar ad vitnum, og ekki betala.

14. Ef madur hefur fé til láns af sínum náúnga, og þad lemst, edur deyr, svo eignarmadurinn er ekki hjá, þad skal hann betala.

15. En sé eignarmadurinn þar hjá, þá skal hann ekki betala þad, því hann leigdi þad fyrir sína peninga.

16. Ef nokkur lokkar eina jómfrú, sem ekki er nokkrum manni handfest, og liggur hann hana, þá skal hann géfa henni hennar morgungáfu, og taka hana sér til eiginkvinnu.

17. En vilji hennar fadir ekki gipta honum hana, þá skal hann vega henni út svo mikid fé, sem meyanna morgungáfa plagar ad vera.

18. Ekki skaltu láta galdrakonuna lifa.

19. Hver sem samblandast fénadi, hann skal vissulega deya.

20. Hver sem fórnir færir ødrum gudum enn alleinasta Drottni, hann skal forbannast.

21. Þú skalt ekki féfletta né undirþrykkja þann útlenda, því ad þér hafid verid útlendir í Egyptalandi.

22. Þér skulud ekki mein gjøra ekkjum og fødurlausum børnum.

23. Ef gjørir þú þeim mein, þá munu þau kalla til mín, og eg vil bænheyra þeirra kall.

24. Þá mun grimd mín reidast, svo ad eg mun ljósta ydur í hel med sverdi, og eg mun láta ydar kvinnur verda ekkjur, og ydar børn fødurlaus.

25. Ef þú lánar mínu fólki peninga, því sem fátækt er, hjá þér, þá skaltu ekki þreyngja því til skada, eda leggja nokkurt okur uppá þad.

26. Ef þú tekur klædi í pant, af þínum náúnga, þá fá þú honum þad aptur fyrir sólarfall.

27. Því ad hans klædi er alleinasta hulníng hans líkama sem hann hefur í. En sé þad svo, hann kallar til mín, þá skal eg heyra hann, því ad eg er miskunsamur.

28. * Þú skalt ekki gudunum bøls bidja, og ekki lasta høfdíngjann á medal þíns fólks.
* Gjør. b. Post. 23, 5.

29. Þína a) fylli og tár b) skaltu ekki láta undan dragast. Þú skalt géfa mér þinn frumgétinn son.

a) Fylli: kallar hann allann hardann ávøxt, svo sem er: korn, epli, perur, sem menn hafa til matar.
b) Tár: kallar hann allann linann ávøxt, þar sem menn pressa saft og drykk af, svo sem vínber og olíuber.

30. Þad sama skaltu og gjøra af þínum nautum og saudum. Sjø daga skal þad vera hjá sinni módur, en þann áttunda dag skaltu géfa mér þad.

31. Þér skulud vera eitt heilagt fólk fyrir

mér, þar fyrir skulud þér ekkért kjøt eta sem slitid er af dýrum á akrinum, heldur kastid því fyrir hunda.

## 23. Kapítuli.

1.) Veraldleg løg um ljúgvótta, rángsnúna dóma; 2.) andleg løg um Sabbath, og þær þrjár stóru hátídir.

1.) Þú skalt ekki trúa raungum kjærumálum, og gjør ekki þeim ógudlega nokkra hjástod, svo ad þú berir falskt vitni.

2. Þú skalt ekki fylgja fjølmenntum hóp til íllgjørda, og svara þú ekki fyrir dómi, ad þú fylgir þeim sem fleiri eru og gángir svo frá réttinum.

3. Þú skalt ekki fegra þann fátæka í hans málefni.

4. Ef þú mætir þíns óvinar uxa edur asna, sem villt fer, þá leid þú hann strax aptur til hans.

5. Sjáir þú asna þíns óvinar liggja undir byrdi, vara þig, og lát hann ekki liggja, heldur a) forsóma gjarnan þitt eigid fyrir þad.

a) Forsóma: þad er: yfirgéf þitt eigid á medan, og bjarga þig.

6. Þú skalt ekki halla réttarfari hins fátæka, í hans søk.

7. Vertu lángt frá lognum søkum. Þú skalt ekki slá þann meinlausa og réttláta í hel, því eg álít ekki þann ógudlega.

8. Eigi skaltu gjafir þiggja, því ad gáfurnar blinda þá sjáandi, og umsnúa málefnum réttferdugra.

9. Þrykkid ekki nidur þeim framandi, því ad þér vitid vel hjørtu hinna útlendsku, þvíad þér hafid og verid útlendíngar á Egyptalandi.

10. Sex ár skaltu erja jørdina og sá, og samansafna ávøxtum jardar.

11. Þad sjøunda árid skal hún liggja og hvíla sig, svo ad þeir fátæku á medal þíns fólks megi eta þaraf, og hvad þar eptir verdur, þá lát villudýrin á mørkinni eta þad. Svo skaltu og gjøra vid þinn víngard, og vidsmjørsvidargard.

2.) 12. Sex daga skaltu erfida, en þann sjøunda dag skaltu halda helgann, svo ad þinn uxi og asni megi hvíla sig, og ad þinnar ambáttar sonur, og sá framandi megi endurnæra sig.

13. Allt hvad eg hefi sagt ydur, þad skulud þér halda. Og þér skulud ekki minnast á annara guda nøfn, og þeir skulu ekki heyrast af ydrum munni.

14. Þér skulud halda mér hátídir þrisvar á hverju ári, sem er, þá ósýrda braudsins hátíd.

15. Svo ad þú etir ósýrt braud á sjø døgum, á þeim mánudi Abib (sem eg baud þér) því þú fórst af Egyptalandi þá sømu tíd. En ei skulud þér koma med tómum høndum fyrir mitt auglit.

16. Og þá hátíd hins fyrsta kornskurdar ávaxtarins, sem þú sádir á akrinum, og þá innburdar hátíd, nær árid er úti, þá þú hefur innborid þitt erfidi af akrinum.

17. Þrisvar um árid skal allt þitt karlkyn byrtast fyrir drottnanda Drottni.

18. Þú skalt ekki fórnfæra mitt offurs a) blód med súrdeigi, og þad feita á minni hátíd skal ekki bída til morguns.

a) Blódid: þad er: þú skalt ekki sæfa Páskalambid, ádur enn allt súrt braud er burtkomid úr þínu húsi.

19. Þann fyrsta ávøxt af þínum jardar gróda skaltu bera í þíns Drottins Guds hús, þú skalt ekki matgjøra kidid, á medan þad sýgur sína módur.

20. Sjá! eg sendi einn Engil fyrir þér, sem skal vardveita þig á þínum vegi, og leida þig til þess stadar sem eg hefi tilreidt þér.

21. Þar fyrir gakktu varlega fyrir hans augliti, og hlýd hans røddu, og styggdu hann ekki, þvíad hann fyrirgéfur ekki ydar misgjørnínga, og mitt nafn er í honum.

22. En sé þad svo ad þú heyrir hans rødd, og gjørir allt þad eg segi þér, þá vil eg vera óvinur þinna óvina, og mótstandari þinna mótstødu manna.

23. En nær ad minn Engill gengur fyrir þér, og leidir þig inn til þeirra þjóda, sem eru: Amorei, Hethei, Pheresei, Cananei, Hevei, Jebúsei, og eg eydilegg þá.

24. Þá skaltu ekki tilbidja þeirra gudi, né þjóna þeim, og eigi heldur breyta eptir þeirra verkum, heldur skaltu nidurslá og sundurbrjóta þeirra skúrgod.

25. En Drottni ydrum Gudi skulud þér
þjóna, svo mun hann blessa þitt braud og þitt
vatn. Og eg vil taka allann sjúkdóm frá þér.
26. Þar skal ekkért vera ávaxtarlaust né
óbyrja í þínu landi, og eg vil láta þig verda
lánglífann.
27. Eg vil senda mínar ógnanir undan þér,
og gjøra allt fólk hrædt, sem þú kémur til, og
eg vil láta alla þína óvini flýa fyrir þér.
28. Eg vil senda b) óflugur undan þér, þær
skulu útrýma fyrir þig þá Heveos, Cananeos,
Hetheos.

b) *Crabrones*, flugur þær ed kvikna af hest hrænm.

29. Eigi vil eg útreka þá á einu ári fyrir
þér, svo ad landid verdi ekki í eydi, og ad villu-
dýrin skulu ekki fjølgast í móti þér.
30. Eg vil útreka þá smámsaman frá þínu
augliti, allt til þess þú vex og eignast landid.
31. Og eg vil setja þín landamerki frá því
rauda hafi, og til Philisteanna hafs, og í frá
eydimørku, og inn til vatnsfallsins. Þvíad eg
vil géfa landsins innbyggjara í þínar hendur,
svo ad þú skalt útreka þá frá þér.
32. Þú skalt ekki gjøra neina sátt vid þá,
eda vid þeirra gudi.
33. Heldur lát þá ekki búa í þínu landi, svo
ad þeir komi þér ei til ad syndgast í móti mér,
því ef þú þjónar þeirra gudum, þá skal þad
verda þér til hneixlunar.

## 24. Kapítuli.

Móses fer aptur uppá Sínaí fjall, og til Drottins.

Og hann sagdi til Mósen, gakk upp til Drott-
ins, þú og Aron, Nadab og Abihu, og þeir
sjøtíu øldúngar í Israel, og fallid fram lángt frá.
2. En Móses skal einnsaman uppstíga til
Drottins, en þeir adrir skulu ekki koma þar í
nánd, fólkid skal og ekki heldur koma upp med
honum.
3. Móses kom, og sagdi øll ord Drottins,
og allann lagaréttinn fyrir fólkinu. Þá svar-
adi allt fólkid med einni røddu og sagdi: vér
viljum gjøra eptir øllum þeim ordum sem Drott-
inn hefir sagt.
4. Þá skrifadi Móses øll Drottins ord, og
hann stód snemma upp um morguninn, og
byggdi eitt altari undir fjallinu, med tólf stólp-
um, eptir tølu tólf kynkvísla Israels.
5. Og sendi únga menn af Israels børn-
um, ad þeir skyldu fórnfæra Drottni brenni-
fórnir og þakklætisfórnir, af nautum.
6. Og Móses tók hálfpart af blódinu, og lét
þad í eina muunlaug, og ødrum helmínginum
støkkti hann yfir altarid.
7. Hann tók og sáttmálans bók, og las hana
fyrir fólkinu svo þad heyrdi, og þá þad svaradi:
vér viljum gjøra allt þad sem Drottinn hefir
bodid, og vera honum hlýdugir.
8. Þá* tók Móses blódid, og støkkti því á
fólkid, og sagdi: sjáid! þetta er blód sáttmál-
ans, hvern Drottinn hefir gjørt vid ydur yfir
øllum þessum ordum. * Ebr. 9, 19. 20.
9. Og Móses, Aron, Nadab, Abihu, og
þeir sjøtíu øldúngar af Israel geingu upp.
10. Og sáu Gud Israels. Undir hans fót-
um var ad sjá þvílíkast sem fagur Saphirus,
og svo sem himin þá hann er klár.
11. Og hann rétti ei sína a) hønd yfir þá
øldúngana af Israel. Og þá þeir høfdu skod-
ad Gud, átu þeir og drukku.

a) (Hønd) hann skélfdi þá ekki med reidarþrumum
og eldíngum svo sem fólkid.

12. Og Drottinn sagdi til Mósis: kom uppá
fjallid til mín, og vert þar, og eg vil géfa þér
steinspjøld, og løgmálid, og bodordin sem eg
hefi skrifad, þau sem þú skalt kénna þeim.
13. Þá stód Móses upp, og gékk uppá Guds
fjall, og hans þénari Jósúa med honum.
14. Og sagdi til øldúnganna: verid hér, þar
til vid komum aptur til ydar, sjá! Aron og
Hur eru hjá ydur, falli nokkur mál til, þá
látid þau koma fyrir þá.
15. En sem Móses kom uppá fjallid, þá
huldi skýid fjallid.
16. Og Guds dýrd byggdi uppá fjallinu
Sínaí, og huldi þad í sex daga med skýinu, og
kalladi þann sjøunda dag af skýinu á Mósen.
17. Og dýrd Drottins var ad sjá þvílíkast
sem einn brennandi eldur, efst á fjallinu, fyrir
augliti Israels barna.
18. Og Móses gékk midt inn í skýid, og sté

